# Su Gamla Vijsna-Book,

Epter hiñe Fyrre / aldeilis rett løgud / med enum sømu Vijsum, Kvædum, Psalmum, Lof-Saungvum og Rijmum.

# Ur H. Ritningu.

Fyrer utañ þad hun er nu lijted aukiñ med fä-einum Kvedlingum Saal. Sr. Hallgrijms Peturssonar.

Aptur ad Nyu uppløgd / Almuga Folke til Gagns og Gooda, æsamt þeim ødrum sem slijkar Vijsur elska vilia og ydka, Gude Almaattugum til Lofs og Dyrdar, Eñ sier og ødrum til Gagns og Skiemtunar.

EDITIO II.

Selst Alment Iñbundiñ 48. Fiskum.

Þrickt a Hoolum i Hialltadal, Af Halldore Erikssyne.

ANNO M. DCC. XLVIII

# Formaale til Lesarans.

KAr i Hwsaga Forordningárẽnar 7. Art: Eru bañadar Hiegoomlegar Historiur, Sogur, Amors Vijsur og Rijmur, Meinast Lyga og Trolla Sogur, Amors Vijsur og þesskonar Kvæde, Lyga og Trolla Rijmur, Sem morgum Almwga hefur þott niesta skiemtun ad, og ofmiog lagt uppa Hiartad, Yfer hvoriu sa sæle Herra Gudbrandur, Biskup þessa Stiftis, Loflegrar Miñingar, Hefur, a siñe Olld, klagad, Og þvi til ad hyndra soddañ, Laated þessa Vijsna Book wtganga, Anno 1612. Til Gudrækelegrar Dægrastyttingar einfoldum Almwga, Ad ei samblandade hañ Daglegt Bænahalld, Adur ærminstum Sogum Kvædum og Rijmum, helldur þvi er Guds Bornum være vel sæmelegt, So sem þad er, sem þesse Book iñeheldur, Bæde Psalmar yfer Gudspiollẽn Ared i kring, Nockrar Rijmur ut af heilagre Ritningu: Adskilianleg Kvæde Gude til Lofs og Moñum til Lijfernesins Betrunar; Um̃ Hattalag og Osidu þessarar Veralldar, Til vidvorunar vondra Epterdæma; Pa hefe eg epter Dæme þess sæla Herra, Hvor med ollum Riette kallast Lumen Patriæ, Og i somu Meiningu laated hana nu aptur a Prent wtganga, Ad sa gamle Osidur verde med heñar Ydkan hyndradur, Og þeirre Allranaadugustu Hwsaga Forordning, Þvi helldur sem allrahlydneslegast epterlifad; Þvi so sem Kongl: Majest: Hefur ecke helldur hier i Lande, Eñ añarstadar i sijnum Rijkium og Londum, Forboded Studium Historicum, So hefur hun ecke bañad Historiam Patriæ, Edur Moralia; Eñ þa sijdur Rijmur af Heilagre Ritningu eda andlegar Vijsur, Er kieña Historiam Sacram og añad nytsamlegt, Pa þad er so um̃ Hond haft, Sem Guds Bornum soomer: Þad er og stadreint ad marger eru langt miñugre þess er þeir heira i Lioodum, Eñ lesed añars af=fram. Hversu naudsynlegt þeir lærdu Fornalldar Meñ, Hafe hverutveggia þetta hallded, Sañferdugar Historiur og Saungva vil eg ei fa mier til Orda, Ad þessu siñe.

Aptañ vid þessa Book hefe eg þrickia laated, Alldar Hatt Saal: Sr: Hallgrims Peturs sonar, Þess Nafnfræga og myked Elskada Skalds vors, Med annotationibus þess lærda Mañs, Saal: Sr: Eyulfs Jons sonar, Ad hañ ei oldungis under Bord dette, Helldur undañ hañs Hende, O=afbakadur, Under Pressuna komest; Fyrst lærdum Moñum til þocknunar og þienustu, Og so þeim, Er a soddañ nockra, meire, Edur miñe, Þecking hafa; Lijka til Uppvakningar, Þeim Ynglingum Alldar vorrar, Er synast meiga, (allt ofmarger) Ættlerar Forfedra

fedra

fedra sijna, Ef ske mætte þeim rise Hugur vid Omensku siñe, Flaattskap og þess-
hattar, Eñ kostudu Kapps uñ, Ad verda hvor odrum ad Mañdoome, Ærleg-
heitum og odrum þesskyns Dygdum meire, Sier til Æru og Fodurlandenu til besta.
Syslumadureñ Sr. Jon i Grenevijk hefur tilsendt mier (Vir laude dignus) ad-
skilianlega andlega Kvedlinga, Og lofad Rijmum af Heilagre Ritningu er ort hefur
Sal. Sr. Jon i Lauf-Ase, Sem eg og vil laata (lofe Gud) a Prent utganga, sia e
eg þad þesse Book verde keipt; Þvi ur þesshaattar Rijmum og Kvedlingum, Er
naudsynlegra ad muna, Eñ vitlausum Trolla Sogum og Rijmum, Hveriar Gud-
hræddt og hygged Foolk hatar, og vyrder ei ad heyra. So sem Verk þetta er i
DRottens Nafne Uppbyriad og nu endad i þvi skyne, ad þad verde a þañ Haatt med-
tekeð og uñ Hond haft, Ad Guds verde einasta Dyrdiñ, Eñ Lesenda og heyr-
enda Akioosanlegaste Avoxtur sa er leide þa fra Hiegoomlegum Efentijrum, Eñ til
Epterlaungunar og Ydkunar alls Sañleika Guds heilogu Orda, Þa Oska eg af Hiar-
ta þad framgeingt verde. Guds og hañs Elskenda.

Hoolum
Dag 25. Aprilis
Anno 1748.

Einlægur Pienare
Halldor Brinjolfs son
Biskup yfer Hoola Stipte.

## Formaale þess Sæla Herra, Gudbrands Thorlaakssonar.

Kuñugt er þad goodum Moñum, Ad eg hefe uñ nockur Ar, feingest vid ad laata pr-
enta Kver og Bæklinga, Sem eg meinte ad til gagns og Nytsemdar vera mætte einfolldum
og ofroodum, Eñ hvad skiedur? Þeir Bæklingar liggia hier, Og fwna nidur, Nema
þad sem eg gief i burt. Fyrer nockrum Arum klagade nælega hvor Madur, Ad ecke
feingest þad nya Testamentum, Ecke giæte aller Bibliu keypt, Nie hana med sier bored, Eñ
nu þad er fallt, Fiñast faaer sem þar uñ hugsa, Alijka og eins geingur eñ til, Uñ Vijsur og Kv-
æde; Þeir eru allmarger sem jafnlega hafa bedest epter Vijsum og andlegum Kvædum, Hvra
þa munr lijted vanta, A sañan Saaluhiaalpar Froodleik, og være vel ef so reyndest, Og þo ad
eg sie þreyttur og uppgiefeñ, Ad eiga leingur vid þad kostnadarsama Prentverk, Þa skal þo eñ
laata þad epter þeim, Sem slijkt girnast, Ef ad Gud villde giefa, Ad af mætte leggiast, Þær
Bruna Vijsur, og Afmors Kvæde, Sem allmarger elska og idka, Eñ i stadeñ upptakast þessar
andlegar Vijsur, Sem gooder Meñ hafa ort og kveded, Gude til Lofgiordar, Froodleiks og
Skiemtunar, So ad Ord Guds mætte rijkuglega hlioода, Og a medal vor byggia, So utañ
Kirkiu sem iñañ, So sem S. Paall aminner oss i Pistlenum, Til Coloss. 3. Cap. Og ad af
mætte leggiast onytsamlegt Kvædalag; Og hvad añad sem ecke er Gude þægelegt, Nie Moñum
gagnlegt, Meñ hafa adur kveded Rijmur af Fornmoñum, til Skiemtunar og Dægrastittingar,
Og i Frasagnr fært þeirra Ord og Giorder, Þvi skylldu nu þa Meñ ecke helldur kveda Rijmur
og Kvæde af heilogum Moñum, Þar bæde er i Heilsusamlegur Lærdoomur, Og good Dæme,
Epter ad breyta. Og er þeim Þacker ad kuña sem sig hafa lagt til þess, Guds Orde i Skalldska-
par Maale so fram ad fylgia, So sem lioos Dæme eru til i þvi gamla Testamentenu, A med-

al slijkra tel eg fyrst og helst þañ gooda Mañ sijra Einar Sigurdsson, hvørs ad er sa fyrre Partur þessarar Vijsna Bookar, Hiñ añar er so sem Samtijningur fornra og nyrra Kvæda, hvad allt eitt med ødru jeg hef laated prenta þeim til Gagns og gooda, sem þad þiggia vilia. Sie almaattugum Gude Løf og Packargiørd, Fyrer allar sijnar Gaafur andlegar og Lijkamlegar, Amen.

Gudbr. Th. S.

## Til Lesarans.

LEsare goodur lijttu a, Liooden Einars mørg og sma, stitta Dægur og stødva Praa, Standa samañ a eirne Skraa.

Heilagur Ande hvørt eitt siñ, Hefur þad kient mier Brooder miñ, Lijfsins Krydd ef lijted siñ, Ad leggia þad ecke i Kistur iñ.

Eys eg þvi so ut um Land, Ad avaxtest i goodre Hand, J nylegt Elsku Maadar-Band, Nefne eg þar til fyrst Gudbrand.

Okeypt so sem eg þad fañ, Hvad Ande Guds mier veita vañ, So lijka af slijku lofe þier þañ, Þau læt eg i tie vid sierhvørn Mañ.

Launen i moote legge þier, Lofed nu jafnañ Gud sem ber, Mig auman Præl so elskar hier, Hañs Andagipt ad hiaa mier er..

Sijdañ bid eg þess lærdañ Lyd, Sem lijtur þetta Hroodrar Smijd, Ordeñ stird og ecke þijd, Þeir endurbæte fyrr og sijd.

Kvæden hafa þañ Kost med sier, Þau kieñast betur og lærast giør, Eñ Maaled laust wr Miñe- ser, Mørgum ad þeim Skiemtan er.

Þvi hef eg funded þetta Saad, Þad þacka eg heilags Anda Raad, Børnum gief eg þad besta Raad, Þvi betra er slijkt eñ Spott og Haad.

Lære nu hvør sem Liooden sier, Og lijtur a þetta Mærdarkver, Bid eg þañ Gud sem ædstur er, Ad Avøxt goodañ færum vier.

Herra Gudbrands Hiartad ment, Hialpar til so gott sie kient, Liufum hef eg þvi Liooden sent, Hañ lofar ad giefa þau ut a Prent.

Þo valla hæfe Virding nu, Vijsna bøgunum mijnum su, skil eg þad til ad skipter þu, Og stickanlega Flockum snu.

S. Einar Sigurs son.

MOodur Jardar Gud giørde, Gudbrand Fødur viliande, A Js-Lande lioosu reyndar, Lifa Verk Yfermans Klerka, mættu Þiooder þraatt ræda, Um þañ DRottens Mañ votta. Gud- brand Heidur Hende, Herrans Verk bera good merke.

Krøss langur þess þijngre, Þel hreinañ vel reyner, Gude kiærañ hvad heyrest, Hentar Ydis Prent Smidiu, Ord DRottens vardveitte, Vel lærdur til færde, Gudbr.

Vorer Landar srender, Ofblandner sofande, Guds Verk ydur ei orka, Ad hræra þad læred, Ad lofa Herrans Giøf hærra, Sem Hugur klaar duger med Taarum, Gudbr.

So lætur nu nioota, Naadar feingeñar Gud leinge, Þad Land ef Þiooden fyndest, Þacklaat nockud i Maata, Heill life alla Æfe, Æru virdur kiær Hirder, Gudbr.

S. Einar Sigurdsson.

Ad

## Ad Lectorem.

Bydur Ritning ræda, Rædholl um̃ Verk Ræda, Frijd med føgrum Kvædum, Og froodu Psalma Hlioode, Gudbrandur af goodu, Greidur a Prent nam leida, Fræde Bækur bæð-ar er bioodást froomum Pioodum.

Lande lyser blindu, Lyndis klar vel hindrar, Vonda Aftriw, endar, Undrum Myrkra Blunden, Grandvar Guds Mañ synde, Grundvøll Lijfs og Stundar, Mundur midlest Aundum Myndugur Fridar yndes.

Aulld bere Isa Folldar, Alldrei Lund so kallda, Ad giallde ei Gude med Snilldum, Gifta Packar Skylldu, Er villde i Villu Hølldnum, Velldis ysta Fellde, Millde Ords Alvalldur, Eyding skijne ad Kvøellde.

S. Magnus Olafs son.

# Registur yfer þessa Vijsna Book / Og standa fyrst Gudspiøll, a Suñudøgum, Og ødrum Hatijdum, Sneneñ i Psalma; Þar med jafnframt hvøriu Gudspialle, nockur Sextan mællt Erende, Iñehalldande Suñam og Meining hvørs Gudspialls.

## Fyrre Parturen.

## Rijmur og Kvædi tekeñ ur Ritninguñi.



## Añar Parturiñ.



Mañ-

Af

## Hellsan Bookareñar til Lands-Foolksins.

Heilir Landar
Ok Lyda Kindir
Jsa Froni aa,
Karlar ok Konor
Ok Kristin Børn,
Sitid sæl i Rañi.

2. Her em ek til ydar
Hwsa komin,
Ef lystir oss ad lijta
Margfrod, skiemtin
Ok mikils vird
Alldum fyRum aa.

3. Laak i Leyni
Lengi Tijdar,
Sodan mik faair fundu,
Gudbrandt mik sændi,
Saa in̄ godi HeRa,
Føgrum Ferda Stakk.

4. For ek of Land,
Ok of Lyda Siaut,
Sala kyñi at sea,
Gloddust allir,
Þegar hin̄ goda Frw
Villdi med þeim vera.

5. Eyddak Trøllum
Ok Uvættum
Bragna Bygdum ur,
Liotum Lygum
Ok leidu Klaami,
Papa Villu ok Pwka.

6. Tylftir Ellifo,
Tugur haalfur nær
Varo lidnir Vetra,
gamall vard min̄ stackr,
graafol vard mijn kin̄,
Sin̄ti Seggia saatt.

7. Uns mik færdi
Fati gomlu af
Heidri vafin̄ Herra
Ok af Skarlati
Skykkiu gaf,
Þa ek nu of herdar hefk

8. Halldor Biskup
heitir
Hoola Stiptis,
Saa var Brynjulfi
borin̄,
Hañ er mier gevgin̄
J Gudbrands Stad:
Hañs skal ek at goodu
geta.

9. Nu em ek svo frijd,
Sem ek fyRum vark
Æsku Døgum aa,
Em ek nu aukin
ALLDAR HÆTTJ
Ok frijdri FLÆRD-AR-SENNU.

10. Komit ok kaupit,
Kvedit ok kingit,
Frijda Forn-Etañ,
Fleiri skulut sea,
Ef mer fagnit vel,
Mijnar Maal-Vinur.

11. Eñ horskir Hrafnar
Skulu þeim aa haam Gaalga
Slijta Sioonir wr
Sem mik lasta,
Edur Leid-Stofum
Kalldsiñadir kvedia.

12. Sitid heilir
Saungva Rañi i,
Unit goodu Gamni,
Konor ok Karlar
Ok kæru Born
Jsa Foldo aa.

### Lands-Folkid svarar.

1. Velkomin þu ver,
Vina Forn-Alldar,
Ok eña nyRi Nidia,
Fognum ok fognum,
At hid frooda Vijf
Gengur oss at Gardi.

2. Vel se Gudbrandi,
Vel se Halldori,
Er þik Pelli pryddu,
Blijdra Meniar
Ver þu um̃ vort Land
Lifi beggia Lof.

Gunnar Paalsson.
Skoola M. aa Hoolum.

# Suñudaga Gudspiøll/ i Psalma snweñ

## Ared uñ kríjng, med ymsu Psalma og Hymna Lage.

### Fyrsta Suñudag i Adventu, Evangelium Matth. 21.

Med eins Notum og, Eirn HErra eg best ælte.

JEsus foor i þañ Tijma, til Jorsalaborgar skiær, med Læresveina sijna, sem þeir komu so nær, Bethphage ad þar ender, Oliu-Fiallsins Hlijd, Tvo Læresveina sender, Sialfur aa þeirre Tijd.

Gange þid greitt til Bygdar, sem gagnvart yckur er, sagde hañ so aan Stygdar, Sæked til Handa mier, Fiotrada Ausnu fiñed, og Fola hiaa Moodur sijn, Leysed og Lijd þad iñed, Leided þau so til mijn.

Ef nockur mæler moote, meige þid ansa so, Hafa þau HErrañ hlioo, Hañ mun þeim sleppa þa, Epter Spamañs Ordum, allt er þad nu so skied, þar hañ uñ þetta Fordum, A hañ Veg hafde tied.

Dootter Sion hin dijra, Dansa og liett af Pijn, þu sier þiñ HErrañ hyra, hijngad koma til þijn, Hañ situr aa Ausnu eiñe, sem aadur Klyfiar ber, Og Fola med Ausnu hreiñe, Hoogvær saa Kongur er.

Peir Tveir giora og greida, giørvallt sem baud hañ þa, Fola og Ausnu framleida, Fot sijn logdu þar aa, Sialfañ JEsum uppsettu, Sooktu so fram aa Leid, Lijdur med Losenu riettu, Laut honum uñ þad Skeid.

Fagurt var Foolksins Æde, sem fylgde honum aa Veg, Breidande Kosta-Klæde, og Kvista-Bloom prijdeleg, Krijngum hañ sijdañ sungu, Sæta Lof Osaña, baadu med blijdre Tungu, Blessest æ Kongur saa.

Naalgast þitt Naadar-Rijke, Naaduge HErra miñ, Giefdu eg giore so lijke, Guddooms Viliañ þiñ, Laattu mig Lofgiord vanda, Lijka so þockneft þier, Fyrer Astgiafer allra Handa, Auktu nu Trwna mier.

### Nockrar Vijsur af þessu Gudspialle.

DOtter Sion miøg mætter, med Lofkvæde glediast, Kongur þiñ kiemur nu hijngad, Kiær i Faatækre Eru, Rausnar ør rijdur Ausnu, Reñur Fole med þeñe, Fridsamur frelsar Lijde, Fagnar hvør sijnu Gagne.

Christus Koongureñ beste, Komeñ i Faatækt auma, Maattugur Dijrdar DRotteñ, Dijrum Sigre ad stijra, Hañs Tilkoma hreinse, Hiartans iñre Parta, So hæðst Lof honum til Astar, Og Heidur skylldugañ greidum.

Tungur Eingla Samsijngia, Sañlega Roddu Maña, Lofgiørd DRottne Dyrdar, Dag og Ar med Saung fagrañ, Ad Hædsie Gud Holde klædest, Af Hijngadburde þeim syngium, Fioorar Vikur ad fleira, Uñ Fæding hañs þadañ af Rædum.

## Añañ Suñudag i Adventu, Evang. Luc. 21.

Med Notum, Heimele vort og Hwseñ med.

TAlar JEsus ad Teikn mune skie, A Tungle Soolu og Stiørnum, Og Ognar Kvol ꜳ Jørduñe, Yfer þeim Kvijdagiørnu, Sioor og Bylgiur þa hlioода hꜳtt, fyrer Hrædslu Meñ þa missa Mꜳtt, af Heims frꜳbærum Fyrnum.

Kraptar Himnaña hræraſt þa, Hijngad i Skye mun koma, Mañsins Sonur af Himne hꜳ, med helgum Dijrdar-Liooma. Nær þetta skier þa hefied hꜳtt, Høfudeñ upp þvi nꜳlgaſt brꜳtt, Endurlausn ydar med Sooma.

Fyrer ydur virded Fijkiu-Trie, Og fleire Eikur Skoogar, Þier vited ad nærre Sumre sie, þa syna þau Blomur noogar, Eins lijka þañ Tijd þetta skier, Þeinked Guds Rijke nꜳlægt er, Hiedan af þa og þegar.

Sañlega Sañlega sagde hañ, Sveiteñ Christeña Maña, Forgꜳnga ei nie eydast kañ, Iñ til þess slijkt fær kaña. Jord og Himnar forgꜳnga fliott, Folnar giørvallt og hrørnar skiott, utañ Guds Orded saña.

Eg trwe þvi sem þu sagder hier, Sæte Guds Son og Millde, Bid eg þu giefer vel Gaum ad mier, Og geymer med Hlijfdar-Skyllde: Auktu mier Krapt i Eymdum þeim, sem yfer falla þa þeñañ Heim, Stødugur standa villde.

## Vijsañ.

HJer talar uñ Teikn ꜳ Soolu, Tungle eirneñ og Stiørnum, JEsus og ꜳvijsar, Undur Sijdustu Stundar. Seiger ad Sueitum æge, Ad Sioor og Bylgiur stoorar, Hlioode og Meñ þa mædest, mest af Ognum flestum.

Mun þa Milldur synast, Mañsins Sonur ꜳn Vansa, J Tign og Skye skygnu, Skiær med Dyrd og Æru. Høfudeñ skulum vier hefia, hꜳtt upp þvi til DRotteñs, Vor Endurlausn iñañ Stundar, Algiørd tekur ad nꜳlgast.

Lof sie HErra liwfum, Er lætur oss ad þvi giæta, Komed er til þess Tijma, Teikn øll fyrer oss reiknud, Sumar med sijnum Blooma, So er nær Børn mijn kiæru, Ad Brwdgume vor med Blijdu, Breider Fadm, Verum til Reidu.

## Þridia Suñudag i Adventu, Evangelium Matth. 11.

Med þad Lag, Kouung David sem kiende.

JOhañes Christum kiende, Kraptaverk heyrde hañs, J Fiotrum sat þo sende, Sijna Meñ ad fꜳ Ans, Þeir søgdu so til Sans, Ertu sꜳ eyder Kvijda, Ellegar skulum vier bijda, Eins añars Hiꜳlpar-Mañs.

JEsus svarar og sagde, Seige þier Jone frꜳ, Byrtest ydur ad Bragde, Blinder nu fullvel siꜳ, Lijkþrꜳer Lækning fꜳ, Hallter gꜳnga og hlaupa, Heilsuboot þarf ei kaupa, Hiñ Daufe heyra mꜳ.

Upprijsa eirneñ Dauder, Aumum er Gudspiall tiꜳd, Fꜳtæker fagna Sauder,

er,

er, Fyrer þad Lijknar-Saad, Sem riett er þeirra Raad. Sælañ hañ hvorn eg seige, Sem ad nu hneiplast eige, A mier eda miñe Naad.

Pa Sendemeñ fra þeim fooru, Foolkenu sagde hañ, og þeim epter voru, af Johañe skijrt sem kañ, greiner til Guds Vin hañ. Hvört lyste ydur ad lijta, linañ Reyr og Stor hvijta, þad er ei þesse Mañ.

Villdu þier siaa hañ Sveina, er Silke-Klædeñ ber, eg kañ þad klaart ad greina, i Konga-Hollum þad skier, ad margur med þau fer. Ef Spaamañ skylldut skoda skijrlega eg þad boda, þesse þo ædre er.

Johañes er sa eine, ædur er fyrre spaad, Fyrer-reñare hiñ hreine, hafa so Spaameñ tiaad, sem stendur skrifad og skraad. Siaa þu eg Ord mijn ende, miñ Eingel fyrer mier sende, sa velur mier Veg med Daad.

Framar ried JEsus iña, um hañ Dyrdar Mañ, ad fæde eingeñ kreinkt Kviña, af Kallmañe nockurn hañ, ad ædre sie helldur eñ hañ, eñ hañ ollum miña, i Guds Rijke maa fiña, veglegre verda kañ.

Gief þu JEsu eg giære, af Giæsku Verkum þig kient, þar næst med Lijtelæte, þa lifande stundad Ment, þitt Ord sem oss er sendt, Einord hrein um ad bæte, so alldrei Heims Mootlæte, faae mig fra þier spent.

## Vijsañ.

Maakttug Verk munu þad votta, ad Messias eirn er þesse, JEsus af þvi vijser, ædur Spaameñ so tiaadu; ad þegar þad Fostred fræga, fædest skulu þa bæde, blinder siaa strax og standa, stalltranar laust hallter.

Reydd Briooft, þau miøg mæddust, Messias aatte ad hressa, og Gledena Gudspialls Raadar, goodfwsum Hug bioода, þetta Verkeñ nu votta, er veykur sa Judar hneykia, JEsus vañ ad vier sõnum, almaattugañ Gud DRotteñ.

## 4. Suñudag i Adventu Evang. Johañ. I.

Med Lag, JEsus Guds son Eingieteñ.

SAa Vitnisburdur hiñ Vallde, vottast nu giorla hier, er Johañes Judum talde, Jatning hañs soñ þad er, fra Jerusalem þeir senda, Syne Levi vel kienda, med Hofud-Prestaña Her.

Þeir friettu ad hvort hañ være, HErrañ saa Christur ei? Hañ svarar sem honum bære, seigande vid þvi nei; Ertu Elias froode, eda sa Spaamañ goode? Nei kvad hañ þvert vid þvi.

Framar þeir frietta villdu, og færa Svar heim med sier; Baadu hañ skijra skyllde, skiootlega hvor hañ er, og þvi ecke tregde, eitthvad so lioost hañ segde, riett af sialfum sier.

Johañes ansa naade, eg er þad Raddar-Hliood, sem Esajas um spaade, af Eydemörku stood, Gotu DRottne þier greided, og giøred hañs riettar Leider, huggest nu Hiørtun good.

Fra Phariseorum fooru, fyrr greinder sende-Meñ, sem af þeim valder voru, voktu þa Spurning eñ, þvi Skijrer ef ertu eige, af þremur þeim eiñ eg seige? Ansar þeim øllum señ:

Eg skijre i Vatne ad vanda, veit þo hia ydur hañ, mitt i midiu standa, munud ei kieña þañ, epter mig kiemur hiñ kiære, þo kroptugur fyrer mig være, Heimsins Hialpar-Mañ.

Po framfallande eg fære, ad Footum þessa Mañs, verdugur ecke være, ad vera þa Skoo-Sveirn hañs. Su Skijrnar Skickan klaara, skiede i Bethabara, vid Jordan Juda-Lands.

Eg er nu JEsu goode, þiñ aumur Læresveiñ, kalla med hvellu Hlioode, hvorn Mañ jafnt sem eiñ. Veit þu eg Veg þiñ greide, og volada til þijn leide, sie trwr og Hiarta hreiñ.

## Vijsañ.

Jon Baptista eina, Jaatning giører og vitnar, Sañleik sem ad hañ kuñe, sig neitar Christ heita, Elias ei kvadst vilia, eda Spaamañ sa añar, halldeñ haar i gillde, helldur Leid DRottens greida.

Eñ nu Christum so iñer, Judum þeim ei trwdu, i Vatne skijre eg eñ vitna, vera Mañ hia ydur añañ, þañ ad þier ei kieñed, þo mun epter mig koma, fyrer mig fra eg hañ være, Footum hañs villda eg Lwta.

Med krøptugra Krapte, kañ hañ skijra Mañeñ, sender Astar Anda, Elld Naadar liwf-felldañ, ert i Audmiukt Hiarta, ellegar Brioosteñ svella, af Hardud so þau herdast, i heñe og ædru breña.

## A Joola Haatijdeñe, Evangelium, Luc. 2.

Laged, Til þijn heilage Herra Gud, etc.

Kraa Augusto þad wtgieck Bod, ad allur Heimureñ skyllde, afskattast og alls kyns Piood, under þad ganga villde. Sw Skattskrift hoost i Syria, af Syrjno Lands HErra þa, fyrsta i fullu gyllde.

Sier hvør foor sem sett var a, til siñar Borgar vitia. Joseph og Mey Maria, maattu ei heima sitia, til Davids Borgar Betlehem, þvi bæde voru af Ættlid þeim, i Judea upp sig flytia.

Jomfrw Maria Oliett var, sem Joseph fastnad hafde, heñar Tijma ad heñe bar, hun medañ þar tafde. Frumgieteñ þar fædde Son, i Faatækt Heims sem ætte Von, og veikum Reyfum vafde.

Hws Rwm feingu þau hvørge þo, sem heyrelegt ad være, i Asnastalle þvi uñ hañ bioo, so af honum Kulldañ bære, Nætur-Vakt hielldu Hyrdarar Fiaar, hia þeim stood Guds Eingell klaar, Leiptur og Lioomeñ skiære.

Ottast Fiaarhirdar, Eingell bad, ecke þeir hrædast villde: Fagnadar Bod ydur fær eg þad, Foolk allt miøg gledia skyllde, i Dag Frelsareñ fæddur er, fram i Borginne Davids hier, Christur sa Kongureñ millde.

Hafed þad Teikn þier hitted Svein, huleñ i Stalle einum, boreñ til þess ad bæ-

ra

ta Mein, hwenn i Reisum hreinum: Margur byrtest þa Himna Her, Hirdorum sa sem Flockum ser, medur þeim Engle einum:

Syngiande Gude sæta Dyrd, og Sigur i hædstum Hædum, Liwsur Fridur med Lijd a Jord, yfer Laane og allskyns Giædum, og Vilia gooder ad verde Menn, veita skylldum þad aller senn, med andlegum Astar Kvædum.

Sæte Fader eg þacka þier, þijna Elskuna hreina, Son þinn goodann ad gafstu mier, Grædarann allra Meina. Gief þu eg sinne Fognud þann, framar sem alldrei bregdast kann, fyrer þa Elsku eina.

## Vijsann.

Hyrdarar sia og heyrdu, helgu Nooft Eingla DRottins. Fognud feingu megnann, fæddann Christ þar med ræddu, Heidur Gude a Hædum, hier Fridur a Jordu nidre, Mønnum miukleatt-Sinne, mæla Einglar fullsæler.

Fæding þijn Lækner Lijda, lijsgar Menn þa þig kienna, aumum hiaalpar Heime, hætt Mein endurbætter. Sool Riettlætis sæla, svart hun drage wr Hiarta, JEsus eirn mier lyse, so ill Synd fear ei blindad.

## Annad Evange. Joh. I. Umm eilijfa

Guds Sonar Fæding af Fødurnum, med Hymna Lag.

I Upphafe var Orded fyrst, hia Gude einum i Dijrdar-Vist, þad Ord var Gud þess giættu vijst, giort er allt fyrer hanns Krapt og List.

Hvad sem skapad er allt og eitt, ann þess ad giort er ecke neitt, i þvi var Lyfnar Lijfed heitt, Liooſed eirneigenn Mønnum veitt.

Liooſed i Myrkrum skiært ad skein, skada þad ecke Myrkur nein, Johannes nefne eg sende Svein, sa kom med skijra Vitnis Grein.

Af Gude sendest sa goode Mann. Sem gløgt umm Liooſed vitna kann, ad aller trwe, enn ei var hann, þad edla Lioos sem lijfga vann.

Pad sanna Lioos þann Liooma ber, lyser øllum i Heime hier, i Heimenum var hvad hann ei sier, Heimurenn fyrer þad giordur er.

I Eign sijna kom Soolenn su, sijst medtooku hann eigenn Hiw, þeir hann medtooku þa og nu, þeim gaf hann Arf fyrer sanna Trw.

Ecke þeim sem af Ættar-Snylld, ei Holldsins Gyrnd nie Mannsens Villd, helldur þeim sem Guds Giæska milld, giefur þann burd fyrer Naadar Skylld.

Orded vard Holld og hia oss bijr, hefur oss byrst þess Virding dijr, eingietens Sonar eins sem nijr, edlis Kraptur sa Odygd slijr.

Af Fodurnum gietenn fylldur Daad, fraabærre Trygd i allre Naad, hvor ad best giemer Sannleiks Saad, sie honum Dijrd umm Lopt og Laad.

Goode JEsu vor Gud og Mann, gled eg mig nu vid Kiærleik þann, sem Fodur þijns Elskann uppa fann, Ord hanns og Naad so til mijn rann.

Soolenn Riettlætis send þu mier, þad sæta Lioos sem skijn af þier, Synda myrkrum og Villu ver, vor Natturann þvi saurgud er.

Sama Evangelium, med Liliu Lag.

I Upphafe var þad Orded liwsa, þad Ord hia Gude i Dyrd var Fordum, þad Ord var Gud sem giørvallt giørde, Giørdest bæde a Himne og Jordu.

Þad var Eilijft ædra Soolu, Æ hia Gude sem Trw ma nægia, An þess giørdest ecke Raunar, alla Daga hvad Gott ma kallast.

J þvi var Lijf og Liooſed ſkiæra, Lioos ſañaſta Byrting Maña, þad Liooſed meſt i Myrkrum lijſer, Myrkur eingeñ þad høndlad feingu.

Sa var Madur ſendur af Gude, Sañlega veit eg ad Johañes heiter, Hañ vard ad koma til Vitnisburdar, ad Vitne bære af Liooſe ſkiæru.

Um þad vottar allt med Riettu, Eñ ei var hañ þad Liooſed ſaña, Helldur ſo fyrer Ord hañs ſkylldum, Hlioota Trw og leinge niota.

Þad ſañaſt Lioos til Lijknar Moñum, Er lijſer þeim i øllum Heime, J Heimenum var þad hreint og ſkiæraſt, Heimur og Jordeñ fyrer þad giørdeſt.

Heimureñ blindur vafeñ i Vondu, Veit hañ ei nie þeckia leitar, Su Tign kom til ſiñar Eignar, Siaalfs hañs Meñ medtooku ei þeñañ.

Eñ ſo marger af Mwga mørgum, Sem medtooku hañ og vid þad glediaſt, þeim gaf hañ þa Dyrd Guds Bornum ad verda, ſem a Guddooms Nafn hañs treyſta jafnañ.

Hverier ad ei af Blande Blooda, nie blyndre Lijking Holldſins Syndar, Edur af Kallmañs Freiſtneſullum, Fautt ſkiliande Gyrndar-Vilia.

Helldur þeir ſem af hæſtu Millde, Himna Smids ad verda Nidiar, Borner af þeim beſta Kiarna, Bleſſudum HErra Gude til þeſſa.

Orded vard Holld af meſtre Millde, Medur oſs dygdugt ſijdañ bygde, Vier ſaaum hañs Dyrd og alla Æru, ſem Eingietens Guds Sonarens hreina.

Af Fødurnum boreñ fullur Naadar, Færer oſs þad Liooſed ſkiæra, Sañleiks Orded ſo ad vier verdum, Sijdañ Guds Børn ef ad vier trydum.

Um JEſum þeña Jardteikn liooſa, Johañes giører og vottar þeñañ, Hañ er ſa eg ſyne ad ſoñu, Og ſagde Madur kiæme ad Bragde.

Epter mig med ædra Krapte, ſem adur var fyrr eñ eg til Naada, af hañs Naad og Nægdar Dygdum, Naad ſaaum aller fyrer hañs Naader.

Fyrer Moyſen Guds Vin Løgmaal lyſteſt, Eñ Lijf og Naad fyrer JEſum tiadeſt, um Allder hefur þo eins Guds Vellde, Eingeñ Madur ad lijta feinged.

Sonur Eingieteñ Fødurs i Fadme, Oſs fyſelega þad underviijſar, Honum ſie Lof fyrer hædſtar Gaafur, Heidur og Valld um allar Allder.

## Añañ Dag Joola, Evangelium Matth. 23.

Med Notum, Fader vor ſem a Himnum ert.

Sjaae þier eg nu ſenda um Hrijd, Seiger JEſus vid Gydinga-Lijd, Skrift-lærda Spaka og Spaameñ, Spottad hafed þa fyrr og eñ, Hwdſtrykt og i Helium fært, So hvørgs var i Borgum vært.

So

So ad allt falle Saklaust Blood, Pad Synda-Straff yfer ydar Piood, Allt fraa Bloode Abels þa, Allt iñ til Bloods Zacharia, Saa ed var Son Barachie, Sem þier drapud vid Alltare.

Sañlega skal nu soddañ Hefnd, Yfer siaalfs ydar Ættlid verda stefnd, Jerusalem þu Jorsala Borg, (JEsus talade þa med Sorg) hvorsu opt villda eg þijn hugga Børn, Sem Hænañ veiter Ungum Vorn?

Eñ þu forsmaader Orded mitt, J Eyde skal verda Hwsed þitt, Og þier skulud mig ecke siaa, Jñ til þess nu hiedañ i fraa, Nær þier seiged ad sæll er sa, Sem i Guds Nafne kiemur þa.

Sæte JEsu þu send oss nu, Sveina þijna med goodre Trw, Gief ad vier elskum Orded þitt, og alla þa sem þad kieña riett. Þiñ Hlijfdar Væng wt sem vijdast breid, Yfer vor Børn oll um̃ þetta Skeid.

## Vijsañ.

Illdum JEsus leiber, Jafnsiñadur til Miñis, Mord þau og Meingiørder, Mest sem veittu Prestum, Hvotar Hefnder veita, Hier sem þijngstar eru, Syner ad hañ sem Hæna, Hegder sier, Eñ þeir bregdest.

Jeg hrædest harda Reide, Og Hefnd Judum aa-nefnda, Fyrer Forsmaan allt ad einu, Orda hañs nema Gud forde, Yfer oss eiñ Veg drijfe, Aller skulum þvi kalla, Ort af iñstu Hiarta, ædur og Boot aa raada.

## Pridia Dag Joola, Evangelium Johañ. 21.

Med Hymna Lag.

Mastor Christur prwdañ spyr, Petrum Prisvar ædur fyrr, Hvort Elskar hañ sig þeim odrum meir, Um̃ þad fleira toludu þeir:

Petur ansar Prisvar þa, Par vid sagde giarnañ Jaa, Hañ kvad JEsum siaalfañ siaa, Og sañlega hafa þar Skynsemd aa.

Prisvar JEsus þesse Ord, Par til lagde ecke hord, Su er mier þæguft Astargiord, Pu aler mijn Lomb og Sauda-Hiord.

Framar kvad JEsus fylgdu mier, Froome Petur Johañ sier, Epterfylgiande eirneñ hier, ad spyr: til hvors nu þesse er?

Saa Læresveiñ var Christo kiær, Um̃ Kvolldverd laa hañs Briooste nær, og Undervijsan um̃ þad fær, Hvors illt Svikræde Hiartad slær.

JEsus svarade ef so skier, Ad eg vil mijn hañ bijde hier, Hvad snertur þig þad añars er? Epterfylgia skalltu mier.

Ordrædañ sw wtgieck þa, ad ecke deyr Læresveiñ saa, Eñ JEsus kvad þar ei so aa, utañ ef mijn so bijda maa.

Saa Læresveiñ vijst ad Vitne ber, Vottande þad og skrifade hier, So i Sañleika Vitnum vier, Hañs Vitnisburdur riettur er.

Gief þu JEsus eg uñe þier, Alle þijn Lomb sem baudstu mier, Ofunde ei nie hnijsest hier, Um̃ hitt sem odrum leinad er.

## Vijsan af þessu Gudspialle.

PEtur Prisvar nam Reita, Nu jaatar Gladlaatur, Folskalaust JEsum Elska, Ad ala Fie Guds wtvaled. J helgum Sid sier bad fylgia, Sonur Guds, en hin grunar, Jon Postula Asthreinan, ad Eilijfu kyrran blijfa.

Laattu mig Liwse DRotten, Lijka nu af Ast rijkre, Fæda og Foodra Saude, Fylgia þier en ei vera, Med Sorg og Ofund arga, Um anara Luckn Mana, Veittu ein ollum Stiettum, ætijd þess ad giæta.

## A Barnadagen, sem er Floorde Dagur Joola, Evangelium

Matth. 2. Med Lag, Guds Son kallar komed til mijn.

HA Herodes bad heyra van, ad hofdu Vitringar gabbad han, fullur med Foss og Bræde. Sende han wt med Sverd i Stad, Svein-Bornum veita Heliar-Bad, Geystur af Grimdar-Æde.

J Betlehem þar Barn var fædt, Bornen hafa þeim Dauda mætt, Tvævetur og oll hin yngre, Epter þeim Tijma aa var sett, Af Vitringunum hafde friett, Þesse var Reyden þyngre.

So fyllteſt þad sem fyrr var spaad, Og Fordum Spaaman hafde tiaad, Heyrast mun Kall aa Hædum, Reigen Graatur og Raddar-Hliood, Rachel sijn grætur Bornen good, Huggast ei Harms af Rædum.

Epter Herodis illan Deyd, Eingell Guds kiende Joseph Leid, wt af Egyptalande, J Draume bad han hallda heim, J Heliu være þeir Sveine þeim, villde verda ad Grande.

Joseph took Svein og Mariu Mey, med sier aa Leid og tafde ei, Foor heim til Juda Jardar, Archelaus saa Rijkium ried, Riettvijs Joseph hans hræddest Sied, Reide og Hefnder hardar.

Vogar þvi ei ad vitia heim, Vitrade Gud i Svefne þeim, J Galilea ad gysta, nærde þvi Bygd i Nazareth, naudugan Svein þar fooſtraſt liet, so var og sagt med Fyrsta.

Af Spaamonum er þad tiaad, adur til Forna so var spaad, So skule Svein sa heita, Nazarenus vid Nafned bætt, sem noog er liooſt og harla sætt, þvi Lausn vill Lijdum veita.

J Utlegd gafstu þin einka Son, Eilijfe Gud sem veslan Þioon, Til Fodur-Lands oss ad færa, Ovina Hrædslu frelsa oss fraa, fyrer oss þa til Heliar slaa, þier sie Lof eilijf Æra.

## Vijsan.

HErodes Svein-Born særer, Saar Naud oll til Dauda, Jafnalldrar JEsu millda, Undan komst han af Stundu, J Utlegd og so flytiast, aptur med Guddooms Krapte, Sem spaad er ad Nafn-Boot næde, J Nazareth þar ed ad setiast.

Fyrerſioon Guds liet færa, Forelldrum Christs Upphellde, J Utlegd af þeim Vitru, adur en viku af Laade, Hier so ad hvor Man lære, Saa hefur Christ, Fær aan Efa, Bæde Blessan gooda, Og Braud i ollum Naudum.

## Sunudagen i mille Jooladags og Atta, Evang. Luc. 2.

Med Lag, Heimile vort og Hwsen med.

FOrelldrar JEsu full af Ast, Fregn heyrande þessa, af honum sagda ad þvi dæast, Og þau Simeon blessar, Seiger til Mariu Moodur hans, Morgum til

Falls er sæ til Sañs, Eñ adra upp mun hreſſa.

Hañ er þad Teikn og Hæfed eitt, Hvorium þeir tala æ moote, Og Harma-Sverded Hiartad þitt, hart-trw eg særa hlioote, So margra Hugskot og Hiartans Pel, hygg eg þa verde augliooſt vel, Po añad yfer ad flioote.

Phanuels Dootter Eckia ein, Anna ſu Spædooms Iña, af Aſſers Kyne Hiarta hrein, hafde ſw frooma Kviña, Med Eignar-Mañe um Areñ Sio, Fra Jomfrwr Doome ſo ræded Fie, Saurgan ei viliad ſiña.

Fioora um Attrætt hafde hun, Himna Guds prijſar Millde, Daga og Nætur þeſs miñaſt mun, Muſtered rækia villde, med Bindinde og Bænahalld, Bijſalar þau æ Drotteñs Valld, Sem Eckiur vel akta ſkyllde.

Sw kom þar fram i ſømu Tijd, ſeiger med ſkijru Maale, Lijdnum þeim ſem ad Lauſnar beid, Leinge til Jeruſalem, Lofar þad Barn ſem liooſt hun kañ, Lijſer ad hañ ſie Gud og Mañ, Eydande Illſku Taale.

Pa giort var allt ſem Bodord baud, Bæde Hioon aptur ſnwa, J Galileam þo nælægeſt Naud, J Nazareth ad bwa, Sveineñ JEſus med Alldre jook, allañ Vijsdoom og Proſka took, med Guds Naad, þvi glogt mæ Trwa.

Lættu mig Drotteñ dædſt ad þeim, Dijrmæta Vitnisburde, Pu varſt boreñ i þeña Heim, So Præll eg frelſtur yrde, Til Uppreiſtar eñ ei til Falls, Ertu mier og Gooda alls, Fæddur ſo Huggan heyrde.

## Vijſañ.

Sidugur Simon ſpæde, Settañ Chriſt med riettu, Til Hrøſunar þeim og Hneiſu, er hønum brivootaſt i moote, Eñ Iſraels Maña, Uppreiſt þeirra ed treyſta: So byrteſt þad bijr i Hiarta, Ef bunded er Taal nidrunder.

Dæſt eg ad Myſkun meſtre, Mañ og Gud fæddañ þañeñ, Riett hvørn Valder vottar, vere Chriſt aller bera, JEſus eg vil kiooſa, ad þu ſliett mig vidrietter, Villu og vondu Faller Verier oſſ kiære HErra.

## Nyærsdag, Evang. Luc. 2.

Med Hymna Lag.

NETTA Dagar umlidner þa, Einer voru ſem greina mæ, Umſkieraſt ſkyllde Sveineñ ſæ, Sem ad hun fædde Maria.

JESUS þa nefnt var Nafned hañs, Neydhiælpare vor er til Sañs, Sætaſta Lijfgun Syndugs Mañs, Sæ oſs dregur til Himnarañs.

Af Einglenum var þad ædur kient, Eñ i Kvid Moodur var þad ſent, Holldganar Sæd af Himnum rent, Fyrer Helgañ Anda med Edled Tvent.

JEſu þu lagder Logmæls Giolld, A Lijkama þiñ og veyka Holld, Særdur fyrer vor Synda Giolld, Pitt ſæta Nafn eg ber fyrer Skiolld, Amen.

## Vijſañ.

Umſkurn Juda Barna, JEſus took ſem vier leſum, A enum Atta deige, Og Nafn þad hañ bar a nañ, ædur af Eingels Rædu, Eñ þad Bicomſtred Kveña, Hañs [illegible] Yrum mæta Svein þeña giæte.

Sonur Guds Hiarta hreine, hefur Løgmaals aan Efa, Bølvan bored ad heilu, og bunded sig Gialld vort under, Vier so friaalser særum, Eñ feingium Hefndar-Giølld eingeñ, Heiter JEsus Bølbæter, Bræde Guds stillta græder.

## Þrettanda Dag Joola, Evang. Matth. 2.

Med Lag, O Gud vor Fader sem i Himerijke ert.

KA Barned JEsus bored var i Betlehem, Þeim Davids Stad aa Juda Jørd, J Tijd Herodes harda, Siaa þu þa giørdu Vitringar wr Austur-Heim, Til Jerusalem fræga Ferd, Sem so seigande verda, Hvar er Nijfæddur Kongur klaar? Komeñ til Juda Sveita, hvørs Stiarna føgur fyrer oss gaar, þvi foorum vier hañs ad leita, Herodes vard þa hier vid faar, og Hof-Foolk Stadarens teita.

Kiænlega spyr þvi Kieñemeñ hvar Christur skal, Fædast saa sem fyr var Spaad? Aller aa eirn Veg svara, J Betlehem Juda-Lands so er þad Tal; af Spaamañenum tijnt og tiaad, Þad skule þar til bera, Ord Spaamañs þau eru þess verd, ad ørt meige Hiortun skiera, Þu Bethlehem a Juda Jørd, Nafnfrægust vijst mun vera, wt af þier mun yfer Guds Hiord eiñ Hertoge hædst Lof bera.

Vid Vitringa hañ leitar lynt med Lymsku ad, Nær Stiarnañ biørt byrtest þeim, Baud til Betlehem sækia, Fared kvad hañ sem greidast maa i greindañ Stad, Sæked þad Blessad Barned heim, sem best þier kuñed rækia, Þa þier fiñed þañ frijda Svein, Færed mier þau Tijdinde, hañ af sañre Heidurs Grein, Hitte eg med Foorn i Hende, Mijn Altar-Bæn skal ecke sein, Ef ea þar fyrstur lende.

Kongenum nu sem hø:du hlytt þeir hielldu af Stad, strax siaaande Stiørnu þa, Er stijrde þeim Fyrra Siñe, fagra Liooșed fyrer þeim rañ og þecktu þad, þar til hun giørde kyrr ad staa, yfer hvar Barned var iñe, Hiarta-Glader þad lijta Lioos, Lotning þeim Sveine veita, Geingu iñ i þad Helga Hws, hañs þa ei leingra leita, med siñe Moodur var Sæmdar fws, Sveirn þar ed Yxnum beita.

Fyrer þvi Barne fiell aa Hnie med Fiesiood hvør, Framseliande Foorner þær, sem hier skal giørla grei:na, Lwtande nu med Naakvæmd þeim, af Naad er ør, og liwfum harla Hiarta kiær, Giefa fyrst Gulled hreina, Reykelse og Myrru med. Milldur Gud liet þeim benda, Ad fiña ei Kong þañ fyrr var tied, Fooru þvi Leid Okienda, aptur aa Veg sem Eingell ried, Austur i Heim so venda.

Oss Heidnum Møñum hefur þu Gud nu tijka lijst, Leidar-Stiørnu þitt liwfa Ord, glefed so gløgt ad kieña, Þvi skijra Lioose gief vier mættum fylgia fyrst, Til Sonar þijns ad flijta Ferd, og fadma so Sveineñ þeñañ, Hønum ad færa hreina Gull, Hallda vel Trwna skiæra, ad Reykelsis Jlm er Ærañ full, Ast sama Bæn ad læra, Myrru Foorn bæter Meineñ øll, Þo meige þess Nauder særa.

## Vijsañ.

LJoos Stiarna Veg liiser, Leid Vitringum greider, Allt til Jerusalem, wr Austur Heim þar komu, Spyria ad hvar hañ være, Hugprwdur Kongur Juda, Þad heyra þa fooru, þaangad med Foorner gaanga.

Hvør er nu Huggun meire, En Heidner Men til þijn leidast? JEsus min og mier lijser, Eirn Veg nu so feirna, Mig leida Guds Orden goodu, Gagn skiær þier heim færa, Foorner þær þu gyrnest, Pad er klaar Hugur med Taarum.

## Fyrsta Sunudag epter Prettanda, Evangel. Luc. 2.

Med Ton, Lof Saung Gude Mey Maria.

NN þa Toolf Ara JEsus var, upp til Musteris geingu, Prisvar um Ared þad til bar, þesse Bodord ad feingu, Liden var fraa su Haatijd haa, og hlijtt Drottens Logmaale, JEsus var þa, Saa allt gott maa, epter i Jerusalem.

Forelldrar vijst ei vissu þad, vonande han med Lyde, Eina Dag-Ferd so fooru af Stad, fyrr en þvi giorla tryde, Kunugum hiaa han hvorge sia, hvad þeim aflade Sorgar, Snwande þa Veg aptur aa, Allt til Jorsalaborgar.

Epter Priaa Daga hitta han, hiaa þeim Lærdustu Monum, J Mustere og þa menta kan, med Vijsdooms Orleik sonum, Vid hvad þeim braa og sagde so, Hans Signud Elsku Mooder, Pvi jooxtu mier þa, so saara Praa, Sonur min Hiarta goodur.

JEsus mællte vid Moodur sijn, mig undrar þad þid bæde, So leinge þvijngud leited mijn, Lwen af Sorg og Mæde, Vited ei þad i anan Stad, ad Bod Fodur mijns rækia, Hvad han aakvad mier baud og bad, bar mier þad fyrst ad sækia.

Underskoodu þau ecke þa, Ordrædu giorla slijka, JEsus þeim hlijdnast epter aa, og ad Nazareth vijkia. Maria bar i Briooste þar, hans Blessud Ord hin sonu, Hans Proske var, med Vitsku snar, Virtur hiaa Gude og Monum.

Haatijder Arsins hefur þu sett, HErra þitt Ord ad læra, Gief þu ad vier þad rækium riett, Reynkelsis Foorn ad færa, framast sem ber, ad þocknast þier, þar næst Fodur og Moodur, Laat Bornen vor so breyta sier, sem bijdur þu JEsus goodur.

## Vijsan.

FOrelldrar JEsu millda, Ad Jafnleingd hvert Ar geingu, Upp til Jerusalem, A Tijd Paaske frijdre, En eirnen med Barned, Ara Tolf þangad fara, Trega þad i Priaa Daga, Pat Christ fraa sier mistu.

Sett hefur sialfur DRotten, Samkundur Manfundar, Ad hlijda riett hans Rædu, Og Ritning sem þad vitnar, Ad furdulega Gud giørde, Vid gooda Men sem vel trwdu, Pijnn Raangläter reyna, Rauner og Straff ad Launum.

## Anan Sunudag epter Prettanda, Evang. Joh. 2.

Med Ton, Heimile vort og Hwsen med.

HAd so til bar ad Brwdkaup var, J Borg sem Cana heiter, JEsu Mooder og Mey þar var, minstu hvad JEsus veiter, Boden var JEsus med Sveinum sijn, Sagde Mooder þa brestur Vijn, Han lætur nær sem neite.

Hvad hef eg med þig mijn Hiartanleg, Hygg ad þvi frooma Kvina, Min Fader ad sonu sende mig, seiger han gott ad vina, Komen er Stund mijn ecke en, Audmiwk bad Pioonustu-Men, Sialfs hans Bode ad sina.

Par voru sett Sex Stein-Kier þiett, ad Sid Hebreskra Mana, Tvo eda Priar

 Mæler

Mæler tooku riett, Eg tel þar um̃ ed ſaña, JEſus bijdur Pienurum þa, Þar ſkule Vatne hella a, Varma full flioott þau reña.

Helled nu a kvad HErran̄ þa, Og hafed til Brullaups-Sveina, Kiæmeiſtaran- um miøg vid bra, mun han̄ þvi ecke leyna, Kiende wr Vatne Vijned ſætt, Vijſt ei hv- ør þad hafde bætt, Pienarar þetta greina.

Vid Brwdguman̄ ſo mællte han̄, Marger i Fyrſtu veita, Pad gooda Vijn ſem gledia kan̄, Giøra ſo Meñ Ølteita, Eñ liettara þa Lijdur gledſt, Leynt geymder þu Vijned beſt, Var ſo ei vant ad breyta.

J Galilea ſem greint er fra, Giørdeſt þad Takn af Chriſte, Var þad til Fyrſt i Borg Cana, Han̄ Bleſſada Dijrd auglyſte, Læreſveina vard vid þad Trw, Viſſe- legana ſtyrkre nu, Sem framar þa bidia fyſte.

Sw Hioona-Stiett ſem hefur þu ſett, HErra og villt hier gledia, Gief þu fyrer þad falle liett, Freiſtne ei kuñe ſkedia. Snw þu Hornungar Vatne i Vijn, Veiter Glede eñ eyder Pijn, Sætleik þiñ lat oſs ſedia.

## Vijſan̄.

BOden̄ ſa Brwdkaup prijder, Og beſtur er allra Gieſta, Chriſtur i Cana lijſte, Af Kiær- leik Guddoms Ærn, Breſtur Vijn Brullaups Koſtar, Væn giører Mooder væna, Vijn- ed wr Vatne hreinu, Verdur þad er han̄ giørde.

Vid Brwdkaup Guds Son goode, Giørde Fyrſt Takn a Jørdu, Hioonum hier ſo ſijne, Hiarta-kiær ad ſier være, Og Hrygdar-Vatne ſo hegda, Ad Huggunar-Vijn wr brugge, J Paradys er ſw Æra, Aüglijſt þegar med Fyrſta.

## Þridia Suñudag epter Þrettanda, Evang. Matth. 8.

Med Ton, Giæſku Guds vier prijſum.

HA JEſus foor af Fialle, Fiølde Man̄s gieck þar med, Pad greiner i Gud- ſpialle, Gløgt hvad hafde ſkied, Pan̄ Lijkþra ſem ſo bad, HErra þu matt mig hreinſa, Og hialpa af øllum Vanſa, Vilier þu veita þad.

JEſus med Hende hrærde, Han̄s Lijkama a, Afled aptur nærde, Og ſo mællte þa, Eg vil vertu nu hreiñ, Han̄s Lijkþra ſem han̄ ſagde, hvarf ſeñ a Augabragde, Vard eins ſem ungur Man̄.

Þar næſt baud ad han̄ þegde, yfer þeirre Heilſuboot, og þad aungvum ſegde, þo- yrde Lækning fliot, Nema hitta prwdan̄ Preſt, Og honum ſig ſialfan̄ ſyna, Og giefa þa Gafu ſijna, Sem Moyſes bijdur bert.

Þa kom vor JEſus kiære, J Capernaum Borg, Til han̄s fra eg ad fære, Firtur allre Sorg, Eiñ Hundrads Hofdinge, Sa bad fyrer ſijnum Sveine, Og ſagde fra þvi Meine, Ad Limafall þan̄ þvijnge.

Jeg vil JEſus ſagde, Jafnſnøgt ganga med þier, Þeim Þioon bratt ad Bragde, Bæta hvad þad er. Hiñ þar mællte a moot, Af þvi ad Ofkop være, Han̄ under Þak ſitt fære, Han̄s Ord ſie Einvallds Boot.

Eitt Ord þitt JEſus græder, Aumleik Pienara mijns, Hofdingen̄ riett ſo ræder, Nak-

Rak þad til Dæmis sijns, Kvadst vera eiñ Under-Mañ, Po ef ad Sveine sijnum, Sialfur skipade Einum, strax þvi hlijdde hañ.

Undradest JEsus þetta, Ord og sterka Trw, Og sagdest hvorge hitta, hafa hana fyrr eñ nu, med ollum Israel, J samre Stund hañs Sveine, Sw Soott ei vard ad Meine, Helldur heilsast vel.

JEsus seiger ad soñu, Vid sijna Fylgdar-Meñ, Von er a Otal Moñum, wr Austre og Vestre señ, med Abraham Fognud fa, Ad hallda Himnarijke, Eñ hiner i Myrkur vijke, Sem Gude falla fra.

Lijkþra miog mig mæder, Mattu þar viña a Boot, JEsu sem Glæpe græder, Græt eg af Hiartans Root, Mijn saarleg Synda-Mein, Maklegur ma eg ei heita, Til mijn þu villder leita, Pitt Ord er Huggan hrein.

Vijsañ.

NEmunt þau Dijrleg Dæme, Sem DRotteñs Ord hier votta, Uñ Bæn og bestu Trwna, Af badum þeim nu Tveimur, Lijkþrar Trw eg ad tæke, Til Guds Matt og Vilia, Eñ Hofdingeñ iñer, Orded Guds Dauda forde.

Sw Bæn er best i Raunum, Ef bidur Lijkamans Fridar, Ad Vilia hañs vid hvorn mæler, Viter þijnum Hug betra, Fyrer Myskun Guds og Giæsku, Gratande Synd ad jater, Sterk Trw ollu orkar, Vid Ord hañs fast ad storder.

## Fioorda Suñudag epter Prettanda, Evang. Matth. 8.

Med Ton, Einn HErra eg best ætte.

JEsus stie i þañ Tijma, wt a Skiped so traust, Med Læresveina sijna, Fofnade vært og laust, J Skut a Svæfle Einum, so kom þar Stormur stoor, Lin-trwa Læresveinum, Leist þa miog Ofær Sioor.

Peir voktu hijrañ HErra, Hrædder miog goodu Meñ, Pvi Mattur og Megn took þverra, mælltu so aller señ, Hyrder þu uñ þad eige, þo allt forgange nu, Eda so sock-va meige, Nema sialfur hialper þu:

Hañ reis þa upp og rædde, Reynd er vel Giæskañ su, Pvi erud Hiarta hrædder, og hafed so veyka Trw? Hastar a Stoormeñ strijda, strags var þa kyrra Logn, Og Giælfred Siafarens sijdañ, So ad þvi slær i Pogn.

Meñ þad marger bera, Peir Millde-Verked sia, Ad Mattugur vijst mun vera, Sa Vindeñ hastar a, Og þad til Æru þijda, Pesse er so vel fær, Honum ad skyll-du hlijda, Hofud-Skiepnurnar Tvær.

Vier erum a veykum Baate, J Voda Ofærum Sioo, JEsus hiñ Lijtelate, Liwf-ur er med oss þa. Hrædder vier hroopum kiære, Hasta þu Stormeñ a, So ad vier samm gott Fære, Fodur-Landenu ad na, Amen.

Vijsañ.

SKipe wt a Sioo yta, einu Læresveinar, og med þeim Lækner Lyda, i Logne giek ad sofna, brast a Vedur og bystest, Bræde Sioos eñ þeir hrædast, veiker Brædur og vekia, Vind-Magn liet hañ þagna.

Batur merker Christs Kyrkiu, Klungur Sioos Heims Raun þunga, sefur JEsus eñ ys-

 est a

est, Angur vort af Movtgange; vekium han luner lijka, ad lya Storm, giefa Byr nyan, i Fodur-Land flytie reynda, Feriu Mein Hauska verie.

## Fimta Sunudag epter Prettanda, Evangelt.

Matth 13. Hymna Lag.

Pterlijking þeim JEsus tier, Adra ad Himnarijke er, Þeim Mañe lijkt sem saade sier, Sædis Akur a Jordu hier.

Goodu Sæde ad saade sa, i sagdan Akur sem heyra maa, En Illgrese let hañs Ovin hia, Allt Foolk medan i Svefne laa.

Þa Akureñ sa siñ Avoxt bar, Illgresed med sig lyste þar, Þienaraner sem vonlegt var, villdu ad sækia Herrans svar.

Eiñ þeirra spurde so um siñ, saader þu ecke Herra miñ, Edla Sæde i Akureñ þiñ, Illgrese noog eg þar þo fiñ.

Eñ hañ svarar og sagde bert, Sæded vil eg ei være skiert, Eda fyrer þad nockur feinge snert, Fiandmadur vor hefur þetta giort.

Eñ þeir spurdu i aañ Stad, Ef ad hañ vill þeir proofe þad, wr ad tijna þad illa Sæd, ef honum virtest þetta Raad.

Þar vid seiger hañ þverlegt Nei, þvi hañ vill Hveited spillest ei, Læted hvortveggia hier med frij, Haustviñu bijda Akre i.

Kornskurdar Tijme kiemur vijst, kiænlega skulud þa allra fyrst, Illgresed bera a Elld sem Kvist, Iñ i Kornhlodu Hveited best.

Sañlega giörest nu Svefna Olld, Svikara Slægdeñ þushundfolld, JEsus þu ber fyrer oss þiñ Skiolld, odlast læt mig hid besta Kvolld, Amen.

## Vijsañ.

Guds Ord glijkest Sæde, eñ Grund vid Hiörtun under, sofa Meñ (JEsus iñer) Illgrese kiemur þar mille, Fiandeñ sær þo blindad, fyller af Synd og Villu, Flock hañ fyrst skal breña, eñ flytia i Korn-Hws Hveite.

Bidium þig Guds son goode, ad grande ei Hiartans Lande, Svefn vor so ad nu dofnum, Sæde þitt Briopsteñ græde, Kornskiera nalgast nærre, Nijdingur þvi meir strijder, flyt i Hlödunna Hveite, eñ hindra hañ sem oss blindar.

## Siötta Suñudag epter Prettanda, Evangelt.

Matth. 9. med Ton, Dreckum af Bruñe Naadar.

Sonur Guds sig þa gladde, i sijnum Anda, vid Fodur siñ sialfañ rædde, ad sidugum Vanda, Herra Himens og Jardar, eg heidra og prijsa þig, um þad miög miklu vardar, muntu nu heyra mig.

Fyrer Spekingum froodum, þijn falder Giæde, þau eg fyrer aumum Þioodum, nu auglioos ræde, so vard þad Fadereñ sæte, sialfum þier Hiarta kiært, ad Born med Lijtelæte, þitt liwsa Ord feinge lært:

Mier er af mijnum Fodur oll Magt i Hende, sa ber sañan Heidur, og Soneñ siñ kiende, Sonureñ eirn af ollum, sær eiñ Veg Fodureñ kient, bæde Konum og Korlum, þa Kyñing lijka sent,

Komed

Komed til miin sem kieñed, so krancka Mædu, og mig ad ydur speñed, med ollum Giædum, eg vil Endurnæra, ydur og hugga viist, hafa so Hiarta kiæra, eñ hrinda fra mier siist.

Taked a ydur med Ynde, mitt Ok og Byrde, nemed þañ Krapt eg kende, og kuñañ giørde, Hoogværd Lijtelæte, þad lærest best af mier, Vol þad Saalar bæter, ef breyted so eirneñ hier.

Ok mitt sætt er øllum, sem Astar kieña, bæde Konum og Kollum fyrer Krapteñ þeña, miñ Byrdar Punge þægur, skal þreyta aungvañ Mañ, hañ verdur þeim hægur, af Hiarta vel mier añ.

Fodursins Kyñing klaara, oss Christur færde, mykte Mædu saara, og miøg vel lærde, hañ bid eg Hugvært Siñe og Hiartad lijtelaatt, giefe sem Maal og Miñe, mier so ad verde kaatt, Amen.

## Vijsañ.

Sonur Guds hier þad sijner, so er Art good hañs Hiarta, fyrer aumma hier i Heime, hlackande Fodurnum þackar, sem Ord hañs vilia virda, þeim Vitringar moot stijnga, til Fodursins liust vill leida, læra og endurnærer.

Hver er nu Huggun meire, eñ hier a Jørd Guds Børn vera, Astvin JEsu Christi, eiga Raad þess ad meiga, vera hia honum og heyra, af hañs Rædu vel frædast, Mein og mootgangs Rauner, mykia vill eirneñ lijka.

## A Kyndel Messit, Evangelium Luc. 2.

Ton, Kom Skapareñ Helge Ande.

HA Hreinsunar Dagur ad Hende leid, HErrañs epter Logmaale, Fullkomnudust sem Fordum tied, Pau fooru til Jerusalem.

Barned JEsum þa bar med sier, Hans Blessada Mooder Maria, og hafde Offur sem HErrañ tier, A Hendur foolu hañ DRottne þa.

Logmaal DRotteñs þad sagde so, Ef Svein Barn opnar fyrst Moodur-Kvid, Helgadur DRottne heiter saa, honum skal Offur fylgia med.

Pad eru Dwfur Turtils Tvær, Edur Tveir Ungar sem Dwfañ aa, under Logmaal gieck JEsus kiær, ad oss leyste þess Bolvan fraa.

J Jerusalem var eirn saa Mañ, Alldradur sem Simeon hiet, Anda Guds ad hafde hañ, hræddest DRotteñ og Synder griet.

Andsvar af DRottne aadur fieck, Ad ecke skyllde hañ Daudeñ þiaa, Eda saa nockurn af honum Smeck, Nema aadur feinge hañ Christ ad siaa.

Saa kom þar ad i samre Stund, Sveirn i Mustered boreñ var, fyrer Helgañ Anda med hijrre Lund, hañ med Armleggium spente þar.

So mælande, Nu laat þiñ Pioon, Pijdur DRotteñ af Ast eg bid, Fyrer þitt Ord sem viis er Von. Vera og fara i burt med Frid.

Miin Augu hafa þitt Hiaalpræd sied, hvad þu tilreidder øllum vel, Heideña Lioos og Lysing med, Losleg Dyrd þijnum Jsrael.

Oss

Oß hefur frialsa JEsus giort, Undañ Lagaña hordum Sid, Lioos og Glede þu Lijdnum ert, Laattu oß sofna i burt med Frid.

## Vijsañ.

SImeon seiger hiñ Gamle, Señ þa Guds Son kieñer, Laattu mig Dyrdar DRotteñ, Dosnadañ vært nu sofna, Þvi sied hef eg med Augum, Endurlausn Heime senda, Lioos þad Heidnum lijser, Lijd Guds Dyrd og Prijde.

Foorn þa fyrer þvi Barne, Færum nu med Æru, JEsum ad vier prijsum, Endurlausn hier nu senda, Med Simeon seig eg Gamla, Siaadu Fadereñ Naadar, Med Fride i Fognud ædra, Feigeñ vil eg nu deya.

## Fyrsta Suñudag i Niuviknaføstu, Evangeli.

Matth. 20. J Dag eitt blessad Barned er.

JEsus tiaade Efned slijkt, eñ fyrer Læresveinum, ad Himnarijke er harla lijkt, Hwsboondanum einum, arla Morguns wtgieck saa, og sier leigde Verk-Meñ þa, i Vijngard siñ ad viña, Same uñ Dags verd settur a, ad sierhvor skule Peningeñ fa, eñ hvorke meir nie miña.

Utgieck þa uñ Þridiu Stund, Þar med aa hiñe Siettu, Og Nijundu aa þad lagde Lund, Leigia ad Kaupe riettu, Verk-Meñ i siñ Vijngard þa, Vottar ad sierhvor skyllde faa, hvad sem ad Riettvijst være, Uñ Stund Elleftu epter aa, Jdiulausa nockra saa, Þeir bad þaangad fære.

Eñ ad Kvollde sagde so, Sijnum Naada-Mañe, Viñu-Moñum Verdkaup faa, Vijst med fullum Sañe, fraa Sijdustu til Fyrsta fer, fieck siñ Pening eiñ sierhver, þeir Fyrstu mogla aa moote, vier hofum uñed allañ Dag, og Olljkt stundad Viñulag, Þo þess nu ecke nioote.

Einum þeirra svarade so, sialfur Hws-Raadande, Varstu ei sattur vid mig aa, Verdkaup þier sem samde, Ecke giore eg Oriett þier, Þo odrum giefe eg þad lijkar mier, hvad þitt er burt skallt bera, Ecke slijkt ad Ofunda ber, Ef eg af mijnu Goodgiarn er, Riett er ei Raangsyn vera.

Sijdustu sagde hañ hatt, So þeir Fyrstu verda, Vier siaaum og Fyrstu þañeñ þratt, Þa Seinasta giorda, Þvi kallader eru marger Meñ, med Guds Orde aller señ, Eñ þvi ecke hallda, Faaer Utvalder fiñast þvi, fraa eg ad hiner og lijka þvi, Sialfrar Vondsku Vallda:

Vor Gud og HErra þu villder hier, J Vijngard þiñ oß kalla, Sw Vijn-Eik ad þiñ Sonureñ er, Vier siwgum af Giæsku alla. Laattu oß nu uñ litla Hrijd, Letiast ei þo kiæmum sijd, skylldug Verk ad viña, JEsu goode legdu oß Lid, ad lifum ei epter Gydinga Sid, Vier niootum Naada þiña.

## Vijsañ.

HUs-Fader HErrañ tiaade, Sem Hiarder aa ried Vijngarde, J Lysing leiger Meñ þaangad, Og lijker vid Himna Rijke, Uñ Pridiu Stund og so sijdar, Senda vard eñ i Garden, Or gaf heila Hijru, Fyrer haatt Nafn ollum jafna.

Vor Vijn-Eyk hin dijra, Veit eg ad JEsus heiter, Vijn-Kvister hañs vænu, Verum þvi hladner Berium, Sætum so ad ei hlioote, Swrt Hrat slaa oss burtu, Komum nær Kvolldsins Tijma, Kappsiñader þvi viñum.

## Añañ Suñudag i Niu Viknaføstu, Evangeli.

Luc. 8. Med Tøn, Være nu Gud oss ecke hia.

HAñ Tijd margt Foolk med hønum er, og Meistarans Orda gaade, i Eptertlijki ngu JEsus tier, wtgieck sa sem ad saade, Sæde sijnu og sumt fell þa, so þad vard Foot-troded Veigenum hia, og Flockur Fugla þvi naade.

Sumt fiell a hardañ Hellu-Stein, hafde ei Jord þar gooda, skrælnade señ þa Sooleñ skein, so þad bar øngvañ grooda, Klungur Þyrna fiell añad i, uppvaxande þeir hamla þvi, og Sædenu alls ofbiooda.

Gooda Jord fañ i fioorda Stad, og færde Avøxtu skiæra, hroopande JEsus heyra bad, hvorn sem nu villde læra, og Eyru hefde ad heyra þad, hañs Læresveinar spurdu ad, hvor Lijkingeñ villde vera.

JEsus svarade i Añañ Stad, Eñ þa med sniollum Roome, Giefed er ydur ad giæta ad, Guds Rijkis Leyndum Doome, eñ adrer þo siaxe og heyre hier, hafa ei Skilnings Lioos med sier, Þo Ord fyrer Eyrum hlioome.

Sw er Lijkingeñ sem hañ aakvad, Sæded skal Guds Ord heita, Hiner vid Veigeñ heyra þad, Heliar-Ar Raadrwm veita, Burt slijta strax wr Briooste sier, so biargest þeir ei sem Guds Son tier, Fyrer Ast nie Ydran heita.

J grijtta Jord hvar þad salldast Saad, Þa seiger hañ Guds Ord heyra, Avexte faa þo øngvum naad, Ellegar Gagne meira, Glede af þvi i Fyrstu faa, A Freistingar Tijma skeika fraa, Falle til Rauna fleira.

Þyrnevid Christur þyder hier, Þwnga Ahyggiu Maña, Þo heyre þeir Guds Ord hrein og skiær, Haalfu meir stunda añad, Veralldar Aud og Agyrnd Fiaar; J þvi so velkiast Sijd og Ar, sem alla Avøxtu baña.

Giæda Sæded sañ gooda Jord, Guds Ord i hreinu Hiarta, med Þolenmæde sem þess er verd, Þusundfallt kañ skarta. Hvar þu naaer med hreiñe Trw, Hlijdne og Dygd þar fylger nu, med Ydran allra Þarta.

Hørmuleg er mijn Hiartans Root, Himna Fadereñ goode, maattu þo vel þar viña aa Boot, So vaxe hiñ beste Groode, og Ord þitt siñe hier gooda Grund, graate eg mijn Brot aa hvorre Stund, med Trega og Taara Floode.

### Vijsañ.

SÆde Fyrst Fuglar eyda, Fellur þar næst aa Hellu, Klwngur Þyrnar þa þvijnga, Þad er allt saad til Skada, Jardar Dypt fañ eg Fioorda, Færde Avøxt vel giørdañ, Orde Guds vill so verda, Vart i Mañaña Hiørtum.

Hvør Eyru hefur saa heyre, Hvørneñ fer Sædis-Korned, Giætum ad Gud hefur laated, Good Ord sijn oss biodast, Hvar eru Avexter vorer, Vode er ef þad skodum, Ad Fioorde hvør valla verde, Velreyndur Trwr fundeñ.

## Suñudageñ i Føstu iñgang, Evangel.

Matth. 3. Med Ton, Guds Son kallar.

JEsus Christur ad Jordan kom, til Johañem hvørs Lund var froom, af Galilea Lande, skijrast villde af Sveine sijn, so hañ af þvæe Synder mijn, Johañes sem syniande.

Svarade þvi og sagde þa, sañlega er mier Þørf þar a, ad eg Skijrn af þier feinge, eñ þu Christe med Krapte þijn, kiemur ad skijrast hier til mijn, þier er þo ædre eingeñ.

Lat nu so vera sagde hañ, synia ei þess eg beidast kañ, oss hæfer upp ad fylla, allt Riettlæte og þad skier, ef hvør giører þad skylldugt er, þar verdur af eingeñ Villa.

Skijrn liet Johañes Trwr i tie, Taakneñ þar med ad fleire skie, JEsus þa og nam stijga, Skijrdur wr Vatne uppa Land, Athuga þu med gott Forstand, Hvad sem hier ad vill hnijga.

Yfer honum ad opnast þa, allur Himen so Johañ sa, Ande Guds eins og Dwfa, yfer hañ kom þu akta þad, Almattug Rødd af Himne kvad, um Son þañ Lyndis liwfa.

Sonur miñ er þad sagde hañ, Sa ad eg riett af Hiarta añ, Honum skulu þier hlyda, Vakte hvør sig sem vill og kañ, ad veita og fylla Bodskap þañ, Ord hañs med Elsku prijda.

Eirn Gud sañur i Preñing þu, Sem þañeñ villder birtast nu, Gief mier Raad þig so þeckia, Og þijnum Syne eg hlyde hier, Hañ maa Sañleik riett kieña mier, So fare mig Flærd ei bleckia.

### Vijsañ.

JEsus kom i þañ Tijma, Ad Jordan Prisatijn Ara, Til Jons so hier nu hreinse, Hañ i Skijrn Synder Maña, Opnast Lopt Audi Kraptar, J Mynd Dwfu syndest, Kiemur þad Hlood af Himne, Hier er Sonur miñ kiære.

Vid Skijrn vorra Barna, Verdur þad allt hier giørdest, Preñing sæl þad skal iña, Par er nær sw er mest Æra, Sver þeim sem þa skijrast, Sijna Raad Arf-Synd dvijnar, Sa nads ny ad fædast, J noogu kryptugre Laugu.

## Fyrsta Suñudag i Føstu Evangel. Matth. 20.

Med Lag, JEsu Christe þig kalla eg a.

Upter Skijrn sijna JEsus var, af Anda helgum þa leiddur, a Eydemørk so yrde þar, i Astrijdu miøg neyddur, og freistadest af Fiandans Slægd, fyrer oss Strijd þad hafde, af riettu Raade, so ad hañ kyñe ad syna Vægd, nær Satan oss of miøg þiaade.

Pa JEsus hafde nu fastad fyrst, i fiorutiju Daga og Nætur, hañ var mæddur og hafde Lyst, a Hwngre þvi viña Bætur, Fiandeñ slægur þa foor til hañs, freista so Herrans þorde, med einu Orde, ef hædsta Guds Son þu ert til sañs, seigdu

Steinar

Steinar Brauð verde.

Ansar JEsus med allañ Sañ, ad þad letrad so stæde, einsamalit Brauded ongvañ Mañ, aldeilis hier vel fæder, helldur sierhvørt Gaðs Orded eitt, vtgeinged af hañs Muñe, þa lijfga kuñe, fae þeim Afl og Edle veitt, af þeim hinum besta Bruñe.

Satan færde þa sijdañ Christ, med sier i Borg so dyra, a Musteres Baust hañ hoof sem hæst, hier med fra eg so skyra, siertu Guds Son frem þa Frægd, fleyg þier hier ofañ ad Bragde, þvi Psalma-Skalld sagde, Einglum baud Gud med allre Hægd, um þig Hervirke beygde.

A Hondum bere og hallde þier, hañ trwe eg eñ so greine, ma ei neitt verda ad Meine þier, so meider þiñ Foot vid Steine: JEsus svarar og so var skrad, sijst skalltu DRottens freista, eñ tal-laust treysta, hvør sem þetta adhylleſt Raad, hañ mun faa Luckn besta.

Flytur hañ Christ a Fialled hæðst, Fegurd Veralldar synde, Rijke sem Aud og Gulled glæst, giorvallt þetta framtinde. Satan kvad allt þad sier i tie, so hañ þad eignast skyllde, i goodu gillde, ef ad fram fielle og satt þad sie, ad sig tilbidia villde.

Satan fardu burt fra mier nu, Frelsareñ seiger hiñ millde, einum Gude ber Æran su, ad hañ tilbidia skyllde, so er þad riett i Skriptum skrad, vier skulum hañs Dyrdar leita, eñ ecke reita, Andskoteñ flyr med oll sijn Rad, Einglar Christo Lid veita.

JEsus þu reynder þrautar Strijd, Piarning og Freystne gillda, fyrer oss bardest Fiandañ vid, þijn Fodurleg Giæskañ millda, kieñer þess betur i Brioste um mig, þvi bid eg þu Lid mier veiter, og Einglasveiter, nær hañ i Akiesd sæker sig, so ad mig aumañ reiter.

## Vijsaň.

Christur af Fianda freistast, Fer med Guds Ord sig veria, Prysvar sem oss avijsa, Allar Skripter Gudspialla, Esasemd wr fram Hoose, Afar Traust vill hañ hafe, Hier ad auk Heimsins Rijke, Eñ hafne Trw girnest jafnañ.

Hañ fær opt auñed, Vid alla Meñ þad maa kalla, Satan svikull ataleiten, Siadu þad er til Rada, Med Orde Guds ad Bæn giordre, Og einneigeñ Trw so hreiñre, Vaka og veriast lijka, Prijs-vañ HErrañ Strijd þañiñ.

## Añañ Suñudag i Føstu, Evang. Matth. 20.

Med Ton, Gud Myskune nu ollum oss.

AF Sidons Landeign gieck JEsus wt, Eitt Siñ med Læresveinum, Heideñ Kona þar kom med Swt, Kalle og Sorgar-Kveinum, DRotteñ JEsus þu Davids Son, Dootter lækna þu mijna, Af Are Diofuls kvelst illa hun, of tkios i þetta Siñe, Pagde hañ þa vid heñe.

Læresveinarner sogdu so, Syndu Lijkn kiære HErra, Epter oss kallar hun meir eñ mal, Rætte Nyd heñar þverra, JEsus svarar eg sendur er, Til Sauda Jsra-

els Jardar, Leida aptur þad fraa villt fyrr, Flock þañ ef nockud skardar, um̃ hana mig valla vardar.

Konañ gieck fram̃ og fiell aa Knie, Full af Trega og sagde, HErra laat þijna Lijkn i Tie, Lina mier snart ad Bragde, JEsus sagde þad soomer ei, Svipta fraa Børnum Braude, Og so fyrer Hunda sællda þvi, Saarar skaaru þvi Nauder, Hana so hægre mun Daude.

Satt er þad HErra sagde hun þa, Svarar med lijfsu Orde, Hvolpa siaaum þo Herrum hiaa, Henda sier Mola af Borde. JEsus komst þa so Orde ad, O þu fraabæra Kviña, Mykel er Trw þijn merke eg þad, Maa hun þvi giørvallt viña, Skalltu miñ Fognud fiña.

Verde þier so sem ad villder þu, Vid hana JEsus mæler, Hvorier sem þiggia þessa Trw, Þeir eru aller Sæler. Heñar Dootter þa Heilsusterk, Hittest aa samre Stundu, Miñast skyllde þad Millde-Verk, Mest þeir i Hiartans Grundu, Hug-Rauner mæda mundu:

Þyde JEsus þijn Þogn og Bid, Þreyte ei Hug miñ veyka, Þiñar Hiaalpar nu þarf eg vid, Þolgiæded mitt vill skeika, Overdugleika veit eg miñ, Ad vera vid Borded Barna, J Naadar Molañ mig þyrster þiñ, Þess muntu ei mier varna, Hañ vil eg hreppa giarna.

## Bijsañ.

Kanverst Konañ þad reyner, Christur þagde med Fyrsta, Sijdañ Svar þo ad greide, Samt er Svar ørvænt heñe, Þridia Siñ hardast Hlioode, Hundtijkum samlijker, Styrk Trw giører Stoormerke, Strijd vañ Lof ber sijdañ.

J Raunum þo vier reynunst, Reyna marger Faar einar, Ein er Boot ad þier laatum, Alldrei Trwna skaalvra, Stalldran þa veykia villde, Vinum so hvørium siñe, Siñis gladur med Goodu, Guds Heite Strijd þreytum.

## Þridia Suñudag i Føstu, Evang. Luc. II.

Med Lag, Tunga mijn af Hiarta hlioode.

UT rak JEsus Fornañ Fianda, Fraa þeim Mañe er Maallaus var, Eñ þegar saa miste illañ Anda, Ordsniallur þa gaf þeim Svar, Undrast Folk þad epter Vanda, Jll ad sumra Meining var.

Fyrer Belsebub þañ allra Ara, Yfer-Høfdingeñ kiendur er, Søgdu þeir sem DRotteñ daara, Ad Diøfuleñ wt hañ ræke hier, Hiner Þridiu med Hræsne klaara, Heimta Teikn til Fremdar sier.

Huxun þeirra HErrañ kiende, Hier i moote svarade saa. Rijke hvørt sem Sundurlynde, J siaalfu sier vill til sijn slaa, Eydast skioott so Eitt Hws munde, Yfer Añad fram̃ so fellt i Straa.

Ef Satan verdur i sijnu Vellde, Sundurlyndur hvørsu kañ, Hañs Rijke standa so sig hiellde, Seige þier mig fyrer Belsa þañ, Herrañ Diøfla hvad sem gyllde, Hysked þeirra sært i Bañ.

Eñ

Eñ skyllda eg fyrer bañsett Byte, Belsebubs wtdreifa þa, Ydrer Syner af oðrum hlyte, Einhvorn þañ Styrk ad fa, Urskurd þeirra þier þvi nyted, Po ad Mood vilied a mig slaa.

Eñ fyrst eg rek wt Fiandans Ara, Med Fijngre Guds sem vijst þad er, Rijke Guds ed Krapta klaara, Kiemur þa ydur ad Hende hier, Pier hallded mig sem heimskañ Daara, Hygged ad hvad epter ser.

Nær Einherien ver Andyr sijnar, Allvopnadur hañ strijda kañ, Medañ Mattur ei nie Megned dvijnar, Med Mak er allt hvad eignast hañ, Nema styrkre Kappe reyndrar Raunar; Ræne og svifte øllu þañ.

Hvor sem mier er ei med i neinu, Mootfall er mier af þeim vijst, Saa sundurdreifer allt ad einu, Ad mier dregur hañ lijka sijst, Saa fiñur þad sem fær þa Skelnu, Ad Fiandmadureñ vid illu byst.

Nær Andskoteñ fer wt af Mañe, Um Purlende raafar hañ, Leitar Hvijldar sier med Sañe, Sijst i Kyrdum verda kañ, Aptur svipar ad sijnum Rañe, Ef soopad hreint þad fiñur hañ.

Verre Anda sier þa sæker, Sijdañ kiemst i Hwsed iñ, Peir faa þar gist med forna Klæke, Og fyrer sig reisa Vardholld stiñ, Ef þess Mañs seirna Tijma tæke, Trw eg sie laangtum verra eñ hiñ.

Pa JEsus lyktar Lærdoom frijdañ, ein liufleg Kona talade so, sa Kvidur er sæll sem bar þig blijdañ, og Briosteñ sem þu mylkter þa, heñe svarar Herrañ sijdañ, Heill maa adra betre fa.

Hvor sem Guds Ord heyra kuñe, i Hiarta sijnu og geymde best, eg tel þañ sælañ sem þvi uñe, su er nu Giæfañ allra mest, sa fær af þeim sæta Bruñe, sialfur ad smacka Giædeñ flest.

Fra Hertekning hins forna Fianda, frels mitt JEsus Lijf og Aund, hañs Umsaat laat mier alldrei granda, af mier leys þu Synda Bønd, styrk med mier þitt Ord og Anda, yfer oss sie þijn Verndar Hønd.

## Vijsañ.

Þa svartur flyr Satan burtu, sañlega wt af Mañe, um Purrlendur fer Fiande, fær ei Hvijld þar nærre, leidur tekur sig sijdar, med sier Anda þo verre, kiemst þar iñ er þeim Mañe, øll verr hætt eñ fyrre.

Vode er eingeñ meire, eñ athugalauser rata, þeir giefa illum Are, iñgang tvisvarsiñum, þar koma fleire Fiandar, i Ferd og Siñed herda, DRotteñ Raad vort riette, og reke burt Svefn os frekañ.

## Mid Føstu Suñudag Evangelium Johañ. 6.

Med Ton, Dagur i Austre øllu.

Yfer Fiord so Furdu vijdañ, ferdadest JEsus þa, laa þar vid Løgeñ þañ fraadañ, Landed Galilea, nærre Borg so Nafnkiendre, nefnist Tiberias, i Fialls-hlijd væna vende, var þar so nooglegt Gras.

Foolked margt fylgde Christe, fyrer hans Dijrdar-Verk, þeir siwku Meina mistu, miog var hans Lækning sterk. Haatijd var harla nærre, Heilagre Paska Tijd, a Fialls-hlijd hine hærre, Herran þo dvalde vid.

Settest þar sialfur HErra, og sijnum Augum uppleit, Fiolmened þa ei þverrar, þeirra Naudsyniar veit, vid Philipum ried so ræda, reynd er hans Giæskan en, hvar faum vier Braud ad fæda, Foolk þetta allt i sen.

Reyna vor Herra villde, vel sinnan Læresvein, þo visse hans mykla Millde, Maata i hvorre Grein, tekst ei til kvad þesse, tvohundrud sinn Penings, ad kaupa Braud hvar þa hresse, ad halfu til snædings.

Andreas Andsvor greiner, eru hier sim Bygg-Braud, hia einum ungum Sveine, og tveir Fiskar med, hvad skal þad morgum Mane? Mællte vor Herra þa, setied Lyd so han kune, sidlega Fædu sa.

Fim Pusunder Karlkinda, komust þar nidur vid Bord, blessar han Braud ad Vanda, med blijdre Packargiord, og Fiskana so þeir feingu, fullan Sadning þa, og þær Leyfar afgeingu, so eckert spillast maa.

Læresveinum þo sagde, safned þvi afgangs er, þeir sa þad sliott ad Bragde, ad fylla upp tolf Karfer, þad var auk þeirrar Fædu, sem þesser hefdu neytt, þacka med þijdre Rædu, þeim sem slijkt hefur veitt.

Peir sogdu ad vijst han være, Veglige Spaaman sa, sem fyrerhiet Faderen kiære, og Foolkenu sendast a, han veit þeir velia mundu, til volldugs Herra þig, i Fialled upp foor af Stundu, fra þeim so kom fyrer mig.

Hindre Hugsyke mijna, Herra Gud Millden þijn, er eg sie yfer mier skyna, eg veit þu sier til mijn, þitt Ord og Ande bæde, Allmaattug Giæsku Root, giefe mier Fot og Fæde, so fæ eg a Hungre Bot.

## Vijsan.

BRaud hefur sim til Fædu, og Fiska tvo aan Skierdiska, DRotten med þeim metta, munde þo sim Pushunder, sijdan þau blessar bæde, og braut so ad aller nutu, þad auk var upp þeir tooku, sem JEsus baud saman ad lesa.

Himna Braud Guds Ord gooda, girnust vier sem ei fyrnest, kvijdum ei fast mun Fæde, sinest Lund su þad stundar, þvi veit han Medal og Maata, mörg Hiw best forsorga, vier lærum þad, i Dære, ad en fremur Hagnad þenan.

## Sunudagen epter Midfostu Evangel. Johan. 13.

Med Ton, Hvør sem ad reiser hæga Bygd.

TVodunum ansar JEsus þa, jafnlyndur alla Daga, hvør af ydur er sa mig ma, um Synd einhvøria klaga, fyrst Sanleiken hafe þier heyrt af mier, hvar fyrer villied ecke þier, trwa af hreinum Huga.

Af Gude er sa sem girnest hier, Guds Ord jafnan ad heyra, aan Guds eru þvi aller þier, eingen liær þar til Eyra, Judar svara vier seigium þad vel, Samversk-ur ertu byr um Viel, med Diosul og drasled meira.

Ei hef eg Diøful ad DRottenn kvad, Dyrdar Fodur mijns leita, vanheidre þier mig strax i Stad, sturla vilied og reita, ei søke eg eigen Soma Nægd, sa er sem verndar mijna Frægd, Yfervalld allra Sveita.

Sannlega Sannlega seige eg vijst, sa mijn Ord villde geyma, eilijfann Daudann sia mun sijst, Syndum vil eg hanns gleyma. Judar seigia nu vitum vier, vislega med þier Satan er, og Diøfull lætur þig dreyma.

Pvi Abraham bad sinn Andlaats Dag, og aller Spaamenn fordum, þu hrosar þo af þijnum Hag, þar med Kroptugum Ordum, hvor sem elskar þau ei mun sa, eilijfann Daudann kunna ad siaa, meire i Maale enn Giordum.

Aller Spaamenn og Abraham, eru framlidner nuna, muntu giora þier mesta Afmaan, og mijnkan fyrer þa Trwna, ef þikest þu meire helldur enn hann, heydrum vier alldrei slijkann Mann, Christur sann Klausu bwna.

Være eg sialfhælenn sagde hann, sortnade Losed i Munne, minn Fader hann mig heidra kann, hvorn þier Gud nefna kunned, og þecked hann ecke enn eg veit, Astsemden hanns er til mijn heit, Vegsemdar vijst mier unner.

Segda eg þad eg þeckta hann ei, þa kynne eg sem þier liuga, nu kienne eg hann og helld af þvi, hanns Bodord sem mier duga; Lyste Abraham lijka med, lijta minn Dag og sieck hann sied, gladur i goodum Huga.

Fimmtugur ertu ecke enn, Judar Guds Son aavijta, Abraham og hanns Alldar-Menn, Alldrei maatter þu lijta, Lausnarenn gaf þeim liwslegt Svar, Laangtum fyrr enn Abraham var, Er eg so ei maa neita.

Juda Sveitenn þar Olmast vid, upptooku marger Steina, Grijta villdu þann foor med Frid, Frelsarann allra Meina. Af Mustere veik þa JEsus wt, ad hann so fordest þeirra Grioot, Liwfur med Lund so hreina.

JEsus þitt Ord er Alldin hreint, Einbær Lækning vid Dauda, þeim þad geymer mun Einskys meint, ongra kienner sa Nauda, Gief þu mier þennan Giæsku-Lauk, Giaf er þijnar so med mier auk, Siaa vel til þinna Sauda.

## Vijsann.

Sa sem Guds Ord geymer, Græðarenn JEsus ræder, Ecke umm Æfe smackar, Ogn Daudans nie Nauder, Pad meigum so þijda, Peir sem Guds Ord heyra, Af Ast saa Afgaang bestann, Og eilijfa Himna Sælu.

Lækner Lijfs saa reiknast, Er lærde ad græda Særda, Kosta Smyrsl kallar bestu, Kaupum dyrt þau hann af Naupar, Enn Saalar-Dryck þann sæla, Sæta Guds Ord sem bæter, Andar-Mein ecke Stundum, Eda sinnum þvi minna.

## A Mariu Messu aa Laangaføstu, Evang. Luc. 1.

Med Lag, Maa eg ei Olucku mooto staa.

N Siotta Maanude sendur var, Saa Bodskap bar, Gabriel Guds af Hende; Til Fe[..]ar-Meyar þess Manns eg giet, Hvor Joseph hiet, Af Kyne Davids sig kiende, J Nazareth Borg var sviptur Sorg, J Galilea sem greiner fraa,

Maria kallast þad Kvende.

Jñ til heñar sa Eingell gieck, Hun Fögnud fieck, Fra eg hañ þañeñ skijre, Heil Maria þu full med Nad, Sem fyrr var spad, Med þier er O Rotteñ dyre. Helgud ertu, Yfer hvoria Frw, Ottadest hun, og Jhuga mun, hvilijk sw Heilsan være.

Eingell talar i Añad Siñ, A Sañleik miñ, Ottast ei Maria Meyia, hia Gude fanstu so gooda Nad, Sem giorr skal tiad, þvi satt vil eg þier seigia, Gietnad þu fær, hin Gofuga Mær, Og fæder eiñ Son, Sw vijs er Von, JEsus Nafn þeim ma nægia.

Mijkell mun verda Sonureñ sa, Hañ sagde þa, þvi Gud lætur hañ hliota, Sijns Fødurs Davids Sæted frijtt, og Vellded vijtt, þess so i Nadum niota, yfer Jacobs Rañ, mun rijkia hañ, Eilijfa Tijd, sw Tigneñ frijd, Po mun alldrei þriota.

Jomfrw Maria epter spyr, Sem Ottast fyr, hvorneñ skie ma mig þetta? Jeg hefe ongvañ Kallmañ kient, Nie Hneyking hent, hermer Eingell þad rietta, Heilar Anda Nad, Giefur Himneskt Sad, Oflgan iñeleg, Guds umskygger þig, Poi fæder þu Barned besta.

Pad Foostred Helga sem fæder Pu, Hin Frooma Frw, Sonur Guds hañ skal heita, Ett-Konu þiñe Elisabeth, Sem eg nu giet, J Elle villde Gud veita, ad gieta Eiñ Son, Er Giæfu Von, Omattugt Eitt, þeim er ei neitt, Sem ollu kañ um ad breyta.

Siötte Manudur sa er nu, Sw Sæmdar Frw, siñ Son fyrer Briooste bære, Gud burt took þa Brijxled þad, sem sialf hun kvad, þo Obyria adur være. Verde þad mier, ad Maria tier, Ambatt Guds nu, sem iñer þu, wt fra eg Eingell fære.

Fyrer Guddooms Nad og Gietnad þiñ, Grædare miñ, Veittu mier Visku saña, Velgiorningeñ ad þacka þañ, Gud giordest Mañ, Saker Syndugra Maña. Styrk mig nu, J traustre Trw, Samfielag þitt, um Frelsed mitt, Lioota mier Löstu baña.

Vijsañ.

GJeteñ Guds Son vier jatum, Af glooande Heilar Anda, Krapte an Kallmañs Skipta, J Kvide eda Meyar Ydrum, Fyrer Ord þau Eingell færde, Jomfrw Mariu slungeñ, þvi hneigde hun sig og sagde, Sañest þau a mier þañeñ.

Fyllest hier allt med öllu, Hvad adur Spameñ tiadu, Um Heit Guds hvoriu betre, Af Hædum kiemur sa græder, Meineñ vor mun þvi meina, Mest Hatijd sw besta, Ad Kviñu Sæded þad kuñe, Hvad Kviñañ braut aptur ad viña.

## A Paalma Suñudag, Evang. Matth. 21.

Med Lag, Christs er Koma fyrer Hondum.

NAlvdur a Paalma Deige, Pastor Christur ad reid, Til Jorsala sem hier seiger, sijna beina so Leid, Jñ i Stadeñ so styrde, stoor Ys ad var þa, Hvor er sa Hirdereñ spurde, Þvi Herrunum vid þad bra.

Foolked svarar fagnande, hañ froomur Spamañ hier, af Galilea Lande, wr litlu Nazareth. J Mustered veik ad Vanda, Voru þar Kaupa-Meñ, JEsus med Oflgan Anda, wtrak þa marga señ.

Byllte um Bordum þeirra, Sem byttu og keyptu þar, So og þo sætu hærra, Þeir selldu

felldu Dwrfurnar, Sagde þeim sitt Hws vera, sañañ Bæna-Stad, Eñ þeir nu aumer giora, ad Jñe Spillvirkia þad.

Til hañs þa Hallter gáanga, Oc hiner sem ecke siaa, Hofdingiar Fiandskap faanga, Fyrst ad hañ læknar þa, Og þeir Ung-Borneñ heyra, Osanna med Raust, Syngia mitt mille þeirra, Mæltu þvi Giæskulaust.

Heyrer þu hvad nu ræda, hia þier þau Borneñ sitia, JEsus liet ei sig hræda, ansar og kvad vid jaa, Laasu þier alldrei þarna, þiggia vill DRotteñ Lof, af Muñe Miolkur-Barna, mun þad þvi ei vid Of.

Hws þitt gief HErrañ kiære, eg heidre og virde mest, Ord þitt so eg þar lære, Altar-Bæn stunde best, Barna-Maal mitt ed veyka, muntu alldrei forsmaa, laat Hug miñ hvorge skeika, Herra JEsu þier fra.

## Vijsañ.

I Mustere miukt haarensia, Mioolkur-Børn upp med Foolke, Losed eñ af þvi ysast, Judar þeygin Prwder, JEsus spyr ef þier laasud, allt hvad David mællte, ad Briosta Børnunum Christo, bere Lofed ad. færa.

Mætte oss Maals-Grein þesse, mjøg sæt jafnañ kiæta, vier erum Børn sem byria, Barnahial fyrst ad tala. Vora Bæn villt þo heyra, og virda Gud so sem algiørda, ef haturláust Lijtelæte, lærum giarna Smaabarna.

## A Skijrdag Evangelium Matth. 26.

Med Hymna Lag.

DA Kvølldmaals Tijme komeñ var, Christur vid Bord ad setteft þar, med Læresveinum og sagde so, eñ Sorg og Trege i Brioostebioo.

Af Hiarta hefur mig leinge Lyst, Lambsins neyta med ydur fyst, aadur eg lijd þvi ecke ma, optar neyta Pess Jordu aa.

Kaleikeñ took og mællte meir, med ydur hønum ad skipte þier, Vijnbers Løg kieñe eg ei aa, upp fraa þessu nu Moñum hiaa.

Fyrr eñ eg helld þad hreint og nytt, J Himnarijke sem oss mun bytt, Took þa Braudsed og braut i Verd, Blessande þad med Þackargiørd.

Taked Eted þad er mitt Holld, Fyrer ydur giefed og Synda Vellð, J Miñing mijna þad halldeð hier, Hañ um Brauded nu þetta tier.

Pa Kvølldmaaltijdeñ var endud eñ, ad þeim Kaleikeñ riette señ, Drecked aller þad er mitt Blood, Og nu sw nyia Kvittan good.

Til Syndalausnar sem wthellt er, Ydur giefed so mintust þier, mijn so opt fyrer dyrañ Deyd, sem drecked þar af um Lijssins Skeid.

Hollded og Blood þitt HErra miñ, hefur mig lijfgad Prælen þiñ, Gief þu JEsus eg þrofkest þvi, Pessu Samneyte jafnañ i.

## Ein Vijsa, af Foota-Pvættenum.

FAdereñ fullur Naadar, Fætur þvær med Liuflæte, A Brædrum tweñ vid Danda, Ber og Lijndwke þerrar, Pad so fyrer þeim þyder, Pier skulud seiger hañ vera, Gooder, Uña hvør

ebrum, Jafnbyrdes mijn miñast.

Grætande bid eg vier giætum, Ad Goodmensku vors Brooburs, Braud og Vijn fyrst til Fædu, Fær þeim og kvad være, Holld og Blood sitt ad hielldu, Hreina Trw og riett meina, Sem Pienare hier nu þioonar, Med Pvotte þijnum vor DRottēn.

## A Lannga Friadag Psalmur, af Pijnuñe HErrans Christi

Med Lag, Eiñ HErra eg best ætte.

Hud vor himneske Herra, Heidur og Lof sie þier, þijn Dijrd ei ma þverra; ha þig trwum aller vier, Vonder vorum og tynder, vijs ei nein Hiaalpar Von, glotudum Giæsku synder, gafst oss þiñ kiæra Son.

Pier Fader med þijnum Syne, eg þacka, af Hiartans Root, mier og Mañlegu Kyne, Meina þu veiter Boot, fyrer Helgan Heilax Anda, HErrañ vorn JEsum Christ, hingad i Heim ried senda, Himna so feingium Vist.

Sa Grædareñ Gud og Madur, Gydinga Land um kring, Areñ þriu gieck þar gladur, giefande þeim Lækning, sem siwker og saarer voru, sijdañ for-raadeñ var, fyrer oss med Angre stooru, alla Guds Reide bar.

Skijrdags Kvolld Guds Son goode, gaf Læresveinum sijn, sitt Helga Holld med Bloode, huled i Braud og Vijn, þeirra Fætur hañ þvode, þar næst geingur so wt, til Bænar med myklum Moode, mæddur af Angre og Swt.

So kom hañ sveittest Bloode, af saarre Hugarens Pijn, hier næst sa Hirder goode, hughreyste Brædur sijn, Vaka baud þeim og bidia, bwast so Freistne vid, Svikarans aum var Ydia, Judas kom med sitt Lid:

Sellður med Krosse kolldum, keyrdur i Bondeñ stiñ, JEsus af vorum Volldum, var þa fyrst leiddur iñ, fyrer Presta-Hosdingia harda, hæddur og sleigeñ þar, fyrer Jaatning gooda giorda, og giegnlegt Hoogværdar Svar.

Postular prwder flyia, Petur bra mest sijn Heit, JEsus gaf Ydran nyia, Ast-rijkur til hañs leit, Frelsareñ var þa færdur, fyrer Pilatus Doom, og þar med Kappe kiærdur, Kalle og hvellum Room.

Sakleyse hañs þa sañar, sialfur Pilatus Jall, lijka sem Judas añar, sa adur jaatar sitt Fall, Kviña Doomarans kiende, ad Christur saklaus var, þau Ord hun Jalle sende, ad eiga ei med hañ par.

Vel fim siñum sagde, saklausañ JEsum Christ, Pilatus braatt ad Bragde, blygdast þa þar vid vijst, i Keisarans Reide ef kiæme, kvijder þvi halfu meir, Strykteñ til Dauda dæmer, DRotteñ sem beiddu þeir.

Strijds-Meñ þa strax ad tooku, þad stoora Krossens Trie, Byrde þa JEsu jooku; so under þvi fiell a Hnie, i þvi þeir wt hañ leida, eirn Mañ ad fundu þar, Simon þañ þeir til neyda, so þeñañ Kross med hm̄ bar.

Her-Meñ hañ so færa, til Hausa-Stadarins þa, Frelsarañ Christ vorn kiæra, Krossēñ þar negldu a, Raans Maña mille tveggia, mællte hañ Ordeñ sio, til fiogra eg saatt mun leggia, þo falle ei undañ þriu.

Pa Lausnar Verked visse, vera allt fullkomnad, sagde JEsus sig þyste, þar svig

ade Strijd=Sveiñ ad, med Svamp af syru Galle, sette honum vid Muñ, Her=Meñ med Hroope og Kalle, hæddu vorn Lyknar Bruñ.

Par næst talade þetta, það er nu allt uppfyllt, færd er su Foorneñ rietta, og Fødursins Reideñ stillt. Sijdañ gaf upp siñ Anda, JEsus med hærre Raust, i Fødur sijns Valld ad Vanda; vor er sa Borgun traust.

Hrædeleg Undur urdu, Ogn stood áf Myrkre þa, Grundeñ so giegnde Furdu, glidnar og Biørgeñ har, Landed allt liek a Præde, Legstader opnast señ, so vr þeim upp ad stæde, allmarger dauder Meñ.

Skode sa vel kañ skynia, Skaparans Lundar Gied, Skøpun Heims hlaut ad stynia, Haudur og Lopted med, i Sonar Guds dijrum Dauda, dapradest Sooleñ klaar, hvad Fødursins Giæskañ gooda, gat þolad Hiarta=Saar.

Daufur eg merkia mætte, og miñast alla Stund, þier hvad eg þacka ætte, af þydre Hiartans Grund, Fader mig fyrter Kvijda, fordæma Skipun hier, liest það allt Son þiñ lijda, sem liggia ætte a mier.

## Vijsañ.

Aadur eñ JEsus deyde, fyrer oss a hørdum Krosse, fieck hañ fyrr ad smacka, fleire Kvaler og meire, liwfur a Saal og Lijfe, eñ letrad nockur giete, so Fullnad eiñ fyrer alla, a allre Jørd i Pijn giørde.

Dyr er JEsus Dreyre, DRottens Blooded gooda, Good er Græding Lijda, græder Mein sødvar Bræde, Bræde og riettlaat Reide, rañ yfer Glæpe Maña, Mañ og Gud þvi liet þañeñ, fyrer Pivod slaa Fadereñ goode.

JEsus eg þig prijsa, af Art mijns veyka Hiarta, fyrer vora Skulld ad þu villder, Voda=Strijd Daudans lijda, standa upp oss til Yndis, aptur med Guddooms Krapte; lattu mig Lofgiørd rietta, læra þier jafnañ færa.

## A Paaskadageñ Evangelium, Marc. 16.

Med Lag, Være nu Gud oss ecke hiaa.

MEistarans Elsku miñast tvær, Mariur og Kviñur fleire, kostuleg Smyrsleñ keyptu þær, Kiærleikur var þess meyre, ad lidnum Þvottdeige leita þvi, Legstadnum Christ ad smyria i, ad honum þa Heidran giøre.

J Ottu Morguns arla Dags, aadur eñ Sool nam skijna, høfdu þær sig þa heiman strax, hefia so Rædu sijna, hvør mun hræra þañ stoora Stein, af Stein=Þro hañs það giører oss Mein, ef Lid vill oss eingeñ syna:

Strax ad Bragde sia Steineñ þañ, stoora afvelltan liggia, og i Grøfeñe Ungañ Mañ, Jñgayngu Kvendeñ þiggia, vid hægre Hlid sat i hvijtum Serk, hrædast Kviñur slijk Dijrdar Verk, þær bad ei Hug siñ hryggia.

Eg veit þier leited nu JEsu ad, hinum Krossfesta Christe, af Nazareth þeim nefnda Stad, nu er hañ eiñ hiñ fyrste, uppriseñ og er ei hier, athuged vel og siaae þier, hvar hañ i Grøfeñe giste.

Þvi fared nu burt og seiged satt, Sveinum hañs og Petre, fyrer ydur mun hañ

 ganga

ganga glatt, so greiner i helgu Letre, i Galilea sem sagde hañ, þar siaae þier hañ sem Daudañ vañ, sa Heidur er hvørium betre.

Upprisañ þijn er JEsu miñ, avallt mijn Hiartans Glede, so vel huggar nu Sigureñ þiñ, sijdañ hañ Fögnud tiede, ad bioodamier i þitt Brædralag, þvi ber mier ei til þañ Sorgar Dag, ad eg ei um̃ þig ræde.

## Vijsañ.

Konur er Christo uñu, komu um̃ Morgun Tijma, ad Legstad hañs eñ hrædast, hvar þær feingu sied Eingla, er gladmællte þær gledia, og gieta ad JEsu leite, Upprisu hañs þeir hroosa, hvad þær vijdfrægdu gladar.

Upprisañ auglyser, Almactt og Naad DRottens, sijdañ hañ sigrar Dauda, og sett Lijf Endurbætte, kvedur sem Brædur blijdur, best þa er Synder mestar, brutu sem sagt er Petre, og sañydrande Mañe

## A Añañ Dag Paaska, Evangelium, Luc. 24.

Med Lag, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

Paaskadageñ sem ædstur er, til Emaus Göngu tooku sier, fra Jorsolum litla Leid, Cleophas eiñ og añar med, ein sextijge Neñe-Skeid.

Pad skiede so i þeirra Ferd, þeim vard talad um̃ Juda Giörd, og JEsu daprañ Deyd, hañ siaalfur gieck a sagdre Leid, samfara þeim og Andsvara beid.

Okiendañ þeim sig synde so, sem þeirra Hugskot dimt var þa, Auguñ eirneigeñ slio, ad þeir hañ ecke þecktu þo, þvi spyr hvad i Huganum bio.

Hvada Samtale høndle þid, hryggver Meñ sem hier rædast vid, Cleophas sagde so, ertu so eiñ hier øllum fra, okiendur til Jorsala þa,

Ad viter þu ei hvad vid bar hier, Vikuna þa sem endud er, hañ spyr hvad nu þa? Peir seigia ad JEsus oss var hia, af Nazareth Meistareñ sa.

Sa Spaadooms Madur med mattug Ord, millda og gooda Lijknargiörd, fyrer Gude og liwsum Lijd, af Hofuds Moñonum Heliar Strijd, hønum var dæmt a þessare Tijd.

Marger af oss þad meintu vel, ad munde hañ frelsa Jsrael, þad er nu þeñañ Dag, hiñ þridie sijdañ þañ harda Hag, sa Herra leid og Kvalara Slag.

Oss skielfdu Kviñur nockrar nu, noog furdanleg er Nædasu, til Grafar hañs geingu þær, og þeim sagde Eingell skiær, ad uppriseñ sie Herrañ kiær.

Og nockrer af oss þar nioosnast um̃, nærre foor þeim sem Kviñunum, vid Grofina so til Sañs, oss furdar um̃ Hag þess frooma Mañs, þeir fundu hvørge Lijkamañ hañs.

Fyrer Blindleik þeñañ þegar i Stad, þeir faa Straff og Andsvar þad, JEsus aavijtar þa, Hiartans Dofe og Heimskañ siaa, hindre so þeir trwe ecke Spaa.

Hlaut ei Christur ad kveliast so, og komast i Dijrd og Vegsemd haa, lagde wt allt um̃ hañ, þad Moyses skrifar og mæla vañ, merkelega og hvørn Spaamañ.

Sem þeir komu i Kauptun heim, kvedst hañ vilia i burt fraa þeim, Peir baadu af blijdre Trw, med oss HErra til Hvijldar snw, Pvi hnijgur Dagur og Kvølldar nu.

Hañ

Hañ gieck nu iñ og giſte þar, Pad giordeſt ſeñ þa bordad var, ad þeir þecktu hañ þa, Þviad hañ Brauded braut þeim hiaa, og bleſſar ſijdañ hverfur þeim fraa.

Sijn aa millum þa ſogdu þeir, Sañlega brañ vort Hiartad meir, A Veigenum vijſt af þvi, ad Skriptena oſs hañ ſkyrde frij, So Skilnings Lioos kom Hugen vorn i.

Aptur ſneru til Jorſala heim, og þad ſøgdu Brædrum þeim, allt ſem ad er nu tied, Hiner þad lijka hermdu med, ad HErrañ hefde Simon ſied.

HErra JEſu þu hiaalpa mier, ad hafa mitt Siñe allt hiaa þier, og ydka vel Orded þitt, Og þad giefe med Edled ſitt, Aſtar-Bruna i Hiartad mitt.

## Vijſañ.

TJl Emaus aadur eñkomu, Einer Tveir Læreſveinar, Guds Son vill þa gledia, Geingur þvi med þeim leinge, J añare Mynd og iñer, Allt um Chriſt fraa þvi Fyrſta, Baader i Brotning Brauda, Af breñande Aſt hañ kieña.

Opt af Ordſins Krapte, Eñ ſo Hiørtun breña, Aſt Guds ef ad Hugfeſteſt, Jñelega i Miñe, Hiartalag hañs ſem birteſt, Hier i Grædarans Rædu, Saa venur ſig beſt til Bæna, Betur veit af þeim Hita.

## Pridia Dag Paaſka, Evangelium Luc. 24.

Med Lag, Hvør ſem ad reiſer hæga Bygd.

HA Læreſveinarner eru nu eñ, um þetta vid ad rædaſt, Kiemur þar ſiaalfur JEſus iñ, Eñ þeir ſtoorlega hrædaſt, Bleſſadur ſtood þa beint i Mid, Bodande þeim ſiñ Guddooms Frid, Peir meina hañ Skrimſled ſkiædaſt.

Hañ ſpyr þa ad, þvi hrædeſt þier, Hugpryde laated dvijna, hvar fyrer ydur nu Skielfing ſkier, Skode þier Hendur mijnar, Og eirneñ Fætur ad eg em hañ, Uppriſeñ bæde Gud og Mañ, Mig ſiaalfañ vil eg hier ſijna.

Hvorke maa Ande Holld nie Bein, hafa ſem eg nu tiede, Peirra Trw var nu ſamt þo ſein, So ſem furda med Glede, Bered (kvad hañ) fram Koſt og Diſk, Peir komu til hañs med ſteiktañ Fiſk, Og Hunaangs-Seim hañ þa ſnæder.

Hier næſt ſeiger hañ ſoddañ Ord, Sagda eg ydur til Boota, Pa eg var eñ med ydur i Ferd, allt munde uppfyllaſt hlioota, Pad um mig ſkrifudu aller ſeñ, aadur Fordum DRottens Meñ, nu ſkulud þeſſa nioota.

Pa fieck hañ opnad þegar i Stad, Peirra Skilningar Miñe, ſo underſtoodu glogt ſierhvallt þad, Sem greiner i Ritninguñe, So hlaut Chriſtur ad ſagde hañ, ſiaalfur ad lijda Daudans Bañ, Og naa Uppriſu ſiñe.

Upprijſa hañ eñ Pridia Dag, Par med laata hier boda, Ydran ſo betreſt Lijfſins Lag, Lijkn og Naad ſu mun ſtoda, J JEſu Nafne um allañ Heim, uppheſia þad til Jeruſalem, Veit ydur Votta gooda.

Ord þijn lifande JEſu hier, Jñſiglud fyrer mier ſtanda, Laattu þvi alldrei Miſtrauſt mier, meiga nie ødrum granda, Po lymſkur Satan leite þar vid, Liena mier Hiartans iñra Frid, hallda og Helgum Anda.

## Vijsañ.

Christur med Kvediu besta, Kiemur hier iñ til siña, Þeim syndest einhvør Ande, J Añad Siñ mællte þañeñ, Hvad vilie þier hrædast, Hugar-Vijl sijst mun duga, Eg er ei eins og Draugur, Uggalaust skulu þier huggast.

Hvad er þeim Ordum ædra, Ef iñ-rætast i Siñe, Sonur Guds so vill meina, Synd skule oss ei blinda, Ellegar Ædra villa, Og alldrei Satans Galldrar, Þvi hañ JEsus mun miñast, Miña Rauna sem siña.

## Fyrsta Suñudag epter Paaska, Evangelium Joh. 20.

Med Lag, Nu bid eg Gud þu naader mig.

HAD Kvølldeþess sama Þvottdags eñ, þar Læresveinarner goodu Meñ, Jñelæster þa luktu sig, Lintrwader med Hrædslu Svig, ad byrgdum Dyrum kom JEsus iñ, Allmaatt so liooft ad vottar siñ, Stood i Mided og sagde so, Sie Guds Fridur ydur nu hiaa.

Hendur og Sijdu synde med, So sem hañ hafde nu þetta tied, Glodduft þeir vid þad goodu Meñ, Gaatu ad lijta HErra siñ, Eñ aptur samt hañ sagde þa, Sie Guds Fridur ydur hiaa, Lijka sem Fadereñ sende mig, So sende eg ydur nu hvorn um sig.

J þvi blies hañ aa Brædur þa, Blessadur JEsus sagde so, medtaked Anda Helgañ hier, hvorium sem ad forlaate þier, Synder og Brot þeim sie þau kvitt, so og hvorium þier bañed riett, Synder ad dryia þeim skal þa, Þetta Bañ hrijsa Himnum aa.

Thomas hvor eiñ hiñ Toolfte þa, Tortryggur var ecke hiaa, Nær þeim sem HErrañ hafde tied, honum søgdu þa þad var skied, ansar Thomas i añañ Stad, alldrei giæte hañ trwad þad, ad uppristñ JEsus sie til Sans, nema siaalfur þreife aa Benium hañs.

Epter Dagana Atta þa, Eñ voru þeir og Thomas hiaa, ad lyktum Dyrum kom JEsus iñ, og med Frideñ þa kvadde siñ, Sijdañ Thomas tiede hañ, Tak þu nu aa hiñ veyke Mañ, Sijdu miñe og Høndum hier, Og haf ei Efa neiñ med þier.

Ansar Thomas i Añad Siñ, O þu Gud DRotteñ HErra miñ, JEsus talar vid Thomam þa, þu trwder þvi ad þu sieckst mig siaa, eñ sæler eru þeir ecke siaa, eñ mig trwa þo jafnvel aa, mørg Taakn giørde hañs millda Naad, meire og fleire eñ hier sie tiaad.

Þesse Skript er þvi skraad og sett, ad skule þier trwa þad Naunar riett, ad JEsus er vor einka Von, Eilijfa Guds kiæraste Son, og hvør þad trwer nu so til Sans, saa hefur Lijf i Nafne hañs, Lof sie Heilaga Þreñing þier, ad þetta villder þu birta mier.

Komdu til mijn nu JEsus iñ, Almaattugur med Frideñ þiñ, Umbodsmeñ þijna jafnt sem þig, Eg trwe riett afleysa mig, þuert uppriseñ þvi mun eg, þiñ Limur eins aa sama Veg, Fyrer Guds Krapt og eilijft Ord, med Einglum komast i þijna Ferd.

## Vijsañ.

Hlurdu Hwsid byrgdu, Hreiner Læresveinar, Af Otta eñ JEsus DRotteñ, Jñ kom þetta Siñe, Med Ablæstre besta, Bindur þeim Aflausn Synda, A Hønd og Helgañ Anda, Hallþa aptur med Vallde.

Skødum þad Gagn og Giæþe, Sem Grædareñ hellst uñ ræder, Þa uppstadeñ er fraa Dau-

da, Anda siñ giefur ad Vanda, Þienørum þar til sijnum, Þañeñ Synder Maña, J hañs Nafne so hreinsa, Og hañ sem trwer wr Bañe.

## Añañ Suñudag epter Paaska, Evangelium Joh. 10.

Med Lag, Oss laat þiñ Anda Styrkia.

BYdingum JEsus greiner, Goodur Hirder hañ sie, Lijfs Hættu hollur reyner, Hirder fyrer sitt Fie, Eñ Kaupdyr Þræll saa Otrwr er, Sier Ulfur Saudum tyner, Svikull i burtu fer.

Þvi flyr saa Þrælleñ leide, Þegar hañ Ulfeñ sier, Ad Dygd hañs alldrei dugde, Daadlaus vid Saude er, Þa ellter i burt hid Olma Dyr, Og suma sundur tugde, Eñ Svika Dreingureñ flijr.

Eg sem kvad JEsus goode, Eiñ Edla Hirder saa, Sem kieñe vel sialfs mijns Saude, Og set mitt Mark aa þaa, So þeir eiñeigeñ þeckia mig, af hijru Hirders Hlioode, Og hafa þar epter sig.

So sem Fadereñ sæte, Sialfur ad kieñer mig, Og gaf mier þad eg giæte, Giørla kient lijka sig, So þecke eg lijka Saude mijn, Ad fyrer þa Lijf mitt liete, Lijd eg þvi Daudans Pijn.

Eñ hefe eg adra Saude, Og ecke vid Hwsed mitt, Hvoria eg hijngad leide, So hreppe nu Foodred sitt, Hlioodeñ skulu þeir heyra mijn, Ad hier sie Hws og Greide, Hirder og Hiørdeñ ein.

Fagnande fyrer mier virde, Frelsare JEsu miñ, ad þu ert miñ þydur Hyrder, þecker mig Saudeñ þiñ, Og hiaalpar mier i miñe Stiett, So Lomb þijn eg lijka nærde, Laat mig þad stunda riett, Amen.

### Vijsañ.

GOODur Hirder Gud Dyrdar, Giæter vor og vel leitar, JEsus einkum þvi hroosar, Ad audkient hafe sier Saude, Ad sønu so sem mig kieñer, (seiger hañ) Fadereñ þañeñ, Og ocker hvør añañ þecker, Endelega þa kiend eg.

Giætum hvad Guds Son veiter, Gooder Meñ Christinum Þioodum, Dygdugur Lijf wt lagde, Ad leita þeim Foostran veita, Kieñer oss ef vier uñum, Orde hans þad er vor Forde, Reñe sw Ast ed iñra, Ort i Goodsws Hiørtu.

## Þridia Suñudag epter Paaska, Evang. Joh. 16.

Med Lag, Dagur i Austre øllu.

SOnur Guds liwfrar Lundar, Læresveinum so tier, Jñañ alls skamrar Stundar, Eingeñ ydar mig sier, Eñ þa i ødru Siñe, Epter þa litla Stund, Þier siaaed mig samt og fiñed, Eg sæke aa Fødurs mijns Fund.

Sijn aa mille þa Sveinar, Søgdu og spurdust ad, Til hvørs hañ talar og meinar, um Tijma Korned þad, Hañ fare fraa oss og jaate, ad fiñe snart aptur þo, Litla Stund millum laate, Leynt Maal þar under bioo.

Frelsareñ fornam þetta, Þeir feingu ei skyniad riett, Og veit þeir villdu frietta, Hvad være þad fram var sett, Þier fysest kvad hañ ad fregna, Og furdar sw litla

Stu-

Stund, Giører þeim so ad giegna, Gledia vill hryggva Lund.

Sannlega satt eg seige, Syrgiande graate þier, Po Heimur Omilldur meige, Mest af þvi glediast hier, Sw mun þo Sorg og Treige, Snwast i Fognud brątt, Po Hrygd a Heimsins Veige, Hafed nu lijda mątt.

Pa Konann skal Foostred fæda, Frabær Neyd Lijfed skier, Hrygd mun þvi Hiartad mæda, Hennar Stund komenn er, Nær skaplega allt þad skiede, Skiepna Manns i Heim, Gioreſt hun styrk af Glede, Og gleymer Saarleika þeim.

So mun lijkt Sorgenn bijta, Saarlega ydur og þiaa, Enn eg vil aptur lijta, Ydur og hugga þa, Hiarta ydar skal hlioota, Heilnæmann Fognud þann, Er þa alldrei maa brioota, Og eingenn burt svipta kann.

Litla Stund Sorg vier lijdum, Lifande JEsus hier, Af þvi nu ongvo kvijdum, Eigum vijst Lijf hiaa þier, Gief þu i Mootgaangs Mædu, Mijn sie þad Huggun traust, Sem Lijfs i liooſre Rædu, Lofader Efalaust.

## Vijsann.

Umm Dauda sinn DRottenn goode, Og dyra Upprisu skijrer, Huled i myrkvo Maale, Meining Læresveinum, Hvad ad ei underſtoodu, Enn hann giør þad kiener; Peim af þessu Dæme, Pegar Mædur Børn fæda.

J vorre Neyd veykiunst HErra, Virdum Angur Stund langa, Enn vitum ei hvad þad heiter, Hin sie Tijd betre sijdar, Kiendu oss Krosse under, Kvijdalaust Sørg ad lijda, Jnnan Stundar sem endest, Par Endalaust Glede til stendur.

## Fioorda Sunnudag Epter Paaſka Evangelium Joh. 16.

Med Lag, Fader vor sem a Himnum ert.

JEsus Guds Sonur sagde so, vid sijna Brædur tiju og tvo, nu fer eg þann rietta Fridarins Stig, til Fodur mijns þess er sende mig, og eingenn af ydur kad þvi spyr, eda skyniar uu hvort eg fer.

Enn af þvi eg nu sagde so, Sorgfullt Hiarta munu þier fa, þo greine eg ydur gløgt sem skier, Gagn er þad ydur eg hiedann fer, þvi fare eg ei hiedann ad Herrann kvad, Huggarenn kiemur ei i minn Stad:

Fare eg hiedann so sende eg hann, sem ydur beſt ad hugga kann, enn nær hann kiemur mun Heimurenn fa, hentugast Straff sem Porf er a, fyrer Synd Riettlæte og so fyrer Doom, eg seige hanns Verkenn ecke froom.

Fyrer Synd straffast Heimurenn hier, hafa þeir ecke Trwna a mier, fyrer Riettlæte og Fordilld hanns, til Fodur mijns vitia eg til sanns, fyrer sinn Doom og Hræsnes Hreck, þvi Heims Hofdingenn Doom sinn fieck.

Eg hefe fleira ydur ad tia, enn ei hafed nu þar Skilning a, nær sem ad Ande Sannleiks sa, sendeſt ydur sem fræda ma, i allann Sannleik skal leida lioost, lysa upp ydar hin veyku Brioost.

Pvi hann talar ei af sialfum sier, seiger helldur hvad heyrde af mier, hvad epter kiemur og

og ecke er skied, undervijsar hañ þar med, sa goode Ande giefe þa Ment, ad giete þier vel mig sialfañ kient.

Af miñe tekur hañ Millde þad, og midlar ydur þegar i Stad, þvi allt hvad Fader eñ a til Sañs, er þad lijka mitt sem hañs, þvi sagda eg af mijnu sie sw Raad, sem hañ fær ydur i Brioosted saad.

Laattu nu JEsus Anda þiñ, hid Jñra straffa Blindleik miñ, so hafe eg þa Trw ad Hlydneñ þijn, hylie og græde Afbrot mjin, og Heims Mootlæted sie mier sætt, þvi sialfur fær þu Vanefneñ bætt.

## Vijsañ.

Hirtsør sijna birter, Bræðrum og so ræder, Bidur þa Guds Son goode, Gagne sijnu ad agna, Senda kvadst Sañleiks Anda, Sem ad straffa skal Heimeñ, Fyrer Synd Riettlæte Reyndar, Roomar hañ og so Doomeñ.

Gief þu oss alla Æfe, JEsus miñ hlijded Siñe, Ad lijda so Otrw eydest, Uñvandan Guds Anda, Og hvad vier hliootum lijda, Hatur sie ei nema Bate, Þvi under þeim Astar-Vende, Æra fellst myklu hærre.

## Fimta Suñudag epter Paaska, Evang. Joh. 16.

Med Hymna Lag.

SAñlega satt eg sver vid Trw, Sagde JEsus til Bræðra nu, J mijnu Nafne ef bidied blijtt, Miñ blijde Fader þad lætur veitt.

Þier hafed ei til þessa Dags, Þa Beniu haft til Bænalags, J mijnu Nafne so nockurs eins, miñ Naaduga Fodur ad bidia neins.

Bidied þess vegna Bræður nu, So bæde styrkest i riettre Trw, Og fullkomeñ hefðud Fognud þier, Fyrer mitt Nafn þad giorvallt skier.

J Ordskvidum hef eg ydur þad sagt, Ef þier feingied i Miñe lagt, Sw kiemur Tijd og seige ei þar, J soddañ Maalshaattum leingur par.

Helldur ydur auglijse bert, allt hvad Fader miñ hafde giort, J Nafne mijnu og i þad Siñ, aller þier bidied Fodureñ miñ.

Ei seige eg ydur nu þad; Eg mune Fodureñ sækia ad, Ydar vegna med Astar-Bæn, Þvi Elskañ hañs til ydar er væn.

Þar fyrer ad þier elsked mig, Og trwed fra Gude wtgeinge eg, Fra Fodurnum eg wtgeingeñ er, Og so komeñ i Heimeñ hier.

Eg mun og sagde JEsus þeim, aptur forlaata þeñañ Heim, Og fara hiedañ sem fyrr þar sagt, Til Fodur mijns heim i Dyrdar Makt.

Blessadur sver hier Bornum Eid, Bænheyra oss i allre Neyd, JEsus gief vier aller nu, ad sækium þig i goodre Trw.

## Vijsañ.

SOnur Guds sver þær Bæner, Ad soñu veitest Moñum, Hvad i hañs Nafne bidium, Hædst Naad Fodurens Naadar, Og vill ad uñ Fognud fullañ, Og Frid Samvitsku bidium, Lete vora avijtar, Bænar afrækium Bæner.

Heit þijn halldast læter, HErra Gud so ad Mein þverre, J Voda nu vier þig bidium, Veit þu oss Ydran heita, Miootum Sonar þijns sæta, Siaadu Kyrkia hañs þiaadest, Pa Fognudur meire magnast, Pu mæter af oss Packlæte.

## A Uppstigningar Dag, Evang. Marc. 16.

Med Lag, Naatturañ øll og Edle Mañs.

SEm þeir Ellefu saatu nu, Sveinar Christi ad Borde, hañ birtest þeim og vill Vantru, Vijta med Lijknar-Orde, Og Hardwd med þeim hofdu hañ sied, hvørium þeir ecke trwa, og bydur þeim um allañ Heim, a Lijfsveg Lyd ad snwa.

Prediked hreint mijn Astar-Ord, allre Mañkind aa Jordu, hvør sem trwer riett Skiepnañ skyrd, aa Skaparañ hoolpeñ verdur, Saa ei trwer mun tyna sier, Teikn fylgia þeim ed trwa, Fyrer Nafn mitt flyr Satan sitt, Setur og burt skal snwa.

Nyar Tungur þeir tala og hreint, Taka Høggorma lijka, af Eitre verdur þeim ecke meint, Eingeñ Dryckur maa svijkia, yfer Siuka Meñ, So marga señ, meiga þeir Hendur leggia, Giora so hrein, øll hættleg Mein, hittest Trw hvørutveggia.

Epter þad HErrañ hafde so, heilnæm Ord lint ad flytia, hañ var uppnumeñ i Himneñ blaa, aa Hægra Veg Guds ad sitia, þeir geingu wt, med aungva Swt, um allañ Heim Gudspiøll kieña, med DRottens Styrk og Dyrdar Verk, Sem Lijfgade Lærdoom þeñañ.

Pu situr aa Himnum HErra miñ, Hægra Veg Guds i Rijke, styrktu mig veykañ Præleñ þiñ, ad þioona so þier lijke, Aflausn og Skijrn, þu JEsus eirn, oss til Stadfestu veiter, Po lijdum hier, hofum hiaa þier, Heimvon sem Eingla Sveiter.

### Vijsañ.

NEdur til Himna Hæda, HErrañ stie Brædrum tiede, Ad læra skule og skijra, Skiepnur allar Guds hepnar, Hvør med stiærre Trw skijrest, Skal ødlast Hiaalp Saalar, Hiner Trwlausu tynast, Teikn froomra mørg reiknast.

Pu hefur oss HErrañ lijwse, J Himen Ferd giefed Meñ Lærda, Hirdara hvørier ed skijrdu, Og heilnæm Teikn wtdeila, Gief ad alleins þeim hlijdum, Af Alsu Guds sem þier siaalfum, Fyllest aa oss med øllu, Allt þad sem þu mællter.

## Siette Suñudag epter Paaska, Evangelium

Johañ. 16. Med sama Lag.

VEresveinum so JEsus tier, Jñer þad Gudspialls Næda, Pa Huggareñ sa sendur er, Sañleiks Andeñ ad fræda, Eg sagde hañ, vil senda þañ, siaalfur af mijnum Fedur, þvi Vitne ber, hañ best af mier, bæde og Hiortun gledur.

Pier verded og mijner Vitnis-Meñ, vorud hiaa mier so leinge, Petta tala eg þvi nu eñ, ad þier ei Hneyxlan feinged, Kiemur su Tijd og Sturlan strijd, stæsta Bañ munud reyna, so hvør ydur nær, J Heliu slær, hygst Gude þar med þiena.

Peir giora ydur þo þetta vijst, þvi miñ Fødur ei kieña, Og mig siaalfañ allra sijst, aa slijkt vileg þo miña, Seige eg nu, af sañre Trw, Soddañ fyrr eñ þad skiedur, Ei hef eg snjallt, J Maale mællt, aa medañ eg var hiaa ydur.

JEsu

JEsu lát þu nu Anda þiñ, allañ Sañleik mier kieña, Hugeñ ad styrkia HErra miñ, J hvørre Neyd til mijn reña, Verollden er øll moote mier, margslwnged Fals ad brugga, Samviskañ hrein i hvørre Grein, Hiartad geyme áan Ugga.

## Vijsañ.

SA kiemur seirna Tijme, Seiger JEsus þier eiged, Von á Veralldar Launum, Vægdarlaust Vañ Utlegdar, Ydur ef einhvør deyder, Ast-Verk Gude hid skáasta, Meinar sig þar med þiena, Pecker hañ og mig ecke.

Send þu oss sialfs þijns Anda, Sæte JEsus ad giætum, Lided Heims Sturlan strijda, Eñ staded samt Lyndis glader, J vorre Stiett vel so mættum, Vijta Heims allskyns Lyte, Þoott vier þar til ættum, Preyta Naud allt til Dauda.

## A Hvijtasuñu Dag, Evangelium Joh. 14.

Med Lag, Hvør sem ad reiser hæga Bygd.

HVør sem elskar med allañ Sañ, Ord mitt á Hiartad lagde, Fader miñ heirneñ elskar þañ, Astrijkur hyr i Bragde, vid munum til hañs vitia þratt, Vistast hiá honum Dag sem Natt, JEsus Guds Son so sagde.

Eñ hvør sem ei vill uña mier, Ordrædu forsmáar mijna, Og Ord þad hvort þier heyrdud hier, helld eg ei mitt alleina, helldur Fødur mijns miwkast Mál, mig sende hañ ad gledia Sál, Birta so Briooster hreina.

Mællt hef eg þetta miøg þratt eñ, medal ydar og kiende, Heilagur Ande Huggareñ, hvørn miñ Fader ad sender, J mijnu Nafne mun kieña klárt, Giøra ydur þad lioost og biart, hvad sagde eg ydur og synde.

Eg læt miñ Frid so ydur i Tie, Og gief nu Frideñ þañ saña, Ei sem Verølldeñ elskar Fie, Og Liwgdyrd Hefdar-Maña, hryggunst ecke þa Hiørtum i, heyrdu þier eg lofade þvi, Apturkomuna ad kaña.

Ef þier kuñed ad elska mig, Ord þad vijst gledia munde, Eg fare þañ rietta Fridarins Veg, Fødur mijns leita ad Funde, Þvi Fadereñ miñ er meire mier, mællt hef eg slijkt so tryde þier, styttud so Hrygdar-Stunder.

Frá þessum Tijma tala eg ei, Til ydar margt ad Siñe, Kiemur Høfdinge Heims ad þvi, honum ei neitt þo viñe, med mig hafa eñ Heimureñ kañ, hier af siá eg Fødurnum añ, og hefe Bod hañs i miñe.

Gief þu JEsus eg elske þig, Ord þijn vandlega geyme, Heilagur Ande hugge mig, J hvørre Neyd Lijfs i Heime, Samviskañ jafnañ gledjest good, af Guddooms Frids eñ hrinde Mood, Angre so øllu gleyme.

## Vijsan.

HEiter JEsus ad hlioote, Hollañ Giest sem ad Hug fester, Og Følskalaust Ord sitt elskar, Jñ i Briooft og Siñe, Þvi hañ og Fadereñ siñe, Fræga Vist og þar giste, Siñ Frid seigest þeim lega, Sætara Heims Medlæte.

Vort þá veyka Hiarta, Verka þu med Trw sterka, JEsus miñ ad þig hysum, Jñe þar hvørju Siñe, Favér og Ande fræde, Uñ Frid þañ jafnañ bidium, Ad Otta Heims i Hættu, Hugader alldrei bugum.

## Aññan Dag Hvijtasuñu, Evangel. Joh. 3.
Med Lag, Guds Son kallar komed til mijn.

Nid Nicodemum sagde so, Siaalfur JEsus og villde þa, Honum til Hiaalpar snwa, So Elskade Gud aumañ Heim, Ad Einka Son siñ gaf hañ þeim, Øllum sem aa hañ trwa.

Þeir skylldu ei hliota Heliar Vist, Helldur Lijf fyrer JEsum Christ, Eilijft um Allder Allda, Ei sende Gud Son siñ wt, Syndugum Heime auka Swt, Glotunar Veige ad vallda.

Sa sem a Guds Son sette Traust, Saaluhoolpeñ er efalaust, fara ma alldrei illa, hvor sem hañ trwer ecke aa, allareidu er dæmdur sa, velldur þvi siaalfs hañs Villa.

Þviad sa hvor var heidnum jafn, helgasta Guds Sonar Nafn, villde vijst ei trwa, sw er þo Glotun sijnum vest, þad satt Lioos skein i Heime best, eñ Meñ i Myrkreñ snua.

Þvi Verk voru þeirra vond i sier, eñ vanur er sa sem hreckvijs er, ad hata þad Lioosed hreina, hañ geingur ei iñ þar yfer hañ skijn, so Illgiord ecke straffest sijn, eda kome til gløggra Greina.

Eñ sa sem stundar Sañleik hreint, soddañ Giordum fær ecke leynt, vill øll sijn Verk auglysa, so kuñug verde Christnum Lyd, sn Klaara Dygd a hvorre Tijd, Gaafu Guds þar med prijsa.

Sæte Fader þijn Elskañ ein, olle þvi JEsus bar vor Mein, fra Fordæmingu snwa, þu ert mitt Traust og einka Von, aa hañ þiñ kiæra Elsku Son, hiaalpa mier hreint ad trwa.

### Vijsañ.

Ast þa allra besta, aumum tiaade Gud Heime, siñ hañ sætast uñe, Soneñ gaf hvør sem hønum trysie af Trwleik mestum, tapast ei so i Kvøl hrape, helldur af hædstu Millde, hlioote Lijf þad er æ blijfur.

Eg lofa þig Gud miñ liwse, þu liest mig Elsku besta, Sonarins samt, og þijna señelega vel kieña, lat mig nu þess niota, i Naudum hellst og Dauda, JEsus eiñ mier vijse, iñ til Nada þiña.

## Þridia Dag Hvijta Suñu, Evang. Joh. 10.
Med Lag, Konung David sem kiende.

Sañlega sañlega seiger, Sonur Guds þetta siñ, hvar sem eiñ geingur eige, alvanar Dyrnar iñ, i Sauda Hws hvort Siñ, helldur a hiñ Veg smygur, hañ er sa bæde lygur, Illvirke og so Hviñ.

Eñ sa er hvør Hirder Sauda, sem iñ um Dyrnar fer, Fienu so fordar Dauda, fær þañ til Hiaalpar sier, fyrer iñañ Dyrnar er, Hurdar Vaktarañ hyra, hañ kañ Saudunum styra, þvi Røddeñ audþeckt er.

Nafnkieñer Saude sijna, so med Einkieñum tveim, velur Braut fæða sijna, fer siaalfur undañ þeim, þeir fylgia honum so heim, fram og aptur þa fæter, Flockureñ allur lærer, ad kieña hañs Hlioodaihreim.

Aññarleg

Añarleg Hliood þo heyre, Hiordeñ su geimer hañ, Munureñ er sa meire, ma hun ei kieña þañ, þo hlioode hætt sem kañ, helldur fra þeim flya, Fætur mun sa lyia, ad-ur eñ alla sañ.

Soddañ Mæls-Grein ad sagde, Sonur Guds Judum hia, þeir skildu ei skiott ad Bragde, skyrt hvad mællte hañ þa, JEsus jook þvi a, Jeg er Braut siaalfur Sauda, sa mun fordast Dauda, þær Hws-Dyr hitta ma.

Þeir sem fyrer mier fooru, med fleckada Lærdooms Grein, Hviñ og Spillvirk-iar voru, veittu þvi Saudum Mein, hlydde ei Hiordeñ þeim, eg em Hws-Dyr þær hreinu, Hiordena sirre Meinum, Rodd mijn er audþeckt ein:

Hvor uñ mig iñ vill ganga, eilijfa Heill fær sa, og hañ opt mun længa, wt og iñ Braut ad ga, Foodre skal noogu na, Þiooffins er Edled illa, ollu stela og spilla, eg læt þa Lijfgan fæ.

Riettar Dyr liestu leida, lifande JEsu mig, og fyrer mier Gøngu greida, giefdu eg elske þig, so Hiordeñ sedie sig, Þioofum læt ollum eyda, og þeim er Sæler deyda, Otrw er illmañleg.

## Vijsañ.

Hvor adra Leid iñlædest, eñ uñ Dyr þær ed Lømb reña, hliodur i Hwsid Sauda, hañ er Þioofur og Boose, eñ hiñ er Hirder saue, er hitter Jñgang riettañ;, Dyravørdur hiær Hurdu, hañ greidlega iñleider.

Ungur næde eg Jñgange, og æhitte Dyr riettar, ad lætast Hirder heita, i Hws þetta Fiar DRottins, Dyravørdur Søng giørde, Grandalaus DRottins Ande, af hañs Ræd hef eg Guds Saude, i Haga leitt mijna Daga.

## Trinitatis Suñudag, Evang. Joh. 3.

Med Lag, Oviñañleg Borg er vor Gud.

MEd Phariseis var froomur Mañ, fystest Guds Rijkis leita, Nicodemus ad heiter hañ, Hofdinge Juda Sveita, sa kom til Christs uñ Noott, Kyñ-ing Guds fieck þvi sott, ottast þo Juda so, ad þvi vill fordast þa, Vird-ing Guds Syne ad veita.

Meistare seiger hañ veit eg vijst, valeñ ertu ad kieña, af Gude siaalfum med goodre Lyst, giefeñ i Skoolañ þeñañ, þvi eingeñ Mañeskia ma, Millde-Verk nein so hæ, viña uñ vijdañ Heim, være ei Gud med þeim, Hier vil eg Hug til reña.

Sañlega sañlega sagde þa, Sonur Guds hønum a moote, ef ad Guds Rijke ei-tn vill siæ, hañ endurfædast hlioote, hiñ spyr hvørneñ þa, hlotnast ny Fæding ma? Hvørt Meñ i Moodur Kvid, meiga slast aptur vid, so nyrrar Fædingar nioote.

Sañlega sañlega sagde þa, Sonur Guds eñ ad Vanda, sw Vegleg ny Fæd-ing veitast mæ, fyrer Vatn og heilagañ Anda, hvør sem hana ei fær, Hymna-Vist alldrei nær, hvad af Hollde er fædt, Holld er þad stendur hætt, eñ Ande fædest af Anda.

Undrastu sijst hvad sagde eg þier, so skal Mañ Endurfædast, Vindureñ blæs

hvar vill hañ hier, Voda Storm marger hrædast, þad skyniar þitt ei Vit, þo þu heyrer hañs Pyt, hvadañ ad hellst hañ er, eda hvort i burtu fer, um̃ andlegt Lijf eins maa rædast.

Nicodemus hyr HErrañ spyr, hvorneñ slijkt verda kyñe, JEsus svarade eñ sem fyrr, ertu Meistare eñ sviñe, yfer Lyd Jsrael, og þad ei skyniar vel, sañlega seige eg þier, satt hvad votta hier, sa og sette i Miñe.

Vorn akte þier ei Vitnisburd, villied ei helldur trwa, þa seige eg af þvi sem siest aa Jord, fijst mundud Hug til snwa, ef fra þvi herme hier, a Himnum uppe er, þangad upp eingeñ fer, Utañ sa þadañ veik sier, Mañsins Son mun þar bwa.

So sem Moyses feste fyr, Frægur upp Ormeñ bleika, aa Eydemørkuñe harla hyr, J hæstu Limum Eika, So er þess eirneñ Von, Uppfestest Mañsins Son, Trwe hañ einhvør aa, alldrei fortapast saa, Eilijft Lijf eignast lijka.

Endurfædingar unt er mier, JEsus Guds Sonur hiñ Millde, Von eilijfs Lijfs eg aa hiaa þier, Af þvi so giarnañ villde, Hafa miñ Hug og Traust, hiaa þier, þvi Efalaust, ad øll Forþienan þijn, hun er og nu eirneñ mijn, Hlijf mier med Hiaalpar-Skillde.

## Vijsañ.

NAm ei Nicodemus, Um̃ nya Fæding þo ræde, Eñ Christi Kieñing besta, Kiær villde þo læra, JEsus undervijsar, Ad eingeñ til Lijfs iñgaange, Nema Endurfædest af Anda, J einu og Vatne hreinu.

Ord þitt JEsus giørde, Og Ande Guds þier til Handa, Børn fyrer Blessan-Skijrnar, So bæde aa ny fædast, Añars ei maa fiña, Endurfæding med Hende, Helldur eñ Vind Heilagur Ande, Hugar sterka Trw verke.

## Fyrsta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 16.

Med Lag, Skapareñ Stiarna HErra hreiñ.

VId Phariseara sagde so, Sonur Guds eñ sem Gudspioll tiaa, Audugur Madur eiñ var saa, allt Sællijfe ad gyrntest aa.

Purpura bar og Perled best, prijdde hañ sig med Skarted flest, høndlade alldrei goodañ Giest, Eñ gyrntest Kraasa Borded mest.

Purfa-Madur þar leinge laa, Lazarus var nefndur saa, Med Graptrar Saar hañs Gaattum hiaa, Gyrnest Mola ad sediast aa.

Af Borde hins Rijka var ei veitt, Þeim volada Mañe Fæde neitt, Hundarner giordu Gagned eitt, Hañs Graptrar Saar þeir hofdu sleikt.

Hiñ Volade deyde vijst med Frid, var þar þa nærre Eingla Lid, Aundu hañs tooku allvel vid, J Abrahams Fadm ad Helgra Sid.

Eirneigeñ lijka andast saa, Auduge Mañ og greptrast þa, wr Kvolum Helvijtes señ nam siaa, Saalu Lazari Abraham hiaa.

Æper haatt sem esst hañ kañ, Abraham Fader sagde hañ, Lazarum þañ hiñ liwfa Mañ, Laattu miñ kiæla Hiarta Rañ.

Hijngad sentu nu hañ til mijn, Hefe eg ad lijda saara Pijn, Purkur Tunguñar

Jndlaus

baadlaus dvijn, Ef Dropa Vatns ber a Fingre sijn.

Abraham sagde Son miñ þu, Siaa hvad Olijk er Vísteñ sw, Hañs fyrer Neyd kom Huggun trw, Pu hafder gott eñ Pijnest nu.

Ofan aa þad er Ofærd stoor, Og Ognar Diwp aa mille vor, So hiedañ eingeñ Ofanad foor, Eda þadañ aa Himna Koor.

Sentu þa Fader sialfañ hañ, Sagde honum i Fødur mijns Raañ, Til Brædra Fiñ med fullañ Sañ, So fordest þetta Vijtis Bañ.

Abraham mællte Moyses er, Og marger Spaameñ fremre eñ vier, Pijnum Brædrum þetta ber, Peirra ad hlyda Skriptum hier.

Nei miñ Fader helldur hitt, Hiñ kvad gledde Hiartad mitt, Ef framlideñ Mañ þañ færde Kvitt, Fraa eg þeir betre Raaded sitt.

Abraham seiger ef aller señ, Peir akta lijted Spaadooms Meñ, Po Dauder kome med Teikneñ Tveñ, Pa trwa þeir ei ad helldur eñ.

Kieñ þu mier JEsus Hoofsemd hier, med hvorre giof sem Christnum ber, Elsku og Trwna auk þu mier, Og uñ so Lijfs hiaa sialfum þier.

## Vijsañ.

SA audnge noog miøg nijdest, A Raad Guds þviad hañ baade, Ast og Trw illa misse, Eñ Aude þioonar til Dauda, Lazarus Hug siñ hresser, Vid Heiteñ Guds, Af þvi veitist, Hønum hellst fyrer Trwna, Himna Vist giefeñ af Christe.

Eign Fiaar alldrei megnar, Asinæm Mañ Fordæma, Faatækt fær ei Sekter, Fridar af Adams Nidium, Rijkur fyrer Faatækañ, Fiaar-Ploog skyllde looga, Aureigeñ vel trwr vera, Veiter Raad DRotteñ baadum.

## Añañ Suñudag epter Trinitatis, Evangelium Luc. 14.

Med Lag, Maa eg Olucku ei moote staa.

JEsus Hinum Gydinge Andsvar gaf, uppaa sitt Skraf, JEsus med Astar Orde, Sæmdar Madur ad saa var Eiñ, J Hiarta hreiñ, Mykla Kvolldmaaltijd giorde, Og siñ sende Svein, So var Lundeñ hrein, Ad saa segde þeim, sem hañ baud heim, Komed albwed er Borded.

Og þeir neitudu aller þa, Pvi sagde saa, Sierdeilis eirn hiñ Fyrste, Bwgard nykeyptañ eiñ eg aa, Sem eg hlijt siaa, Par til mig leinge lyste, Eg beide þig, affsaka mig, um Forfoll rijk, So rædde slijk, ad hier fyrer Heimbod miste.

Keypta eg og kvad Añar mier, Sem all-opt skier, Ardur Uxa Fiñ væna, Pegar i Stad nu þaangad fer, Sem þad Twn er, Peirra Krapt riett ad reyna, Pau Forfoll mijn, Flyt Herra þijn, Eg beide þig, affsaka mig, Kome þad gior til Greina.

Pridie sagde eg feste Frw, med fullre Trw, fyrer þvi maa eg nu eige, koma þar iñ þo vel sie veitt, so vante ei neitt, þu heyrer nu hvad eg seige, Sveiñeñ kom þa, og sagde fra, hermande allt, þeim Herra sniallt, er Von hañ yfast meige.

Reidur sagde hañ Sveinum þa, og so kvad a, fared wt um oll Stræte, og Gotur Borgar hvar hitted þa, sem Prauter þiaa, og þecked af Lijtelæte, Heilblin-

da

da señ, og halltu Meñ, leided hingad iñ, so Hoopur fyllest miñ, skiped þeim so i Sæte.

Sveirneñ kvedur þad so nu giort, og sie þo skiert, Rodeñ þvi Rwm er meira, wt a Piood-Brauter þu skallt gaa, og Gørdum hiaa, draga hier iñ halfu fleira, fyrer vijsañ Sañ, ad sagde hañ, Bods-Meñ þeir, ei mijna meir, Maaltijd fa siaa nie heyra.

J Heimbod Veglegast Herra miñ, mig Prœleñ þiñ, fyrer Guds Ord giørder ad kalla, lystuga Riette lagder fram, eg læra nam, Lijfs um Dagana alla, auk mijna Trw, og ørva nu, Vilia og Siñ, sem eg veykleg siñ, laat mig ei fraa þier falla.

## Vijsan

Pad Heimbod hædst ad Sooma, heidarlega tilreider, Hws-Fader hvørn vier prijsum, hañ baud fiølda Maña, Bods-Meñ undañ beidast, Bw-Starf þa fordiarfar, reidur Millding sa sijdañ, sækia lætur Faatæka.

Gud liest Gudspalls Rædu, gooda Judum fyrst bioodast, hvad þeir hellst forsmaadu, eñ Heidingar til leidast, nu vier Nidiar þeirra, niootum Christs og þad hliootum, DRotteñ gief meir Mættu, Meñ þar Huga til reña.

## Pridia Suñudag epter Trinitatis, Evangelium Luc. 15.

Med Lag, Eirn Herra eg b:st ætte.

HAñ Tijd allmarger aumer, æpande Glæpa Meñ, fra Toll-Bwd og so sumer, sooktu ad Christe señ, hvad Siergiædingarner saau, samt i þessum Stad, og hønum a Halse laau, harla miøg fyrer þad.

Þeir søgdu ad JEsus sæte, med syndugum þar vid Bord, fyrer audmiukt Lijtelæte, leid hañ þa Smaanar Ord, meintu hañ munde slijkur, sem Motu-nautar hañs, eñ hañ af þvi vijkur, a Yferboot syndugs Mañs.

Epterlijking eina, JEsus þeim sagde þa, hvor er sa hañ ried areina, sem hundrad Sauda a, ef misser eiñ af øllum, er þad ei so til Sañs, hañ skilur vid Fied a Fiøllum, eñ fer og leitar hañs.

Sijdañ ef Saud ma fiña, a sijnum Herdum ber, heim til Hwsa siña, hañ kvedur til med sier, Vine og gooda Graña, glediast þa eiña best, vid Yferboot aumra Maña, Einglar samfagna mest.

Eda þad eitthvort Kvende, sem atte Peninga tier, tiu og einum tynde, tendrar Lioos og so skier, hun soopar Hws og hitter, hañ þa i samre Stund, so af heñe Angre liettar, og er med gladre Lund.

Vinkonur sier samfagna, sijdañ og Graña bad, eins munu Einglar Magna, aller Glede vid þad, eiñ giører Ydran señа, sem ædur i Syndum laa, helldur eñ vid Hundrad Maña, sem heñe ei þurftu na.

JEsu vor Hirder hædste, hvad ma nu bresta mig, sa Føgnudur eiñ er ædste, vier eigum nu sialfañ þig, þijna Rodd laat mig þeckia, og þvi Haglende maa, hvør eige meiga Ulfar bleckia, eda mig skielfa fra.

## Vijsañ.

GOOdur Hirder nun gledjast, ef gietur funded Saud tyndañ, Mooder mun hvør sig gledia, meige siñ Pening fiña, Fader þo Fieнu eyde, fagnar Sonarins Gagne, Einglar Guds Fognud fanga, ef falleñ til Nadar kallast.

Gledium oss Gud son ræder, uñ Gagn vort Einglar fagne, Yferboot ef vier grætum, af insta Root Glæpe liveta, send mier Ydranar Anda, alla Stund so ad ei falle, fra þier Faderen kiære, feinge hia þier Lijf Eingla.

## A Jons Messu Baptiste, Evangelium, Luc. 1.

Med Ton, Gud myskune-nu øllum oss.

HA kom su Tijd ad Oliett ein, Elisabeth skal fæda, fædde hun Son þañ fræga Svein, sem fleira er uñ ad ræda, Viner og Frændur fregna þad, fyllast þeir aller Kiæte; þeir koma eirneñ þangad ad, þacka med Lijtelæte, Myskun Guds og þau Mæte.

Pañ atta Dag sem altijtt var, Umskurn þvi Barne veita, Zacharias þeir sogdu þar, Sveirneñ ad skyllde heita, Elisabeth þeim ansar riett, Johañes Nafn hañs være, þeir seigia moot i þeirre Ætt, þetta Nafn eingeñ bære, þo trw eg so framfære.

Fodur hañs benda fleire eñ eiñ, frietta ad hvad þar til sagde, ef heita skyllde so hoskur Sveiñ, Hnefa Spialld took ad Bragde, þeigiande skrifar þesse Sveiñ, þa skal Johañes heita, harla miøg undrast hvør sem eiñ, honum ried Gud þa veita, Maal og Lofgiørdar leita.

Yfer Nazarana Otta sloo, Adburd þañ fluttu vijda, uñ Juda-Lands alla Fiall-Bygd sloo, Frasøgn þvi marger hlijda, Rootfeste hvør sem heyrde þad, Hamingiañ dæmd ad Launum, allur Lydur a eiñ Veg kvad, eiga mun Heill i vonum, þvi Hønd Guds var med honum.

Sacharias af sætre Nad, saññheilar Guddooms Anda, sijdañ þa strags fieck sagt og tvad, so sem þar stoost mun standa, Israels Gud þu HErra hyr, helgest þijn Tign og Millde, vitiader vor þu DRotteñ Dyr, Dardsemdeñ hæst i gillde, Frelsan oss veita villde.

Uppreiste oss eitt Hiaalpar Horn, i Hwse Davids sem trwde, fyrer Muñ Spaamañs sem mællte hvørn, munu þeir sofa i Fride, Ovinum hiet oss frelsa fra, Fiand-Maña Heiptar Hende, Fedrum vorum ried Trwskap tiaa, tallaust þeim Lykn ad sende, Saattmaalans Ord vel ende.

Miñtest þañ Eid sem Abraham soor, ad hañ oss Frelsan giæfe, þo Fiand-Maña Heiptar Hønd sie stoor, hiaalpa uñ alla Æfe, honum þioona i helgum Sid, hreinlega Lijfs til Enda, Riettlæte vijst med fullañ Frid, fa þar i Hofn ad lenda, sem ad hañ villde senda.

Og þu Sveirn unge saade hañ, sialfur munt eirneñ heita, hæsta Guds Spaadooms Spektar Mañ, Spurningar kuña ad þreyta, fyrer Herrans Augsyn reña riett, reida hañs Veg med Prijde, Saaluhiaalpar skal Orded eitt, og Yferboot kieña

 Lyde;

Lyde, so ad fra Syndum flyde.

Fyrer Hiartgrona Giæsku Guds, sem giefeñ er oss af Hædum, uppruñeñ þar ad oss ka Goods, og øllum byta Giædum, ad lysa þeim sem sitia sua, i svørtum Myrkra Skugga, Daudans Naudum ad frelsa fra, Fætur greida og hugga, a Fridarens Veg aan Ugga.

Hiñ sæle Johañes sa var fyrst, sendur af DRottens Raade, predika Naud og prydsdur List, prwdur Hræsne forsmaade, Footsporum laat mig fylgia hañs, Frelsare miñ og kieña, Heilaga Preñing so til Sañs, sijdañ þar Hug til reña, Lijf prijde Lærdoom þeña.

## Vijsañ.

Elisabet su sæla, sviñ og Gudhrædd Kvinna, a Nafn Johañem nefner, af Raad Guds uñ þad spaade, Sacharias liet lijka, letra ad hañ so hiete, vid Umskurn Jons þess giordest, ad aptur fieck Maal med Krapte.

Adur eñ JEsus fædest, undañ rañ af Stundu, Jon saa Hiarta hreine, Er hañs Leid skillde greida, Naadarbod Nafned þydest, ny Verk bera þess merke, Ad nu kom Naadar-Tijme, Og nalægur HErrañ fræge.

## Fiorda Suñudag epter Trinitatis, Evangelium Luc. 6.

Med Ton, Fader vor sem a Himnum ert.

VEred kvad JEsus mijner Meñ, Myskunsamer so aller señ, lijka sem hañ med Fridsemd fer, Fader vor Gud og milldur er, dæmed, fordæmed øngvañ eiñ, so ydur ecke fordæme neiñ.

Fyrergiefed, so faaed a moot, Fyrergiefning fyrer ydar Brot, giefed og ydur giefast skal, goodañ Mæler og fullañ vel, greida þeir ydur eirneñ Vigt, ef ad þeim lijka mæled slijkt.

Pviad sa Mæler sagde hañ, sem þier hafed vid sierhvørn Mañ, aptur i moot skal ydur af þeim, alleins lijka so mælast heim, vanded þvi jafnañ Mæling mest, eg meina ydur þad giegna best.

Med Epterlijking þad sañar so, ef siaae þier leidast blinda tvo, er þad ei so fyrer wtañ Tos, i eina falla þeir baader Gros, mun og ecke af Moñum neiñ, Meistara ædre Læresveiñ.

Pa Læresveiñeñ einhvor er, Yfer-Meistara jafnvijs hier, þa er hañ algiør þegar i Stad, þvi spyr eg hvørneñ skier þig þad, þu sier þo Augn i Auga hins, ecke giæter þu Bialka þijns.

Hvørnen maattu þad mæla þa, miñ Brooder laattu mig til þijn naa, Ogn ad taka wr Auga þier, ef ad þu ecke siaalfur sier, i Auga þijnu þañ Bialka beint, sem bera kantu þo ecke leint.

O þu Hræsnare heyr nu þad, hitt er þier Raad i allañ Stad, drag fyrst wt Augn af Auga þier, epter þad siaa til hvar þu fer, af Broodurs Auga Bialkañ drag, betra hañs Raad og fær i Lag.

Gief þu i Hiartad Myskun mier, milldur Gud ad eg lijkest þier, heptu mig æ af heimskum Doom, hiaalpa ad mijn sie Lunden froom, vid mijna Brædur so semie hier, ad sijdar Naad þijna fyndum vier.

## Vijsan.

EF aumur hvør annan dæmer, alleins ma þad kalla, og bæder tveir blinder leidest, brætt i eina Grøf detta, Læresvein Meistara meire, mun sialldan nein halldenn, þvi hafa þijn hvørskins Lyte, hvad þu sier lioott um adra:

Sa Doomur er hier i Heime, hvør Mann straffar annan, um þad sem siaalfur prijder, a sier þo drye enn verra, gief þu mier Gud minn liwse, eg giæte sied mitt Rææglæte, sijdan um vid adra, med Anda hoogværum vande.

## A Vitiunar Dag Mariu, Evang. Luc. 1.

Med Lag, Adams Barn Synd þijn so var stoor.

UPPstood Maria epter þad, Eingellenn veik fra henne i Stad, til Fiallbygda sier flytte, i Borg Juda ferdadist fws, froom gieck i Zacharie Hws, kiærlegre Kvediu bytte, Ettkonu sinne Elisabeth, og so skiede þad Barned liet, hrærast i hennar Lijfe, Elisabeth, upphoof sijn Hliood, þvi Heilagr Anda Samvist good, efldе þau Ord med Pryde.

Elisabeth so sagde þa, sæl og blessud Mey Maria, Heims medal Heidurs Kvenna, Avoxtur Lijfs þijns Blooma ber, blessadur umfram alla er, hvar fieck eg Heidur þenna, ad Guds Gietaran gieck til mijn, gladdest mitt Barn vid Kvediu þijn, dyrlega DRottens Mooder, oll munu fyllast Ord og Heit, er þier Herrann kunngiora liet, sæl ertu sem þeim trwder.

Og Maria þa sagde so, Saala mijn prijsar mest sem max, Herrann Gud hatt a Jordu, eirnenn gledur sig Ande minn, af þeim Krapte eg med mier finn, sem Heilsugiafarenn giørde, mig audvirdelega aleit hann, eirn og sierhvør þvi hroosa kann, Heill minne Heims med Pioodum, sannar Dæsemder synde mier, sa Gud hvørs Nafn ad heilagt er, heidrad af Hiarta-goodum.

Hanns Hiarta Giæska mun halldast vid, Hvørn epter Annann Ættar-Lid, Honum ef Hlijdne veita, med styrkvum Arm vid Oflugann maatt, Offstopa Mønnum dreifde braatt, Huxndu Hefdar leita, Dramblaatum steipte Stoole af, J Staden liwsum Uppreisn gaf, Minntest æ Myskun sijna, Fyllande allt þad Fordum hiet, Fedrum vorum þar Abrahams giet, Vid Ætt hanns ei liet dvijna.

Mannkostu þa sem Maria, Miwklundud hafde stundad æ, Virstu mier HErra ad veita, Eins lijka sem Elisabeth, JEsu Guds Syne fagnad liet, Gief mier Lausnarans leita, Hroosa og fagna Heillum þeim, Hann var Madur borenn i Heim, Sinn Lyd af Syndum leysa, Nær sem eg bryt þa niooте eg hanns, Naaduge Gud mijns Hiaalpar-Manns, Virstu mig vid ad reisa.

## Vijsan.

MAria audmiwk Æru, Elisabeth vill veita, Glød af Gabriels Kvediu, Geingur Fialla Veg leingra, Fiñur og heilsar heñe, Hņa Stóormerke verkast, Foostred fagnar Christe, Fylldust bœdar Guds Mildde.

JEsus eñ auglyser, Ædsta Naad vid þær bœdar, Frænd-Konur Tvær Liwflyndar, Lijtelæt-is hañ giæter, Giefe oss alla Æse, Eirn Gud fyrr og seirna, Ad vier hædst i Heidre, Høfum Audmykt til Dauda.

## Fiñta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 5.

Med Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

A Pañ Tijd Foolk dreif Flockum ad, So Frelsarans Kieñing næde, Hiaa Genesareth i greindum Stad, Grædareñ stood vid Flæde, Skip saa hañ fram vid Fiordeñ Tvo, Fiske-Meñ Net aa Lande þvo, Heilagt var HErrañs Æde.

JEsus stie þa aa þetta Skip, Þvi aa Simon ad styra, Bad hañ fraa Lande lijten Svip, Laata þad sijdañ hræra, Sat þar og kiende sogdum Lijd, Sañleiksins Ord aa þeirre Tijd, Sem þa lyste ad læra.

Sijdañ bidur hañ Simon þa, Er siñe Rædu hætte, Draga fram leingra Fiordeñ aa, Til Fiske med Netia Drætte, HErra kvad Simon næstu Noott, Noogu lwner vorn hiaadum Proott, Þo ei neitt aflast mætte.

Eñ skal eg samt vid Orded þitt, Ansar Simon ad Bragde, Neted wtgreida apt-ur mitt, JEsu so sem þu sagder, Sem þeir þad giordu Nægd var noog, Neted rif-nade af þessum Ploog, Hitt Skiped Hiaalp þeim lagde.

Baadu sier Lids af Baate þeim, Bendande sier til Greida, ad Fiske-Skipunum fullum Tveim, Feingu þeir Nægter Veida, Þvi þeir hloodu þau harla miøg, Hart nær sucku aa skomum Veg, Þar ed til Lands þau leida.

Simon Petrus nu sem þad saa, aa sijn Hnie fram ried falla, vid HErrañ talar af Hrædslu þa, Heñe sloo aa þa alla, Vijk fraa mier HErra strax i Stad, Stoor-brota Mañe satt er þad, Goods er eg verdur valla.

HErrañ svarade Hrædstu ei, Hiartans Sonureñ kiære, Vid syndugum ecke seige eg nei, Sijdañ villda eg þu værer, Valeñ til þess ad veida Meñ, Þeir voru i Fylgd hañs aller señ, Skildu vid Skip sem bære.

Eñ þo ad lengum Ofþwngt sie, Erfide Skyldu miñar, Drag þu ei HErra Hiaalp i Hlie, Heilla nioote eg þiña, af Orde þijnu eg Avoxt fiñ, Ostyrk þu JEsu græder miñ, Lætur ei Huggun liña.

### Vijsañ.

PEtur Beinsklega breyter, Beidde Christ þvi hañ miøg hræddest, Ad vijkia fraa sier veykum Vid riette Gud þetta, Bidur ad hañ ei hrædest, Hiedan af skule Meñ veida, JEsu fylgia kwser, Fiske Baat epter laata.

Veykur og Saar hiñ Siwke, J Syndum hef eg miøg blindast, Þo gledur mig Gud þijn Ræda, Giarnañ þygg eg Riett Barna, Til bija og hiaa þier hænast, Hvørge Reit fraa þier leita, Asteñ JEsu Christi, Ort smygur mitt Hiarta.

## Siötta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Matth. 5.

Med Lag, Heidrum vier Gud af Huga og Sãl.

NId Lærefveina so sagde hañ, Sialfur JEsus vor Gud og Mañ, utañ þad være, og þad sie, ædra hafe þier Riettlæte, eñ eg sañreyne og nu fiñ, Med Yfer-Gydingum þetta Siñ, J Guds Rijke ei ganged iñ.

J gömlum Riette hafe þier heyrt, Ad hvorge skyllde Mañdrap giort, Eñ sa sem slær med Heipt i Hel, hañ mun Doomeñ siñ fiña vel, Eñ eg ræde uñ Rietteñ miñ, Ef reidest Mañ vid Broodur siñ, mun Sektum boreñ ei sijdur eñ hiñ.

Ef nockur seiger af Reide-Root, Racha sijnum Broodur a moot, hañ er sekur þess hædsta Raads, Hefndar-Reideñar DRottins Guds, Eñ hvør sem kallar Heimsk-añ Glóop, Helvijtis Elld sa fær i Kaup, So eckert duger þeim Undanhlaup.

Vertu samþyckur vid hañ snart, a Veige sem þig mootstood hart, ad ei selie þig Ovin sa, wt i Doomarans Hendur þa, Og i Dyblissu setiest so, Par sañlega alld-rei kiemstu fra, Par til fullt Gialld þig frelsa ma.

Riettlæte þitt og Hlijdneñ hrein, HErra JEsu mijn græder Mein, Lækna miñ allañ Lundar-Brest, Lifande Gud þu veist hañ best, Ovilldar-Moñum frels mig fra, Fyrergief þeim og lat oss na, Lijfsins Veigeñ ad leidast a, Amen.

### Vijsañ.

NAEdur Christur þo reidunst, Rijkuglega forlijkast, Ad sellder ei verdum Vallde, Og Vægdarlaust i Pytt fleygder, Hvadañ eingeñ wtleidest, Uñ Allder nema fullt giallde, Fyrer Hugmood Heipter megnar, Hefnd JEsus til nefnde.

HErra JEsu Hoogvære, Hiartalag mitt eg klaga, Fyrer þier fullur Tara, Og fiñ ad Ostillt Siñe, Angrar þig og Nauungan, Eñ þo skivott af reñe, Lijknsamur Gud þad lækne, Og leide ej yfer mig Reide.

## Siöunda Suñudag epter Trinitatis, Evang. Marc. 8.

Med Lag, JEsus Guds Son Eingieteñ.

HAr eñ var Foolked fleira, Frelsara vorum hia, Matarlaust ma hier heyra, Hvad mællte HErrañ þa, Vid Lærefveina sijna, Sart tekur Hyggiu mijna, Hungur ad þad mun þia.

Sia þu kvad DRotteñ dyre, Dagana Pria þad beid, Hia mier so mijn Ord heyre, Matarlaust nu uñ Skeid, Late eg fra mier fara, Fastande þeñañ Skara, Mædest a langre Leid.

Sveinar seigia og ræda, So sem þeim Skynsemd baud, J Obygd ei er Fæda, Eckert ma þvi Braud, Hier spurde HErrañ kiære, Hvorsu morg Braud þar være, Sio Ein ad Simon kvad.

Foolked bad sa þa Sessa, Frelsareñ nidur a Jord, Braudeñ ried sijdañ blessa, Braut þau med Packargiord, Fiska fæeina hofdu, Fyrer þvi ecke tofdu, Blessada leggia a Bord.

Karlmeñ þar feingu Fæde, Fioorar Þusunder nær, Af Braude og Fiske bæde; Blessadur JEsus kiær, So sem ad Sierhvor villde, Siidañ baud geyma skyllde, Lausnareñ Leifar þær.

Karfer Sio fra eg ad feingu, Fullar af Molunum sinar, Sem af þeim Efnum geingu, Er þeir neytt hofdu þa, JEsus liet þessa Lyde, Sem lijfgad hafde med Pryde, J Fride sier skiliast fra.

Orded þitt JEsus millde, Elskañ og Lijknar-Hond, Mier aumum veita villder, Vister a hvorre Stund, Gief þu eg Guds Ord mætte, Sem giorvallt Raad mitt bætte, Heidra af Hiartans Grund.

## Vijsañ.

SJO Braud fra til Fædu, Eñ Fioorar Þusunder voru, Roskner Meñ og fa Fiska, Feingu noog so afgeingu, Leifar þvi JEsus liwse, Lytalaust allt baud nyta, Mysktun hañs og megn Blessan, Mest er Sodning Giesta.

Hvørn Dag Guds Goodgirne; Goodra Maña Blu þañeñ, Stodar sem Giestum greida, Giøra og millder eru, Med Hagsemd allt hvad eiga, Þo wtbyte sier nyta, Eg veit ei mea þrioota, Arfa þessa Guds Blessan.

## Attunda Suñudag epter Trinitatis, Evang. Matth. 7,

Med Lag, Giæsku Guds vier prijsum.

VAkted ydur og vijked Villu-Moñum fra, So ydur ecke svijke; sagde JEsus þa, Vid Læresveina sijn, Þeir koma i Klædum Sauda; Eñ klookt i Hugsanum snauda, Byr Ulfa Art Ohrein.

Af Avøxtum þa þecked, Ad þeirra hygged Sid, Vijn-Ber vaxa ecke, af vondum Þyrna-Vid, Nie Fijkia af fornu Trie, Good Root giefur hiñ besta, Eñ ill Eik Avoxt vesta, So trwe eg þeirra sie.

Eik sw ei kañ bera, Avøxt goodañ skal, Hratt upphøggveñ vera, Og heñe fleygt a Baal, J Himna Rijked iñ, Gaanga ecke aller, Eñ þo ad DRotteñ kalle, Nema verke Viliañ miñ.

Fyrer vondum Villu-Anda, Vernda DRotteñ mig, Laat mig stødugañ standa, Og stydiast fast vid þig, Giefdu mier Gudlegt Siñ, Ordeñ þijn elska og læra, Avøxt goodañ færa, Leid so til Lijfsins iñ.

## Vijsañ.

VIllu-Meñ varest þier alla, Vargar þeir Saalum farga, Christur kvad þa flesta, J Klædum Sauda læbast, Illur Avøxtur allra, Er þad Mark sem þeir bera, Vijst mun af vondum Þisle, Vijn-Ber eingeñ tijna.

Ande Guds sialfur sende, Sijna Naad þeim Martino, Luthero ad leita, Lækningar Kiesir ingum, Villudooms er vier aller, Of-frekt vorum i blekter, Sijdañ Guds Orded gooda, Glødelegt oss nu tiedest.

## Nijunda Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 16.

Med Lag, Blessadur ad Eilijfu sie.

And-

HUdugur Madur eiñ var sa, JEsus Guds son ried mæla, er Hws-Raadsmañ sier heima a, honum baud Valld um Præla, rægdur vard hñ vid Herra þañ, sem hefde hañs glutrad Aude, kalla liet þa, því þeñañ a, þañeñ seiger med Reide.

Hvorneñ heyre eg þetta af þier, þu skallt mier Reikning vanda, ecke leingur fyrst illa fer, aattu mitt Goß forstanda, þa sagde hiñ, i Hiarta iñ, hvad skal eg nu til giöra, því Herra miñ, Ploog heimter siñ hlyt eg wtsettur vera.

Vandest eg ei a Viñulag, veit þad eg orka øngvu, skamast mijn hins um hvorn eiñ Dag, Hwsgangs af raase laungu, fiñ eg eitt Raad, og fæ þess gaad, fara skal eg og kalla, þa Skullda Meñ, mijns Herra eñ, og under tala vid alla.

Nær sem Raadsmensku rekst eg fra, rate eg hia þeim Greida, Skullda Meñ kallar alla a, Einmæle vill þa leida, spyr fyrsta þa, hvad hañs er hia, Herra Skulld ein og oñur, a Reikning þiñ, so sagde hiñ, Solu-Smiørs hundrad Tuñur.

Sestu þa nidur sagde hañ, Snart og skrifa Fimtijge, Eins og þegar sem Añañ fañ, ad spyr hvad giallda eige, Hundrad Trog med Hveitis-Ploog, honum baud Reikning skierda, Tug aatta nu, Jñskrifa þu, Eg skal ei aa þier herda.

Herrañ lofade Hws-Raadsmañ, Hañs fyrer Forsiaa lannga, Eñ Oriett leyfde ecke hañ, Eda Prettvijse raanga, Því Heimsins Born aa Hugvit giorn, hafa Æ Kiænsku meire, Eñ Nidiar Lioos, vid Lijfsins Hnoss, Lid þeirra tæla fleire.

Giored ydur kvad Guds Son þa, Gooda Vine af Aude, Því sai Raanglætis Mammon maa, med því Daglega Braude, Fatæka Meñ, So fæda eñ, ad saae þeir Vottar prwder, Leitt ydur iñ, med Orleik siñ, J Eilijfar Tialldbwder.

Raadsmenskañ sw eg hafde hier, HErra JEsu mig stangar, Hana müner þu heimta af mier, Hrædunst eg Giorder Raangar, Mitt Skullda Brief, Fyrer utañ Ef, Yferdreift þijnu Bloode, Kvittañ mig Gief, Eg glutrad hef, Goße mestu wr Sioode.

## Vijsañ.

RAdsmadur eyder Aude, Assettur fyrer þetta, Ad hañ sier afle Greida, Alla Skullda-Meñ kallar, Skierder Reikning og skardar, Skylldu þeir honum so millder, Giørum af Mam- vns Manrum, Marga Vine oss biarge.

Raada-Meñ erum og eydum, Aller Goße maa kalla, Herra vors Hefnd mun stærre, Heim- ting aa Reikninge, Kløgun af riettum Roogie, Raanglætis yfer oss haanger, Dreigeñ er Dreyr- raud Lijna, J DRottens Pijn yfer Skulld mijna.

## Tijunda Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 19.

Med Ton, Heimele vort og Hwseñ med.

JErusalem kom JEsus nær, Jafnsnart sem leit til Boraar, Griet yfer heñe HErra kiær, Hiartad miøg kiende Sorgar, Ef sialf skyniader sagde hañ, Siaa munder riett þiñ Tijma þañ, Hvor Fridar-Boot er til Biargar.

Huled er þad kvad HErrañ þa, hellst fyrer Augum þijnum, Þar mun koma ad Fiandmeñ faa, Fylkia Herlide sijnu, umkrijngia þig og þijn Born so, Og þreyngia ad þier sem mest ad maa, Þu eydest øll i Einu,

So

So algiorlega þeir eyda þier, Og allt ad Jordu brioota, ad Steiñ mun eingeñ standa hier, Saa stodar til neiña Boota, Pu villder ei so var þitt Siñ, Vitiunar-Tijma þeckia þiñ, Drambseme þui mun brioota.

J Guds Mustered gieck þa iñ, Grædareñ og burt keyrde, Solu-Meñ þa þar sett-ust iñ, So komst hañ þa ad Orde, Bænar Herberge Hwsed mitt, Heita skyllde so var þad sett, Ydar Saur Ohreint giorde.

Hvorn Dag kiende i Kirkiu þar, Christur og læknar lijka, Yfergydinga Ætlan var, alla Stund hañ ad suijkia, Feingu þo ecke Færed þad, Foolked daadest hañs Kieñing ad, Og villde ei fraa honum vijkia.

Taareñ þlijn JEsu iña mier, Astrijke þitt til Maña, Gief þu eg Ord þijn elske hier, Odlest so Blessan saña, Vitiunar Tijma mætte miñ, Merkia sem best i þetta Siñ, Onaad Guds alldrei kaña.

## Vijsañ.

HErrañ kom nu so nærre, Ad naalgadest Jerusalem, Ad hañ saa Prijde heñar, Harme fyllt-ur so mællte, Pa Stund þu ei kiender, Pier var raadeñ til Naada, Pui sella þig Fiandmeñ iller, Furdulega ad Jordu.

Nu kom Naadar Tijme, Naadugur Gud oss tiaade, Syna Ast Sonareus hreina, Sæta Ast ef þess giætum, Smacked þui og þeckium, Peña Jlm og Tijd kieñum, Born mijn bid eg þad gyrnest, Blessan veitest þeim þesse.

## Ellefta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 18.

Med Lag, Pa liñer þesse Lijkamans Vist.

TVeir Meñ geingu aa Tijma þeim, Talar JEsus vid Lyde, J Guds Mustered Helga heim, hefia þar Bæn med Pryde, Hræsnare eiñ ad añar var; Eñ hiñ siñ Fiaar-Ploog stundar þar, Syndugur hreiñ um sijder.

Hræsnareñ stood og hroosar sier, HErra Gud (so ried mæla) Fyrer þad mest eg þacka þier, Pad hef eg umfram Præla, Og er ei so sem adrer Meñ, Oriettferduger marger señ, Hoorkallar sem þeir hæla.

Fasta eg vijst med Vatn og Braud, J Vikuñe Tvisvar siñum, Tijund gief eg af ollum Aud, Er þad nu leingst i Miñum, Ei er eg siaalfur sagde hañ, So sem saa aume Fiaarploogs Mañ, Forsmaadur sem vier fiñum.

Utarlega stood hræddur hiñ, hladeñ af Synda-Byrde, Overdugleika aumkar siñ, upplijta valla þyrde, Til Himna og so jaatar lioost, Afbrot og barde sier aa Brioost, So auglioost ollum verde.

Gud veittu Lijkn og Myskun mier, miog aumum Glæpa Mañe, Falla villda eg til Foota þier, Frels mig af Synda Bañe, Pesse foor heim til Hwsa þa, haalfu betre eñ Añar saa, Sem fraa var sagt med Sañe.

Pui hvor saa Mañ sier hreyker haatt, Hañ skal Læckadur verda, Eñ ef Hiartad er Lijtelaatt, Lucku mun alldrei skierda, Hafeñ skal saa i hæsta Sess, Hupa maa sierhvor gott til þess, Fær Umbun goodra Glorda.

Bænar

Bænar Andañ miñ blijde Gud, Bid eg ad þu mier sender, Saa Huggareñ i hvørre Naud, Heilnæmust Raad mier kiende, med klockvu Hiarta eg kiem til þijn, Kañast hvorn Dag vid Synder mijn, Fraa Hræsne Hug miñ vender, Amen.

## Vijsañ.

HRæsnarans Hagur þo vesne, Hañ giører Bæn og Añar, Versyndugur med meira, J Mustere Lijknar-Transte; Siergiædingureñ øngva, Æru fær þvi hañ sig stærer, Eñ fyrer Ydran laña, Ødlast hiñ Naad ad fiña.

Brot mijn eg nu jaata, JEsus miñ fyrer Tign þiñe, Aumur upp til Himna, Augum ei reña voga, Vertu mier hyr af Hiarta, Hriaadum eg leita Naadar, Sakadur þvi eg sæke, Saarum mijn Lækning þijna.

## Tolfta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Matth. 7.

Med Lag, Sæll er saa Mañ sem hafua kañ.

HRaa Tyri og Sydons Takmorkum, Trwe eg ad JEsus fære, Beint ad þeim Tiju Borgunum, Bygdarlax Sioonum nærre, Leiddest til hañs saa heyrde Þei, hvorke gat talad Jaa nie Nei, So þañ med Hende hrærde.

Affsijdes leidde JEsus þañ, Eins sem ad vier nu heyrum, Fijngur Heilaga færde hañ, fyrst ad hañs daufum Eyrum, Epter þad spytte wt aa Jord, Er hañs Tungu so Lækning giord, Eñ med Adburdum fleirum.

Til Himins leit vor HErra þa, haatt styniande og sagde, Orded talande Hephetha, Opnudust strax ad Bragde, Eyrun hañs og Hindran Maals, So hañ vard allra Meina friaals, Yfer þvi ecke þagde.

Bañade hañ ad birta fraa, bera þad wt fraa neinum, Þess meir vijdfrægdu þeir þad þa, med þvilijkum Orda-Greinum, allt giorde vel saa goode Mañ, Giefa þeim Heyrn og Maaled kañ, Sogdu aller med einum.

Daufur var eg og Maallaus med, Myskunsamaste HErra, Eñ þu JEsus fær Lijfgan lied, Liest mier þau Meineñ þverra, Fyrer Anda þiñ og Ordsins Krapt, Uppleyster þu mitt Tungu Hapt, Sem allt gott kañ ad giora.

## Vijsañ.

MAals og Heyrnar var varnad, Vijst þeim færdest hier Christe, Hønum veyk wt af Einum, J Eyrun stingur fyrst Fijngre, Med Hraaka hrærde lijka, Hañs Tungu blies Þwngañ, Vid Ord Christis strax ad urdu, Eyru skiær og Maalfære.

Eyrn mijn JEsus kiære, Æ og meir liestu heyra, Og mitwkfært Tungu Tæke, Tandrad fyrer þiñ Anda, Muñ-Vatn þitt er Miñe, Maal og Ord Lækning Saalu, Heyrn og Sioon og Maal eirneñ, Til Æru þier mitt ad nærest.

## Þrettanda Suñudag epter Trinitatis, Evang. Luc. 10.

Med Lag, O Gud miñ HErra aumka mig.

LAusnareñ snyr sier liwfur þa, Til Læresveina og mællte so, Augu þau sæl eg seige, Sem sia þad þier nu meiged, Ofkudu Kongar og Spaameñ, aadur ad sia og heyra señ, Þad sem ad þier nu siaed, Þar med og heyra faaed, Feingu

þo ecke Fognud þañ, framgeingur þa Eiñ Logviis Mañ, Freistande Christs og frietter so, Froome HErra hvad verkast þa, So Eilijft Lijf eg erfe?

Hvorneñ les þu þad HErrañ tier, Hvad i Logmaale skrifad er? Elska skalltu so uñer, af insta Hiartans Gruñe, DRotteñ Gud þiñ af allre Ønd, Øfligan og klaarre þiñe Lund, Naungañ eirneñ elska, Eins og þig riett æn Folska, Greiner þu riett ad Guds Son tier, Giør þad so veitest Lijfed þier, Hiñ vill Riettlæta sialfañ sig, Son Guds spurde æ þeñañ Veg, Hvør er Naungen næste?

JEsus svarar og sagde þa, Sæ var eiñ Mañ ad ferdast fræ, Jerusalem Borg ædré, Til Jericho þar nidre, Ræningia Selskap hitte hañ, hvorier ed Klædum flettu þañ, Banvænum Saarum særdu, So nær til Heliar færdu, Hælfdaudañ skilldu hañ þar vid, honum og eckert veittu Lid, Kieñemañ sæ þar lagde Leid, Og Leviteñ um þetta Skeid, Fliootlega fram hiæ geingu.

So bar þa til; sogdum Stad, Samverskur Madur gieck þar ad, Komeñ af Leid so langre, Linar þess særa Angre, Batt um hañs Saar, og bar i Vijn, besta Vidsmiør af Giæsku sijn, Leggia æ Eyk siñ lærde, J liwst Herberge færde, hafde Saat æ þeim hrumda so, Hwsboonda fieck Peninga Two, bad hañ þeim Siwka leggia Lid, Lauñeñ kvadst sijdar bæta vid, Ef hañ wtlegde meira.

Hvør þeirra Priggia þotte þier, Þess Naunge ad JEsus tier, sem hitte Ræningia rietta, Þeir riedu hañ Klædum fletta, Logvitringureñ sagde so, Sañañ Urskurd þar lagde æ, sæ Mañ hañ miwkt ad nærde, Myskunar Verked giørde, Gack þu hiedan ad Gud Son kvad, og giør þad sama i hvorium Stad, holldum þvi fast i Hiartans Root, Heilnæm Elskañ er Synda Boot, og Breñe-Foornum betre.

Feinged hef eg nu Fognud þañ, Fremstur i Heime verda kañ, heyra Guds Orded hreina, Hugboot og Lækning Meina, Er eg þo vijst sæ aume Mañ, Andskoteñ færde i vesta Bañ, Banvænum Saarum særde, Svikull i Dauda færde, JEsus þu veitter Myskun mier, Moyses Logmaal fram hiæ fer, Øll grædder vel mijn Andar-Saar, Ætijd syngest þier Lofgiørd klaar, fyrer Hiarta Giæsku hreina, Amen.

## Vijsañ.

MAnge er vor einge, Añar eñ sem hier sañast, Sæ Myskunar Gied Giæsku, Giørde Verk æ þeim Særda, Stundum þvi allt til Enda, Epter Raade Guds Naadar, Ad hallda og hafa i Gillde, Hæsta Bod og þad næsta.

JEsu þu ert ad vijsu, Audvirdelegur til Dauda, Orden fyrer oss æ Jordu, Sem Ebreskum Samverser, Af langre Leid Himna hijngad, Hæd komeñ oss ad græda, Vijn og Oleum væna, Vor Saar Guds Ord klaarar.

## Fiortanda Suñudag epter Trinitatis Evang. Luc. 17.

Med Lag, Oss læt þiñ Anda styrkia.

EItt siñ þa JEsus villde, til Jerusalem fram, reisa Meistareñ millde, i mit Samariam, i Galilee Landsbygdum, i Kauptwne einu, JEsus þa Stadar nam,

Tiju

Tiju Meñ til hañs komu, med Trega og sarañ Mood, høfdu Vanheilsu auma, og hoosu upp Raddar-Hliood, fiarlæger stoodu upp fyrst i Stad, sijn oss Lijkn sæte Herra, sierhvor med Taarum bad.

Fare þier bratt ad Bragde, i burt til Kieñemans, syne þier JEsus sagde, Siwkdoom þañ Valde hañs, þad giørdest sem þeir geingu af stad, urdu aller hreiner, fyrer Herrans Orded þad.

Eiñ þeirra þa þad kiende, þegar var ordeñ hreiñ, aptur med Audmykt vende, og var samverskur eiñ, heidrande Gud med hærre Raust, a Knie sijn fram ried falla, For hañs var Lofgiørd traust.

Komu ei til mijn tiju, talade JEsus þa, hvar eru hiner niju, er Heilsuboot riedu fa, snere nu ecke aptur neiñ, Virding Gude ad veita, nema Utlendingureñ eirn?

Hinum Samverska sagde, Sonur Guds lofsins þa, Trwñe þañ Lofstyr lagde, liusur sem heyra ma, fardu hiedañ i Fride nu, þu ert heill þiña Meina, þad giørde þijn gooda Trw.

Lijkþrææñ liootra Synda, Lausnareñ þvijngar mig, so af þeim Frelsan finda, fer eg a Vit vid þig, goode JEsu mijn græder Mein, læt mig þa Lækning þeckia, so Lofgiørd verde hrein.

## Vijsañ.

Lijkþræer Meñ tiltooku, tveñer fiñ JEsum kieña, Græding fyrer Trw gooda, þa geingu burt aller feingu, eiñ snyr aptur giarna, med æglætu Packlæte, eñ wt af Oþacklætis, illre Root niju spillast.

Leys mig Liwse JEsu, af Lijkþraa ad eg nu slijka, þier þa Foorn ad fære, fagurt Lof alla Daga, med Packlæte þyda, þijn Ord. sioda Saal mijna, þvi Under sarlegra Synda, færa mig Lækner kiære.

## Fimtanda Suñudag epter Trin. Evang. Matth. 6.

Med Lag, Hæste Gud HErra Millde

Veimur af Trwskap þieng, tællaust ad eingeñ kañ, vid hiñ mun Rækteñ riena, Driett ef eiñ elskar hañ, eda ef þydest þeñañ, þa fyrerlijtur hiñ, so ried Christur ad kieña, og Koste bijdur tveña, styrkiande Sañleik siñ.

Gude og Mamon meiged, miog vel ei þioona señ, þvi vil eg þier vijsled eige, sem veyker Vdru Meñ, uñ ydar Fot og Fæde, fævijslegana hier, þvi Lijf og Lijkameñ bæde, Lausnareñ fra eg so ræde, æ meira verdur er.

Fugla Loptsins ælijted, er læta ei Akra sa, i Hlodum safna Hveite, Himna Gud fæder þa, munu þier myklu kiærre, mijnum Fodur eñ þeir, hvor gietur orded hærre, þo Hug-Soott bere stærre, þvi vilie þier vijsla meir?

Vænum Vallaña Blooma, vil eg þier giæted ad, Græsed med sijnum Sooma, fiæed Gud prijder þad, hafande Handverk eingeñ, hnzed i.m, fyrr i Heim, eg seige i sijnu Geinge, Salomon ecke feinge, þa Fegurd sem fylger þeim.

Fyrst Gud vill nu so giæda, Gras þad i Dag þu sier, sem Elldur skal þo eyda, i Ofn

a Morgun fer, skylldi hañ ydur eige, uña slijks Sooma þa, veyk Trwa viist eg seige, vijl-ed a hvorium Deige, sierhvor sem mest hañ ma.

Þier skulud þess ei gieta, þiaader af Sorg og Pran, hvad eigum vier ad eta, ellegar drecka þa, hafa til Hafnar-Klæda, heidner Meñ vijla so, þetta ei þurfed ræda, þad veit Giafareñ Giæda, ligge ydur þar a.

Fyrst bid eg glogt þier giæted, Guds-Rijke leita ad, hier næst og hañs Riettlæte, hvør eiñ i sijnum Stad, hverfa þa hvørskyns Giæde, i Hond sem þurfed vid, añars Dags ecke mæde, Ahyggia þig nie hræde, daglega drygdu Lid.

Leid mig fra Agyrnd illre, og Ædru JEsu miñ, gief mier med Hyggiu heillre, ad hu-ra uñ Dugnad þiñ, so sem þu Fugla Fæder, og fagra Gras Jordeñ ber, Ord þitt oss so græder, eins lijka sem þu ræder, med Blessan Born þijn hier.

Vijsañ.

Fyrer baud Christur Kvijda, kieñer oss Hug til reña, Fugla Lopts er ei eiga, Akur-Sæde Gud fæder, syner Liliu Gras græna, og gietur þess Meñ sie betre, ef hyllunst Gud ad med ollu, allar Hægder til falla.

Naade Gud aum Urræde, allra vor þad ma kalla, Fødur eigum Gud goodañ, Grædareñ mun so ræda, sa veit og vill þess giæta, hvad vantar oss giefur i Panta, Soneñ þo allt ad einu, astrijder samt Kvijde.

## Sextanda Suñudag epter Trinitatis, Evangel. Luc. 7.

Med Lag, JEsus Guds son eingieteñ.

Til Naims Borgar heina, blessadur lagde Leid, liwfur med Læresveina, Lausn-areñ uñ þad Skeid, vid Stadarens Hlid þeir hitta, hermer Gudspiall þetta, Lijk-For gior var greid.

Utboreñ eiñ var daudur, Ungur Madur þar sa, eñka Sonur siñar Moodur, su var ein Eckia þa, Margur Borgar med heñe, margur fra eg wtryñe, hafande Harm og Pran.

Hana sa Herrañ graata, hrærdest Myskunar vid, Harma bad hægiast laata, hofdu Lijk-Meñ þa Bid, ad Borunum veik og vende, vid þær so hrærde Hende, og talar ad sijnum Sid.

Þu unge Sveiñ hañ sagde, snarlega rijs upp hier, sa setteft upp ad bragde, sem þar framlideñ er, talande giegn og goodur, gaf hañ so aptur Moodur, ad allt Foolk a þad sier.

Ottast þa Meñ og iña, eilijfum Gude Lof, Spaamañ Christum kieña, og kalla þad heilla Giof, laata uñ Landed reña, Lofstyr af honum þeñañ, munde þo ei vid of.

Upprisan JEsu goode, ertu og Lijfed mitt, saarlegum Sorgar Moode, svipter burt Orded þitt, auktu mier Ast og Trwna, med Yferboot reidubuna, Sakfelled so gief kvitt.

Vijsañ.

J Naim Eckiu eina, Uggalaust JEsus huggar, Hartnær Hofgards-Porte, Hana sañ og Lyd añañ, Ad hun Einka Son Daudañ, Ut boreñ Greptra liete, Vekur hañ upp og veyk-

re

re, Wiñur Boot Harma siña.

Hvad mat Hug vorn gledia, Hier nu meir eñ trwa, Ad vier epter Dauda, Uppriisum ad viisu, Og komum med Biortum Blooma, J Blessad Lid Himna fridar, Þviingan þar mun eingeñ, þangad skyllde oss lanuga.

## A Michaelis Messu. Evang. Matth. 18.

Med Lag, Eiñ HErra eg best ætte.

LÆresveinarner logdu, fyrer Lausnarañ Spurning þa, hvor mun HErra þeir sogdu, i Himnariike sa, ad eiñ sie allra hædste, JEsus liet hia þeim Barn, sa mun seiger hañ ædste, sem so er audmyktargiarn.

Hvor sem sig Liitelæter, liika sem Barn þu sier, i hædsta Himna Sæte, hañ fra eg ædstur er, sa mitt Nafn miñast villde, og medtook Borneñ smaa, hañ skal i hædsta Gyllde, hafa mig æ sier hia.

Eñ hvor sem Hneykslan veiter, hinum sem miña ma, ellegar Brogdum beiter, Born sem mig trwdu a, honum hentugra være, a Haalse Kvarnar-Grioot, bundeñ med snorpu Snære, og snarad i Siooeñ wt.

Vei sie Veralldar Sooma, fyrer Voñ og Hneyksled margt, þar hliota Hneixl ad koma, Heims fyrer vonda Art, ad viisu vei þeim Mañe, sem velldur Skoñ og Synd, hañ er i Hættu Bañe, þvi Hugarens Sioon er blind.

Ef Hond edur Footur hneyker, so Hindran veita þier, helldur eñ Hneykslan auker, hvoruteggia burtu skier, þvi betra er viist ad vera, vanadur Liifs a Slood, eñ heilañ Bwk ad bera, og breña i viitis Glood.

Hnyxle þig og þitt Auga, wtsliit og sla þier fra, betra er einsyn eiga, Jñgang i Liifed so, helldur eñ heilskign vera, og hrapa i eiliift Bal, eñ aumum gott skal giora, Giñingar ei nie Taal.

Einglar Utvalldra Maña, Auglit Fodursins sia, þañ Sioonar-Speigeleñ saña, er Sooma alldrei bra, þvi Fodursins Asian friida, faarlega hryggest vid, þa aumer Offsookn liida, eñ elskar sañañ Frid.

Laattu mig liikiast Bornum, lifande JEsus miñ, og þeim Goodvilldar giornum, sem geyma Kiærleik þiñ, so hate eg Hneixlan alla, i Heime og verde þa, hveñ nær burt villt kalla, þitt bliida Auglit sia.

## Viissañ.

HVor liwfur er laanga Æfe, Liika sem Barn fær Riike, Heimur fyrer Hneykslan auma, Hlytur Smaan vesst i Lytum, Og þad af skal sniida, Allt hvad þig maa skada, Hrygdu ei HErrañ sagde, Hrein-Trwada neina.

Hvor er nu ædre Æra, Eingla Lid Guds vier feingium, Þeir ed Gard uñ oss gyrda, Grandalaust fyrer þeim Fianda, Kriingum oss giorer ad gaanga, Graar med Flockum Ara, Laattu oss Liifa so DRotteñ, Ad liike Eingla Hird sliikre.

## Seytianda Suñudag epter Trinitatis. Evang. Luc. 14.

Med Lag, Mitt Hiarta hvar til Hryggest þu.

Hvottdeige gieck JEsus iñ, til Hyergydings i þetta siñ, ad neyta Brauds vid Bord, eñ þeir hofdu a hønum Vord, umsitiande Verk hañs og Ord.
Siaadu Vats siwkur var þar Mañ, villde JEsus þo lækna hañ, adspyr Juda eñ, hvort leifest oss ad lækna Meñ, a Løghelgre Tijd? þøgdu þeir señ.
A þeim siwka JEsus took, algiørda þar med Lækning jook, fara liet heilañ heim, aptur a ny þa ansar þeim, Yfer=Prestum med Kieñingum tveim:
Drage þier ecke ad DRotteñ kvad, wr Dye eda Pitte ef fellur i þad, Afna um Hvott=Dag þa, þar fyrer græda Mañeñ ma, mvote eingeñ talade þa.
Giestunum kiende hañ goodañ Sid, gat ad lijta þar Borded vid, þeir vøldu Sæte sier, hvør sem bodeñ i Brullaup er, breyte so sem ræder hañ hier.
Settu þig alldrei siaalfur hatt, so kañ skie Hws=Herrañ bratt, fra sijnum gooda Gest, þier þoke i Sæte allra yst, af þvi skier þig Vanvirdañ mest.
Tak þvi ad þier hiñ ysta Sess, JEsus vijsar so hier til þess, ad tale saa þier baud þa, sittu hærra Herrunum hia, i Hoofenu muntu Virdingar fa.
Þvi hvør sem hoof upp siaalfur sig, sa mun nidrast harla miøg, eñ þañ sig audmyker mest, hañ skal DRotteñ hefia hædst, i Hefd og Æru siaalfum sier næst.
Kiendu mier JEsus Kiærleiks Verk, kome til mijn þijn Naadeñ sterk, laattu mig læra af þier, Audmykt þa er af øllum ber, og Upphefd naa sem Lofader hier.

## Vijsañ.

GEingur iñ hiaa Gydinge, Grædareñ ad saa Fædu, A Hvottdag þeir med Prestum, Þeinktu hañs Æru kreinkia, Hañ friette ef Fienadur dytte, J Flag hvørt upp maa draga, Eñ Mañeñ virda miña, Magnader Taals=Meñ þagna.
Vid Bords=Meñ talar med Blijdu, Bad þaa giæta Sidlætis, Set þig yst i Sæte, Ef Sæmd hefur hañ þier dæmda, Er iñ baud upp mun leida, Eda nær Tign þig hærra, Þvi Oboden Sess þañ ædra, J O=Tijma skal ryma.
Saa hefur sig upp wr Hoofe, Hañ Ofrægur lægest, Eñ saa sig læckar mun lockast, Og læra ad setiast hærra, Aumur var eg alla Tijma, Ofær hatt i Æru, Hef þu mig HErrañ Liwfe, J hæsta Sæte þier næsta.

## Atianda Suñudag epter Trinitatis. Evang. Matth. 22.

Med Lag, Giæsku Guds vier prijsum.

HA Hræsñara Flockur heyrde, ad HErrañ þaggar señ, Þañ Villu=Lyd sem lærde, ad Lijfen være ei Tveñ, safnast samañ i Raad, med Underhyggiu Orde, Eiñ Vitringur spurde, Hvort er hid hæsta Bod?
JEsus ansar Froodum, Elska skalltu Gud, af Hug og Hiarta goodu, hæst er þetta Bod, ad øll þijn Saal og Siñ, Maattur Maals og Giørda, meige þvi samþyck verda, ad dyrka DRotteñ þiñ.
Eñ er þvilijkt añad, Jñer JEsus þa, Bodord aa mille Maña, miñest þar nu aa, Og hygge ad hvør um sig, Naungañ og skallt Elska, aan alls Taals og Folska, So sem nu siaalfañ þig.

I þeim Tveimur Ordum, Er allt Løgmaaled fest, Og þad aadur Fordum, Iña Spaameñ flest, Sonur Guds sagde þad, Eñ sem þeir samañ komu, Siaalfur hoof upp Roomu, Og spyr þa aptur ad.

Hvad virdest ydur eg villde, Vita og heyra nu, I hvørsu goodu Gillde, Pier geymed saña Trw, um̃ Christ hvørs Son hañ sie? Davids Kongs hins dyra, Diarflega aller skyra, Draga sig hvørge i Hlie.

Hvørneñ hefur þa Fordum, HErra David sagt, Sem veik ad volldum Ordum, I Virduglegre Makt, ad hañ sie HErra siñ, Þar hañ fyrer Helgañ Anda, hefur þad viliad vanda, Og leida i Løssøng iñ.

Miñ Gud mijnum HErra (mællte David vijst) Sagde þvi maa þverra, Þesse Tigneñ sijst, Sit mier aa Hægre Hønd, Þar til eg Fiandmeñ felle, aa Foot-Stall þiñ ad Velle, Ei eru Ordeñ vønd.

Fyrst David hañ siñ HErra, hefur so kallad nu, sem hafde ei neiñ sier hærra, ad Hefd nie sañre Trw, hvørneigeñ hygge þier, Hañs Son vijst þa vera, Og Virding slijka bera, Hvad Olijklegt ad er.

Juda Sveit ei lagde, Andsvør hier til nein, Þeirra Flockur þagde, Og þootte Vanda-Grein, Þeir blygdast aller eins, So hañ Dag eingeñ þorde, þa med lioosit Orde, Framar ad frietta neins.

Angur er mitt ad meira, Mest i Hiartans Root, Þau Hæstu Bodord ad heyra, Eg hefe þeim falled moot, Avi O JEsu miñ, Davids Sonureñ dyre, O Rotteñ Gud vor hyre, Auktu mier Anda þiñ.

## Vijsañ.

SPurde i ødru Orde, Um̃ Christ hvad wr leiste, hvørs Sonur hañ sie þaa Raunar, Þeir søgdu Davids og hugdu, JEsus kvad ad auglyse, I Orde Davids so Fordum, HErra siñ hañ þar kieñer, Hvar fær Sonur þa Wru.

Þo Judar ecke Trydu, JEsum hier Guds Son vera, Helldur aller Einfalldañ, Aumañ Mañ sijdur eñ añañ, Þa er mijn Trw og þad lære, Af Orde Guds fast ad skorda, Gaatulaust Guds Son heiter, Gud og Mañ Speke hin saña.

## Nytianda Suñudag epter Trinitatis. Evang. Matth. 9.

Med Lag, Fader vor sem aa Himnum ert.

JEsus stie þa aa eitthvørt Skip, Yferum droo i fliootum Svip, Ad lækna Meñ og svipta Sorg, I sijna komande Varnar Borg, Siaa hønum færdu siwkañ Mañ, Sagt er ad Fiooret baaru hañ.

Sem hañ leit þeirra tryggva Traust, Talar vid Mañeñ Stygdarlaust, Trwdu Sonur hañ sagde þa, Syndunum ertu skilldur fraa, Judar mælltu af Heiptar-Hug, Hañ Gudlastar noogu miøg.

HErrañ sier þeirra Hiartans Þel, Hyxed seiger hañ ecke vel, Hvørt er hægra ad seigia so, Synda-Lausn skalltu giarnañ faa, Ellegar seigia upprijs þu, Alheill og gack sem villder þu.

So þier miñest ad Mañsins Son, Maktar þvilijkrar atte Von, Synder aa Jordu sætta frij, Siwka Mañe hañ bydur þvi, Tak þijna Sæng og far nu hws, Fimur og Liettfær i þitt Hws.

Hañ gieck þadañ so heill i Stad, Hiner sem lijta undrast þad, Prijsande Gud af goodre Lund, Giørde þad lioost aa þeirre Stund, Og Moñum hafde þær Heiller lagt, J Heime ad fremia slijka Makt.

Limafalls Soott og Lijkþraa mijn, Hin leida Synd mier eykur Pijn, aa øngvum Lækner eg aa þvi Von, Utañ þier JEsu Mariu Son, Taktu burt þesse mykklu Mein, mig gledia hier þijn Ordeñ hrein.

## Vijsañ.

HOreñ vaar fram af Fioorum, Faung hafde ei aa Gaungu, Saa Limafalls Soott ad lijmer, Lijtur HErrañ Trw þeirra, Sagde so aan Stygdar, Sonur Trw þu og vona, Siaa nu Synder þijnar, Og Svefn eru fyrergiefnar.

Judar Jñbirdis ræda, Of-fast hañ Gudlastar, Christur veit Bwa i Briooste, Bidur ill Huxun stillist, Sagde eñ siwka Mañe, Sæng þijna tak so Gaanger, Hægra er so ad seigia, Eñ Synder forlaatest tyndum.

Limafall Lijkþraa illa, Lioos er Mynd gømlu Syndar, Ofmæder Adams Nidia, Epter Leidest Guds Reide, Goode JEsu þu Græder, giørvøll mein allt ad einu, Nu og þa nioota later, Naadar ad Boot og raadast.

## Tuttugasta Suñudag epter Trinitatis, Evang. Matth. 22.

Med sama Lag.

UPterlijking ad JEsus tier, J Añañ Tijma sem greiner hier, ad Himna Rijke sie harla lijkt, Herra Konge med Vellded rijkt, Syne sijnum saa Brwdkaup best, Byr og reider med Giædeñ flest.

Siñ Pioon þvi næst ad sende hañ, Seigia Bodsmoñum Tijma þañ, Eñ þeir søgdu þvi aller Nei, Og villdu Bod hañs þeckiast ei, Sijdañ wtsende adra þa, Ædstu Pioona sem kuñe ad faa.

Seiged Bodsmoñum sagde hañ, Sæfda eg mest i Kostnad þañ, Uxa mijna og aled Fie, Ydur skal þetta vijst i Tie, Maaltijd bweñ og Brullaup frij, Bid eg þier komed aller þvi.

Þeir forsmaadu so þetta Bod, aa þa reikande Heimsins Slood, Eiñ Bw-Syslu eñ Añar hiñ, aastundar meira Kaupskap siñ, Hiner adrer hañs hroktu Meñ, hædda og meidda deyda señ.

Herrañ reidest þa harla miøg, Her siñ wtbyr aa þeñañ Veg, Mordingia lætur meida þa, myrda og deyda hvørn sem maa, Eyder þeim vijst med Eymd og Srog, uppbreñande so þeirra Borg.

Herrañ mællte sem heyra maa, med hryggre Lund vid Sveina þa, bwed ad soñu Brwdkaup er, Eñ Bodsmeñ þess ei verduger, Gaanged þvi wt aa Gatna-Moot, Giøred aa slijku nockra Boot.

Hijngad

Hijngad leided þvi hvorn sem maa, Hvar þier fined Meñ Strætum aa, Svein-
ar þioona af-sañre Trw, Samfeingeñ Lijd þeir kalla nu, Bord Stofañ vard af
Foolke fylld, Fieck so Kongureñ sijna Villd.

Kongureñ gieck þar gladvær iñ, Gieste ad siaa med Aurleik siñ, Bodsmañ l...
þar Eiñ Bordum hiaa, Brullaups Klæded ei hafde saa, Vinur kvad hañ þvi kom-
stu hier, Klæde Brullaups ei tookst med þier?

Þagde þa hiñ er Herrañ kvad, Herded Fiotur hañs Footum ad, Hendur bind-
ed og hnepped Giest, J Heliar Myrkur þar Op er mest, Þvi kalladur margur all-
opt er, Utvalder faaer hittast hier.

Eilijf Sæla vid Eingla-Bord, Oss er i Tie fyrer DRottens Ord, Astar-Fielag
þitt JEsu kiær, Eins og Brwdgumans Festar-Mær, Laat oss kallada kieppast vid,
ad komast i Utvaldra Lid, Amen.

## Vijsañ.

Syne Milldingur sijnum, Sette Brwdkaup med Riettum, Bodsmønum liet bioda, Braad-
lega þeir forsmaadu, Adrer daarada deyda, Dandemeñ þa ed hañ sende, Reidur hefner sijn
sijdar, Eñ sækia lætur Faatæka.

Fielag þad Fadereñ sæle, Freuist og Lyst fyrer skiemstu, Virding ædre eingeñ, Eñ eiga Guds
Son og meiga, Sameign soddañ fagna, Sem med Brwdguma prwdum, Er baud og keypte
bæde, Til Brwdar sier þa honum trwdu.

## Tuttugasta og Fyrsta Suñudag epter Trin. Evang. Joh. 4.

Med Lag, Heidrum vier Gud af Huga og Saal.

UNder-Konungur Eirn var saa, Hvors ungur Son ad siwkur laa, Til Caper-
naum hañ fregnad fær, Frelsareñ JEsus sie þar nær, J Galilea af Juda
Jord, Jafnsnart bioo til hañs sijna Ferd, Lytur honum med liwfleg Ord.

Meistare kvad hañ miñ Son er, mestu daudur þu kom med mier, Legg þijna Hø-
nd ad Lijfe hañs, Lifna mun hañ þa vijst til Sans, Nema Teikn siaaed trwed ei,
Talar JEsus sem segde Nei, Fadereñ bad þo flyta þvi:

Adur eñ Son miñ andast nu, Ofañ til hañs þa ferdast þu, Far þu kvad JEsus
Son þiñ sier, Sañlega Lijfs og þetta skier, Fadereñ trwde og foor af Stad, Sañ
þa sañproofast Orded þad, Riettrar Trwar so Raun komst ad.

Meñ sijna sañ aa midre Leid, Mæta honum um þetta Skeid, Sonur þiñ lifer
sögdu þeir, Sijdañ spurde so frædest meir, aa hvorlum Tijma su Heilsuboot, Hon-
um kom nu so good og fliot, Eñ þeir svorudu aptur aa moot.

Um Siottu Stund so glögt i giær, Giordest hañ heill og allvel fær, Kaldañ
hvarf su honum i fraa, Hier af visse Fadereñ þa, Proottur DRottens ad þetta vañ,
Þad var riett um Tijma þañ, Sonur þiñ lifer sagde hañ.

Þess Tijgnar Mañs so Trw var good, Til Guds snyr hañ siñe Þiood, Añad
er þetta Jardteikn þad, Sem JEsus vañ i þessum Stad, Gydinga Lande geingeñ
fraa, J Gallilea kiende þa, So Nafn hañs trwdu nockrer aa.

Lijfed vort allt a Jordu hier, Er Andlaats Tijme sem hvør Mañ sier, Bid eg ad vora Barna Trw, Blessadur JEsus styrker þu, Almattur þiña Orda hier, Avoxt giefe þañ besta mier, Hiaalpa mørgum ad þioona þier.

## Vijsañ.

KOnglegur Hers-Høfdinge, Hitte Christ med Hug tvistum, Bad þeim brzst vid Dauda, Ad bæte Synenum mæta, Fardu JEsus Ordar, Efalaust Sonur þiñ lifer, Trwde hañ og bar ædra, Avøxt fyrer Guds gæsu.

Trweñ vor ver alleina, Vid Guds Ord þa bidium, Og fiñum þar Fæbu heñe, Sem Foostur fyrer Moodur Brioste, Af Næring Aar fraa Aare, Unger Meñ Proska kieña, Andarstyrk eiñ veg syndum, Ef ad þar oss til giefum.

## Tuttugasta og Aññañ Suñudag epter Trin. Evang. Matth. 18.

Med Lag, J Dag eitt Blessad Barned er.

HImna-Rijked hier er so lijkt, Herra og Konge einum, er hallda villde Reikning rijkt, riett med sønum Greinum, til hañs kom þañ Tijma sa, er tiju þushund Punda aa, i gamla Skulld ad greida, sa aume Præll þvi ecke ma, undanlausn nie Borgun fa, vard sier Vægdar beida.

Herrañ baud sem heyrum vier, hañ til Skullda kvelia, Konu og Børn og allt hvad er, wt fyrer Borgan selia, sa klockur Præll þa kraup a Hnie, Kongeñ bidur um Polgiæde, hañ liest med Lynde hreinu, Herrañ sa honum aumur a, olldungis gaf kvittañ þa, alla Skulld i einu.

Sa gieck wt og Sambioon sañ, sem honum atte ad giallda, Hundrad Peninga handtook þañ, fyrer Hals nam fast ad hallda, giallttu seiger hañ allt hvad er, ñe Fie mitt nu hia þier, hiñ bad Hniefallande, lijkna þu af Myskuñ mier, mun eg þad greida riett sem ber, so ecke epter stande.

Jllgiarn vill þad ecke hiñ, sem ongva Naad kañ syna, liet i Fiotra færa iñ, til Fiargreidslu so pijna, Sambioonar þad syrgia þa, sijnum Herra skijra fra, um Adburde þa alla, Konguren sem þad fregnad fær, fyrer þad Neide til sijn slær, a þeñañ Præl liet kalla.

Pu svikule Pioon ad sagde hañ, þvi synda eg þier Næder, so skyllder þu vid Skullda Mañ, skipta af Lyknar Nade, baud i Fiotur ad færa hañ, fyrer Jllrædis Giorning þañ, i Dyblissu breida, hvadañ ad ei kiemst wt fyrer Sañ, iñ til þess hañ sialfur kañ, allt sitt Giallb ad greida.

Alleins lijka JEsus tier, vid ydur mun Gud þa breyta, er Fyrergiefning ecke hier, af ollu Hiarta veita, Brædrum samt þo brioote þeir, þvi bid vier huxum aller meir, um þad Epterdæme, Myrkvastofañ er meidsta þrong, mun su Visteñ kølld og long, þeim i Kvøl þo kiæme.

Mijna Skulld og Synda Sekt, syrge eg JEsu goode, eñ Handskript þa mig hræder frekt, hulder þu med Bloode, giefdu ad þeim mier giøra a moot, giete eg unt af Hiart-

Hiartans Root, Fyrergiefning ad fiña, a Misgiord feinge! eg miñe Boot, og mætte stillast Bræðeñ flioot, nioote eg Náða þiña.

## Bijsañ.

FRekur Herra Fátækum, Fiártioon gaf kvitt Pione, Præll sa þrægar illa, og þviingar sin Jafningia, fyrer þad naut ei Náðar, neyddur þar til allt greidde, eins skal JEsus Mæler, yður skie nema Meñ frided.

Hæst Gialld Herrans Skulldar, hundrad Þusunder Punda, Synder lijkastar Sande, sañlega allra Maña, øll Brot Maña a mille, er Merking Smapeninga, fridar oss Gud vor goode, þvi giefum Frid þeim oss bidia.

## A Allraheilagra-Messu, Evang. Matth. 5.

Med Lag, Twnga mijn af Hiarta hliode.

UPPa Fialled JEsus vende, og eirneñ Læresveinar hañs, setteft nidur og sijdañ kiende, sa þar nærre Fiøsda Mañs, Mæle sætu af Muñe rende, mællte þesse Ord til sañs.

Sæler eru vijst og verda, Volader Meñ ad JEsus tier, andlega sem alldrei skierda, Æru og Trygd i Heime hier, vid Lijknar Krosseñ Hug siñ herda, Himnarijked þeirra er.

Sæler eru þeir hier syrgia og Graata, sañlega skulu þeir Huggun fáa, og so þeir i þridia Maata, er þyda Hoogværd stunda a, Jordena vil eg þa erfa láta, og øllum Heillüm þar med ná.

Sæler eru þeir sem Þosta lijda, þar med Sullt fyrer Riettlæted, sañlega skulu þeir Sadning bijda, sæta Huggun fa þar med, og Myskunsamer ad misse kvijda, þvi Myskun skal þeim verda tied.

Sæler eru med Hiarta hreinu, þvi Himna Guds þeir Auglit siá, Fridsamer so allt ad einu, aller Guds Born kalla þa, og þeir fyrer Oriett mæta Meinum, munu Arf i Guds Rijke fá.

Sæler eru þier sem Offsookn alla, af illum Møñum lijded hier, med Alygar þeir yfer ad falla, og aktast flest til styggdar mier, fagned Launum Himna Hallar, hroktust so Spaameñerner.

Avoxt Trwar Ydran saña, JEsus giefe og Hoogværd mier, gagnhreint Þel til Guds og Maña, ad giæte eg Fridarens leitad hier, og Guds Barna Umbun kaña, erfa Lijf med sialfum þier.

## Tuttugasta og þridia Suñudag epter Trinitatis, Evange. Matth. 22.

Med Lag, Gief þiñe Christne goodañ Frid.

FAriseí samtooku eñ, Son Guds i Ordum veida, wtsendu sijna ædstu Meñ, Andsvara hañ ad beida, so Herodes Sveinar hlyda.

Herra seigia þeir vitum vijst, vandar þu Sañleik ræda, ad Fordilld Maña fer þu sijst, fær þig þvi eingeñ hræda, a Guds Veg Lijd villt leida.

Fyrer þvi bidium seigdu satt, soomer oss nu ad giallda, Keisaranum med skylldu

Skatt, eda skulum þeim inne hallda, hann sier þa Hygginn kallda.

Hvar fyrer vilied Hræsnes Menn, Herrann talar af Vallde, freista mijn nu so marger senn, og mig audgintann halldeð, syneð mier Myntargiallded.

Þeir syna honum nu sagda Mynt, sijdann spyr þa enn fleira, hvørs er þad Mark og mootad Prent, ma eg slijkt giorla heyra, þeir kvadu Keisarans vera.

Gude skulud þa giallda þier, hvad Guds er af Hiarta villdu, og Keisara allt þad asett er, epter bodenne Skylldu, hvad þeir ei heyra villdu.

Skommdust sijn sem skaplegt var, og skeyttu ei heilla Raade, og honum gaafu eckert Svar, ordner flestum ad Hæde, oss bid eg JEsus naade.

Gief þu JEsus eg giallde riett, Gude þa Trw mier bære, og Ofervallde hvad er, tilsett, einkum so hlyden være, og lifande Sannleik lære.

## Vijsann.

JEsu Jafnlinde prijsa, Judar þeige prwder, Ad Sannleik hann inne, Og Ottalaust Menn votte Bert Vilia hann hirte, Ef ber þeim Skatt gilldum vera, Gude baud hann þeir greide, Og giallde riett Ofervallde.

Þo Ord þijn einskis virde, Aumer Judar i Heime, JEsu minn eg vil kioosa, Ad Eilijfu vid þau blijfa, Giallda laat mig Guds Skylldu, Greina kunna Trw hreina, og alldrei Ofervallde, Þo ummvande moot stande.

## Tuttugasta og Fioorda Sunnudag epter Trin. Evang. Marc. 9.

Med Lag, Dreckum af Brunne Raadar.

HA JEsus var enn ad ræda, þad aadur kiende, þvi Foolked villde fæda, sem framm ad vende, Jairus hiet Hofdinge, a Hnie kraup framm i stad, so af honum Andsvar feinge, med Audmykt Herrann bad.

Mijn Dotter er ny ondud, Jairus inner, þu kom med heilla Hondum, ad hiaalpa henne, legger þu Hond a hana, hun mun þa lifna vid, Gud Son ad goodum Vana, gieck med honum a Leid.

Hanns Læresveinar þa lijka, med liwfum geingu, fyrer Guddooms Giæsku slijka, þeir Gladning feingu, ein Kona i Kvenna Meinum, þa kiemur a Bak vid hann, hier seiger þad glogt med Greinum, hvad good Trw hennar vann.

Heil toolf Ar a henne, lac Hormung strijda, ad Bloodlaat ecke linner, med laungum Kvijda, so fra eg siaalf hun ræde, i sinne Hugarens Root, kynne eg ad snerta Klæde, Christi þa feinge eg Boot.

Konann snart Falld hanns Klæda, sig kiener grædda, JEsus ried þa ræda, vid rauna mædda, siertu mijn Dotter sæla, sannlega styrk i Trw, hun giorde þig nu heila, hiedann i Fride snw.

Sem Herrann kom til Hwsa, Hofdingians rijka, og leit þa Lwdra blaasa, og bulldra lijka, Frelsarenn fyrst sem hæfer, fra sier þeim vijkia baud, seiger ad Stulkann svæfe, enn su være ecke daud.

Þeir hæda Herrann þenna, þo hlioota ad ryma, hann took i Hendur hennar, sem svaf þann Tijma

Tijma, þa Stulku bidur hañ standa, styrkva upp vid þad, so verdur epter banda, hun vaknar þegar i stad.

Utbarst af honum Rykte, a Juda Lande, þo þeir ecke þeckte, þad var hañs vande, siñ Almaatt i Ordum, ad opeñbera þeim, og so med Guddooms giordum, glogt uñ allañ Heim.

Under allskyns Meinum, vier aumer bwum, af Alhuga JEsu hreinum, þvi ad þier snwum, tendra þu Trwna rietta, til þijn hvoria Stund, So leidest Lijfed þetta, eñ lange oss a þiñ Fund.

## Vijsañ.

VId Bæn Jairus eina, JEsus verdur til Ferdar, A Leid hañs kom vid Klæde, Kviña og Bloodfall iñer, HErrañ sañ fyrer Trw heñar, Fra sier reña Krapt þeña, Dootter Hofdingians hitte, Hægt af Svefne broatt vakte.

Auk mier Trw JEsus lijka, Ad eg þiñ Krapt so fiñe, Reña til mijn i miñe, Mædu þa uñ þig ræde, Allra Handa þad hindrar, Helga Trw, Fra mier sñuer, Sioadu, miñ Svefner Daude, Seirna Lijf gledur mig eirneñ.

## Tuttugasta og Fimta Suñudag epter Trin. Evang. Matth. 24.

Med Lag, Pa liñer hier mijn Lijkamans Vist.

NRædareñ JEsus gieck þa wt, Af Guds Musterenu frijda, Hañs Læresveinar svipter Swt, Syndu þess fogru Smijdar, HErrañ svarar og sagde so, Sw Tijd kiemur hier ecke maa, Steiñ yfer Steine bijda.

Veik þa sijdar a Vidsiniors Fiall, vor Herra JEsus kiære, þeir hofdu þa upp sitt Ordaspiall, Adspurdu nær þad være, Hvort Mark skylldu hafa þar aa, Pa Heimureñ vill siñ Enda faa, Eda Teikn hvor til bære?

Siaaed til Brædur sagde hañ, So ydur eingeñ ville, Allmarger koma aa miñ sañ, Under Svikrædes Hylle, Munu Nafne sig nefna Christ, Nooga kuñande Flærdar-List, Trwed ei Tæling illre.

Hernad og Strijd þa heyre þier, Hrædest ei nockru Siñe, Þvi Ognan sw fyrst undañ fer, Adur eñ Þrautum liñe, Rijke og Þiood mun rijsa hvort, Riett i moote odru þvert, Eymdeñ mun ei þess miñe.

Hwngur og Drep-Soott hier og hvar, J Hierodum mun þa verda, Jardskialftar lijka eirneñ þar, Pa ad vill Neydeñ herda, Upphaf Harmkvæla er þad þo, Ongva hafe þier helldur Roo, skada þeir ydur og skierda.

J Neyd og Dauda þier seliest so, fyrer sialfs mijns Nafned dyra, þar med af ollum Þioodum fa, Þvijngan og Hatred meira, iñbyrdes Hneyxlan mest er megn, mun þa hvor odrum strijda i giegn, med Flærd og Falsed verra.

Falsker Spaameñ ad fiolga þa, Og fleire afvega leida, Ranglæted af þvi magnast maa, Mun þad Elskuna deyda, eñ hvor sem styrkur standa kañ, Stodugur allt til Enda hañ, Velferd Saalar skal veida.

Petta Guds rijkis gooda Ord, mun glogt um̃ Heims Bygd alla, Predikad verda vijst a Jord, til Vitnisburdar ad kalla, Allskyns Pioodar so afte þad, Endeñ verdur þa strax i Stad, þvi Heimur hlytur ad falla.

Nær þier siaaed þa Svivirding, Sem Daniel um̃ ræder, Eydsluñar so alltum̃ kring, eru þad lijtel Giæde, standande i helgum Stad, Hvor þad les sai hygge þar ad, Ogn fu alla þa hræder.

Hvorier þa er a Juda Jord, jafnsnart flye til Fialla, af Riafre ei neiñ fær Gongu giort, Grand i Hwse ad spialla, Og sa sem wt a Akre er, aptur snijr ei nie þangad fer, Kyrtel siñ sai edur kalla.

Vei Pwngudum aa þeirre Tijd, Par med og Briooslmylkingum, Ad Høndum kiemur þa hærre Neyd, Eñ heyrd var fyrr aa Stoor-Pijngum, Pvi bidied ad ydar Flootta-Ferd, Fliootraad sie ei aa Vetre giord, Og aa Pvottdeige ongvum.

Frai Heims Byggingu Hormung slijk, Heyrdest ei fyrr nie nærre, Og þadan i frai nein þessu lijk, Pa mun verda nie stærre, Og nema su stytteft Æfe-Olld, Eckert mun verda hoolped Holld, Fyrer frooma Dagar stie færre.

Ef seigia þeir ydur siaa þar er, Siaalfur Christur sai HErra, Trwa skulud ei þessu þier, Pvi þar bijr under verra, Pvi Fals-christar og Fals-Spaameñ, Fiñast þa vijda marger señ, Pa mun ei Villañ þverra.

Fyrer þau Teikn og Flærdar-Band, Er falster Spaameñ seida, Ef verda mætte i Villu-Grand, valda Meñ eirneñ leida, Siaae þier nu eg sagde þad, Siaalfur fyrer i þessum Stad, Ydur vilia þeir veida.

Seige þeir ydur ad hañ sie, aa Eydemorku nærre, Gaanged ei wt þvi þad er Spie, Peirra Flærd er þo stærre, Seige þeir hañ i Hwsum þa, Hafed þar ongvañ Trwnad aa, Fared heim helldur fiærre.

So sem Ellding af Austre señ, Allt til Vesturs mun liooma, Mañsins Sonur mun eiñeigeñ, Epter þad hijngad koma, Hvar Hræed er i einum Stad, Ernerner flyckiast þaangad ad, Christur kieñer vel Frooma.

Af øllum Teiknum er þad nu liooft, JEsu vor Hirder froome, Lærdoomur þiñ vor lyser Briooft, Lijdur ad Effsta Doome, J-Eymdum þessum þa ad mier gaa, Ætijd laat mig þig kalla aa, Pu ert mitt Lioos og Lioome.

## Vijsañ.

Umur er ysse Tijme, Illar fiølga miøg Villur, Strijd ver þaa med Pioodum, Pioonar Guds koma i Rauner, Hwngur Land-Plaagur laangar, lijda Meñ Sorgar Kvijda, Koolnar Aast Christur mæler, Klæker marga heim sækia.

Allt hvad JEsus mællte, um̃ Lag Sijdustu Daga, Fram̃ komed flest i Heime, Fiñur sa þvi vill siña, Vegna þess vil eg nu fagna, Og vona þijn kiær Guds Sonur, A hvørre Stund þu munt þerra, piña best Taar af kiñum.

## Tuttugasta og Siøtta Suñudag epter Trin. Evang. Matth. 25.

Med Lag, Hædste Gud HErra millde.

NÆr

NAer Mañsins Son mun koma, Med ollum Eingla Her, J sijnum Velldis Sooma, Ad sitia Doomeñ hier, Ad Sæte hañs safnast Piooder, Og sundur skiliast þa, Jller Meñ og so goder, eins og Hirders Sauder, Kidonum klart i fra.

Setur hañ Saude gooda, Sier æ Hægre Hlid, Eñ viist sem Vesseñ hliooda, Til Vinstre Handar Kid, Konguren miwkt þa mæler, Vid Meñ a Hægra Veg, Komed seiger hañ sæler, Sæ sem ad ongvañ tæler, Alleins Guds Born sem eg.

Eignest þañ Arf og Rijke, Sem ædur tilreiddur er, Eg jæta ad vel lijke, Ast-Verk sem giordud mier, Hwngradur fieck eg Fæde, Fijnañ Dryck þystur miog, Nakeñ so noogleg Klæde, Nu skal fyrer þau Giæde, Ydar ei Umbun treg.

Gieste veittud mier Greida, Geingud og til mijn þa, Hafde eg Hrygd ad lijda; Hrumdur i Soottum læ, Flotrum læstañ mig fundud, Fængelse liggia i, Allvel þar hiæ mier undud, Og um mijn Særeñ bundud, Huggest nu hellst af þvi.

Hvonær sæum þig HErra, Helger Meñ spyria ad, Vista þurfande vera, Edur Vatns so bættum þad, Gest so ad Greida veittum, Gæfum þier Klæde hier, J Soott og Hersiotrum hættum, Hallden so ad vier mættum, Veita Pioonustu þier?

Kongureñ gløgt med Greinum, Giegner þeim riett i Stad, Hvad aumum giord-ud Einum, Allt veittu þier mier þad. Vijkur til Vinstre Handar, Voda reidur þa sier, Omilldum epter Vanda, wtrekest hier med Fianda, J eilijfañ Elld fræ mier.

Mig sookte Sveingd og Porste, Sadning ei veittud mier, Kalldur ætte eg ei Koste; Klæda þo geinge ber, Geste ei veittud Greida, Geingud þa sijst til mijn, Sæud mig Sootter mæda, Og Mein Fiotra leida, Ad lina mier længre Pijn.

Omillder vænta verra, Vijkia þvi so af sier, Hvonar sæum þig HErra, Hwngra og Pyrsta hier, Gieft eda Næktañ gænga, Geyse mæddañ af Soott, Eda tekeñ til Fænga, Tijma hallden þar længa, Giordum þier ecke gott?

HErrañ svarar og seiger, So sem ad letrad er, Hvad Aumum veittud eige, Ecke giordud þad mier, Peir Fordæmdu fara, Fleygder i eilijft Baal, Helger med Himna-Skara, Huggun sw mun þa vara, Endalaust utañ Tal.

Nær Doomur þiñ ad dynur, DRotteñ JEsus miñ, Heimureñ allur hrynur; Hugureñ styrkest miñ, Pvi ad eg þessu Trwe, Pu muner hiælpa mier, Til Hægre Handar snwe, Og hiæ þier sijdar bwe, Par eilijf Sælañ er.

## Vijsañ.

NAEr sem un mun koma, Nækvæmur Lyd ad Dæma, Milldur i Maktarvellde, Mañsins Sonur æn vansa, Situr i Tignar-Sæte, So sem Hirder Fiær giørde, Sundur til Hægre Handar, Hlidar Saudum fræ Kidum.

Talar so miwku Maale, Vid Meñ æ Hægra Veg þesia, Komed Blessud Born heima, Bwna Tign Rijked eignest, Eñ Vinstre Handar Lid hrindist, J Helear Glood fræ mier Bøl-vad, Elldur sæ slokna alldrei, Med Arum lijded Kvøl særa.

A þeim Effsta Doome, Alsur Heims Trw eg ad skiælfe, Reidur Guds Son þvi Ræder Sy... Ræd er ecke til Næda, Nema strax nu i Tijma, Nædeñ Guds vid oss Næde, Ord þitt,

JEsu

JEsus verde, Og Nafn Skiool mitt jafnañ.

Po rijde œ Doomur og Daude, DRottenñ firder mig Otta, Bidur mig hvørge hrædast, Hañ er Frelsarenñ sañe, Verde mier ad þvi Orde, Epter Trw sem eg nu hrepte, JEsu eg mig læse, Under Skiool þiñar Haudar.

## Tuttugasta og Siøunda Suñudag epter Trin. Evang. Matth. 17

Med Lag, Sæll ertu sem þiñ Gud.

SEX Døgum sijdar þa, Took Son Guds millde, Burt œ Leid Brædur Priœ, Þeim birtast villde.

Jacob og Johann var, Og eirnenñ Petur, Adra Vott œdur bar, Hvør ødrum betur.

A Fiall hœtt foor hañ þa, Med Fylgdar-Moñum, Lijkam siñ liet þar siœ, J Lioomœ soñum.

Andlit skein eins og Sool, A JEsu kiœra, Klæde lijkt liooma vel, Sem Liooséd skiœra.

Moysen þar mœtte siœ, Eliam lijka, J Ordrædu JEsu hiœ, um Utfør slijka.

Petur þa seiger so, satt er þad HErra, Gott er oss þier hier hiœ, Langs-Vistum vera.

Biooder þu, byggium þa, Bwder Priœr hreinar, Moysi Elia, Og so þier Eina.

Sem hañ nu sagde þad, Siœ þu Sky biarta, Yferdroo strax i Stad, Klocknar hañs Hiarta.

Siœ þu Rodd skyr og skiœr, Af Skyie sagde, Hañ er sœ Son miñ kiœr, Sem Ast vid lagde.

Ad hvørium œ mier giest, So epter Vonum, Einum allra best, Pier hlijded hønum.

Hañs Brædur heyrdu þad, Og hrædder urdu, Fallande fram i Stad, þa strax ad Jordu.

A þeim took JEsus þa, Af Ast og rædde, Og bad nu upp ad staœ, So ei sie hrædder.

Eñ sem þeir aptur sœ, Nu Efling saña, JEsum þar einañ siœ, Eñ øngvañ añañ.

Framar sem fooru heim, wr Fiallsins Gøngu, Birting þa baud hañ þeim, Ad iña øngvum.

Þar til Son Mañsins sœ, Hœr Hirder Sauda, Upprijs nu aptur þa, Ad uñ-um Dauda.

JEsu kiær uñ þu mier, Þess Yndis niioota, Liooma skiær þa hiœ þier, mœ þar ei þriioota.

## Vijsañ.

AF Fialle Tabor fyllast, Fyrerheit Guds þar beitest, Kyñing klœr Preñingar, Kallar Gud Fader til allra, Ad Christur sie Barn sitt besta, Bydur oss hønum ad hlyda, Ande Guds yfer hañ sendest, J Dwfu mynd liwfre.

Þrijr Brædur vid voru, Vottar ad Christur DRottens, Guddooms Mynd sijna synde, So sem skiœra Lioos være, Klæde hañs Misll œn Moodu, Myklu hvijtare ad lijta, Vid Elias munde mæla, Og Moysen i þvi Lioose.

Birtu mitt Brioost og Hiarta, Blessadur Gud oss þesse, Stoormerke mig styrke, Ad standi eg epter vanda, J Trwñe og þecke þañenñ, Þijna Dyrd yfer mier skijna, Þu ert þvi so þrijeiñ, Priœr Persoonur klœrar. Gud-

## Gudspialls Vijsur af þrefalldre Freistne.

MAke þier upp sem vilied heita, ad vijsu gooder Christner Meñ, Daglegt Strijd vier þurfum þreyta, Vid þañ eñ grima Satan eñ, JEsus vill oss Læknis leita, Lyknar Rꜳdeñ giefur wt þreñ.

Pad er oss greint i Gudspialls Orde, Grædareñ JEsus Hwngred leid, diarfur og lymskur Diøfulleñ þorde, Ad dickta Flærd um̃ þetta Skeid, Sieꜳdu Madur vid Sꜳlar Morde, Situr þu mitt ꜳ Heliarleid.

J fyrstu kiemur hiñ Fremdarsnaude, Freistar Christs og þañeñ tier, Giørdu þetta Grioot ad Braude, Ef Guds Son villtu reiknast hier, Helldur eñ þig kvelie Hwngur og Daude, Himna Fadereñ gleimer þier.

Oss vill þetta øllum rꜳda, ad ørvænta so Fæduñar, Po vier bidium DRotteñ dꜳda, Duger þad stundum ecke par, Oss til Glede og allra Nꜳda, JEsus Greidde þvilijkt Svar.

Einfallt Braud er ongvum Forde, Alldrei mꜳ þad lijfga Mañ, Helldur er Styrkur ad Herrañs Orde, Hvorium þeim sem treysta ꜳ hañ, Po Matur og Vist sie miñe ꜳ Borde, Marger profa Krapteñ þañ.

Auñur Freistne er ecke miñe, Ofañ af Kyrkiu fleyg þu hier, Eingla seiger ad Fulltijng siñe, Fals-Nijdingur i Psalmeñ fer, Vefur so Skript eñ viller Siñe, Vitringarner gꜳe ad sier.

Freiste eingeñ Guds hins Gooda, Giøre so hvør sem Christur baud, Hafe þau Rꜳd sem hañ vill biooda, Heims Fordilld er verr eñ daud, Hættu þier sialfur hvørge i Voda, Po hiꜳlpe DRotteñ best wr naud.

Orꜳd þetta øllum kieñer, Agiætis ad leita sier, Veralldar Spekteñ Brioosted breñer, Blecking sw er lioosust hier, Hiñ er sæll sem Huganum reñer, Um̃ Heilrædeñ sem DRotteñ tier.

J Pridiu Grein er þrauteñ stæsta, Pyngsta Raun sem verda mꜳ, flytur hañ Christ ꜳ Fialled hæsta, Fegurd og Rijkdoom Heims ad siꜳ, Hañ heiter ad veita Gꜳfu glæsta, Ef Gofgan legde hañ moote þꜳ.

Heidran slijka helld eg veita, Heimsku Veralldar Rijkes Meñ, Ad Footum Satans falla og leita, Fyrst þeir elska Mam̃oneñ, Guddooms Rꜳdunum giorla neita, Gꜳdu ad hvørneñ svarar hañ eñ.

Talar hañ lox Vid Satan svarta, Svikareñ fardu i burt frꜳ mier, Einum Gude af øllu Hiarta, A eg ad þioona eñ hafna þier, Einglar koma med Asiꜳn biarta, JEsum heidra sem þeim ber.

Huxa skyllde hvør sem añar, Hrædslu fullur um̃ Diøfla Makt, Forna Diørfung Satans sañar, Vid sialfañ Gud sem nu var sagt, Slijka Fiandañs Kiænsku kañar, Christeñ Madur og giefur ei vakt.

Ottaleysed er hellst i Heime, Hryggelegasta Synda-Kyn, aller dꜳist ad Aud og

Seims, Og elska þeñañ Guds Ovin, Po Diofulleñ slijka drage og teyme, Duger þeim lijtt hid mykla Skin.

So er i hvoriu Synda Faare, sem þaa Madureñ fangeñ er, Hañ er leiddur af illum Are, Ottalaus sem blindur fer, Siaa þarf vel vid Svikarans Daare, Setur oss DRottens Lækning hier.

Sw er hin hæsta Huggun Maña, Ad HErrañ JEsus Diofuleñ vañ, J veyku Hollde villde kaña, Viela Krapt og sigra hañ, So Yfergaang mætte Arum baña, Oss gaf tijka Sigureñ þañ.

Auñur Glede af Gudspialls Rædu, Er Grædarans JEsu Hiaalpar-Traust, A siglagde hañ alla Mædu, Vid Symd og Rauner Veralldar braust, So vorkynt giæte hañ veykum Brædrum, Hañ vill oss styrkia Efunarlaust.

J Pridiu Grein er þad til Boota, Pioonkan skulu vier Eingla faa, Andar Guds sem alldrei briioota, Æfeñlega oss standa hiaa, Ef vier fordunst Leste lioota, Peir leida oss allre Meinsemd fraa.

Lofed og Dyrd sie Lausnara mijnum, Liufum HErra JEsu Christ, Hañ er mier nær med Einglum sijnum, Allrar hef eg þvi Kvijdu mist, Epter Lijf fraa Lasta pijnu, Leide hañ oss i Himna-Vist.

Hiaalpe oss JEsus HErrañ goode, Heimur og Diofull skielfa maa, Vier sveimum aumer i Synda-Floode, Sæker Hollded ad stunda þa; Pu hellter wt þijnu Hiarta Blode, Hier er sw Lijkn eg Treyste uppa.

A Orde þijnu Elsku hreina, Auk þu og lijka Trwna mier, Hef eg þa Sverd og Skiolld ad skeina, Skaalkeñ hvorn sem moote fer, Gudspialls Vijsuna enda eg eina, Uñ allar Allder Lof sie þier, Amen.

## Ein Jdranar Vijsa af Gudspiallenu, Luc. 15.

Med Lag, Sem Pijslarmiñing.

JEsu goode auk þu mier, Andagipt aa Jordu, Ad dickta Od til Dyrdar þier, Um Daarsemd þa, Medañ eg maa, Hvad iñelega þu elskar þa, Sem Yferboot saña giordu.

Lucas skrifar ad Lausnareñ sat, Liwfur nockru Siñe, Med Bersyndugum til Bords ad Mat, Og Bañsett Lid, var þar vid, Eñ Haadgiarner med Hreckia Sid, Pad honum til Lijta fiñe.

JEsus droo fier Dæmeñ þa, Af Dygdugum Geymer Sauda, Ef Hundrade Eiñ ad hverfur fraa, Hirdereñ fer, Sem þad sier, Ad leita hratt þar Hættañ er, So honum ad forde Dauda.

Fundeñ heim aa Herdum ber, Til Hwss og gledst med Groñum, JEsus seiger ad alleins fer, Vid Yferboot Mañs, Hirdeñ hañs, Og fagne Einglar so til Sans, Yfer syndugum Slæpa-Moñum.

Af

Af Tiju Peningum tyndest Eiñ, Pad tekur hañ og til Dæma, Leitar Svañeñ Lyndis hreiñ, Med Lioos og fañ, aptur hañ, Med Vin-Konum gledst fyrer vissañ Sañ, Hun vill ei Hirdslur tæma.

Pridia Dæme a þeñañ Hatt, Pijder JEsus lijka, Ad Burgeis hefde einhvor ätt, Arfa Tvo, Peim seiger hañ so, Hiñ Unge vill siñ Fiaar-Hlut faa, Af Fodurnum Dygdarijka.

Fadereñ liet siñ Fiaar-Hlut til, Fieck þa Sonureñ Yngre, Af Lausa-Konum so lijtel Skil, Hañ liet sitt Fie, Peim i Tie, Eyddur fraa eg so Audureñ sie, Er saa Hagureñ þyngre.

J fiarlægt Rijke frañkom þa, Hiaa fiaadum Boonda Einum, Liet hañ giæta Svijna saa, Eñ Sulltur var, J Lande þar, Pad gieck so eingeñ gaf hønum par, Hañ gyrntest Drafed med Svijnum.

Hañ took sgart af Hwngre þiaadur, Ad hupa um Æfe sijna, Hvoria Sælu ad hafde aadur, Heima Meñ, Fødur hañs eñ, Faa ærna Fædu aller señ, Eñ Eymd og Sveingd hañ pijna.

J Hug kom strax þad heilla Raad, Ad hitta Fødureñ sæla, Jaata Synd eñ sækia ad Naad, Syna Boot, Af Hugarins Root, Sæt mun koma Svøreñ aa moot, Pvi so kvadst vilia mæla.

Hiartans Fader mijn Hroopleg Synd, J Himeneñ allt ad naade, Brijxle er mier þitt Barn eda Kind, Fyrer brugdna Trw, Ad kallast nu, Skicka mig sem þijn Skylldu-Hiw, Pvi skamlega þig forsmaade.

Uppreis þegar og allañ Veg, Ort ried heim ad reña, Fadereñ leit hañ fiærre miøg, A Fund vid hañ, Moote rañ, Klappa miwkt og kyssa vañ, Og kiært med Armum speña.

Sæte Fader ad sagde hañ, Mijn Synd i Himeneñ kallar, Eg forliet þig med fullañ Sañ, Fyrer þvi maa, Eg ecke faa, Piñ Sonur ad heita og sitia hiaa, Svijna Prælum valla.

Fadereñ bydur Pienorum þa, Pau enu-bestu Klæde, Ad sækia og Hryng hañs Handlegg aa, Og hæfa Skoo, A Fætur droo, So Virduglega til Veitslu-bioo, Ad Vijsu fraa eg so ræde.

Son miñ kiære siaee þier nu, Saa var tyndur bæde, Og daudur fyrr þvi fiell af Trw, Eñ fundeñ er, Og lifer nu hier, Pvi fagne þier sem fyrst med mier, Foolked gledst med Æde.

Hañs Elldre Sonur aa Akre var, Og undrast Pijpna-Læte, Dryckiuskap og Dansa þar, Dreinge spyr, Ecke hyr, Hvad Olværd þeirre under byr, Pa ansar Fadereñ sæte.

Elsku Sonureñ Yngre miñ, J Utlegd tyndur næsta, Heim kom nu med hyrlegt Siñ, Pvi hæfer þier, Lijkt sem mier, Ad fagner þvi ad hañ fundeñ er, Og sæ eg nu Gledeng stæsta.

Hiñ med Pyckiu og þrongre Lund, Pañeñ svarar a moote, Eg hefe þient þier alla Stund, Og unad mier Vid, settañ Sid, Eñ mier gafstu ei minsta Kid, So mijner Viner af nioote.

Eñ nu þesse Eydslu Madur, Aptur kiemur hiñ snaude, Lietstu hyr i Hiarta gladur, Hoosed best, Magna mest, Eñ hañ hefur þo med Hneyxlun flest, Fyrer Hoorur svarlad Aude.

Fadereñ mællte Son miñ sæll, Siaaðu Heiller þijnar, Vertu liwfur og Lyndis dæll, Þvi ä ser nu hiñ, Brooder þiñ, Allañ tekur þu Arfeñ miñ, Og Eigner bestu mijnar.

Hier bid eg stunde hvor sem kañ, Hiartad Guds ad kieña, Vid syndugañ breyter sierhvorn Mañ, So sem ad ser, Fadereñ hier, Þañ sem ydrast þetta skier, Og þydest Lærdoom þeña.

Vode og Hætta mun su mest, Er margañ skiedur i Heime, Ad leika sier vid Lyteñ flest, Lifa i Synd, Briioosteñ blind, So sem rasfar Saudar-Kind, Sw sem ad eingeñ geymer.

Peningur tyndur safnar Saur, æ sig og Ridenu meira, Geingeñ nidur i Goolf og Aur, Glæpa Meñ, fara so eñ, Sem ydrast lijtt fyrer Afbrot þreñ, Aumt er slijkt ad heyra.

Eydslu Sonureñ eiñ Veg foor, Med Arfa-Gosfed besta, J Dryckiuskap og drygde Hoor, Dæme hañs, Eru til Sans, Sett fyrer Augu sierhvers Mañs, Pad seige ofs hende flesta.

Hier i moote er Hiaalpeñ sw, Ad Hirdereñ leitar Sauda, Peningsins lijka forsiaal Frw, Og Fadereñ rañ, Þvi Synenum añ, Honum i moot þad hugge þañ, Sem hrædist Andar-Dauda.

Laattu mig skilia Lausnareñ trwr, Þa lifande Hiarta Prijde, Sem hefur þu til ad hiaalpa wr, Haaska og Neyd, Fyrer þiñ Deyd, Gief þu ad ofs sie Afbrot leid, Og ollum Christnum Lyde.

Mijn eru Brot vid Himeneñ haa, Miñ Hiartans Fadereñ kiære, Þier i moot eg syndgast so, Þad syrge eg nu, Riett af Trw, Og bid eg ad vid mig breyter þu, Sem Bw-Sveiñ þiñ eg være.

Aukest Heidur og Æra þier, Eilijf Þreñing sæla, Lofader þu til lykta mier, Lioodæ Vers, Giora til þess, Fyrer JEsu Nafn sie Hiortun hress, Sem Hug-good þetta mæla, Amen.

## Gudspialls Vijsur, af þeim saara Mañe
### Lucas i tijunda Capitula.

ALl er nu ein i Hiarta hrein, Þad hofum vier lært, Astar grein fyrer utañ Mein ad elska kiært, Lijffins Ord þad Lioosed skiært, Sem Lausnareñ JEsus hefur ofs fært.

DRottins Ræda fyrst kañ fræda saaviis Born, Saalena fæda, sijdañ græda Saarlik hvorn, Amoott Satans Vielum Vorn, Venur hun Hiortun Dygdagiorn.

Sonur-

Sonur Guds alla siálfur kallar sæla þa, Sem Gudspialla um̃ Efena alla Astüm nar, Hvad hans Postular heyra og siar, Hefde Kongana girnt ad sia.

Hier med villde Meistaren̄ millde min̄a a, Ad hvor Man̄ skyllde i hæsta gillde hefia þa, Heill og Sælu ef hreppa ma, Hier stood nockur Spekingur hia.

Logmals Niordur fullur Flærdar frietter Christ, Ad hvorjar Giorder hellst ad fæ-rdu i Himnavist, Svarade DRotten̄ so med List, Siálfur lestu Bodorden̄ fyrst.

Þu skallt un̄a og elska kun̄a ein̄ Gud riett, Af Hiartans Grun̄e og Giæsku Brun̄e i goodre Stiett, og Naungan̄ sem þig siálfan̄ sliett, þad seiger han̄ fyrst i Logunum sett.

Gior þad nu sem greiner þu ad Guds Son tier, af liufre Trw og lifa muntu, sem lofad er hier, Logspekinguren̄ leitar sier, Lofs og spyr hvor Naungen̄ er.

Lausnaren̄ þydur Lyndis blijdur leit þa vid, A þad hlyde allur Lydur eg þess bid, Hvor þeim sara synde Lid, Svipte Neyd og keypte i Frid.

Adburd þan̄ um̃ einhvorn Man̄, Ad JEsus tier, Hvor ferdast van̄; sem verda kan̄, J Verolldu hier, Fra Jerusalem ofan̄ han̄ fer, til Jericho sem Vegurenn er;

Þesse Madur þeige gladur, J þeirre For, Hrepte Skada skiemd so brada, og Skálka Þor, Klædum ræntur Kiempan̄ snor, Kvalde og særde Reisaren̄ hvor.

J Daudans Fare særdur Sarum sijdan̄ la, Med Glette Tarum grim̃er Dar-ar geingu fra, Prestur nockur sem ad han̄ sa, a sin̄e Leid þar sneidde han̄ hia.

Levite an̄ar ein̄ Veg kan̄ar og þan̄ sier, Um̃ sara Man̄ ei sin̄er han̄, Sem sagt er mier, Eirn Samverskur sijdast fer, Sampijning i Hiartanu ber.

Af Fiarlægd kiemur og fin̄ur hin̄ auma a fornum Veg, Bindur og saumar Sar-en̄ somu ofyneleg, Med Vijne og Oleo myker miog, mun honum ecke Lækningen̄ treg.

Leggur hin̄ siwka a sin̄ Eyk og ekur med sier, Lækning miuka veiter veikum vel sem ber, Til Herbergis sem hentugt er, vid Hwsbondan̄ han̄ semur þo gior.

Tvo Peninga fra eg han̄ feinge i Foostur-laun, Medan Blijdlingur i burtu geing-ur ad Biarga i Raun, bidur han̄ huxa um̃ hættleg Kaun, Heiter sijdan̄ meire Um̃baun.

Guds Son spyr þan̄ gieted var fyrr, af Gydinga Her, Spekingur dyre hoskur og hyre, þad herm þu mier, Hvor þeirra þriggia þiker nu þier, Þess Naunge er særdur la hier.

Sa sem ad van̄ so svarade han̄ þeim sara Boot, Læknade þan̄ hin̄ meidda Man̄ med miukleg Hoot, Guds Son lagde Grein a moot, Giordu slijkt af Hugarens Root.

Nu vil eg þyda en̄ þu skallt hlyda a þesse Liood, Hvad Meistarans blijda Málsnilld srijda, merker good, han̄ dycktade þesse Dæmen̄ frod, dulen̄ og myrk fyrer Gydinga Þiod.

Adam Fader er sa Madur eg adur kvad, Hrepte o-gladur Skiemd og Skada og skilen̄ med þad, Fra Jerusalem Naadarstad, Til Jericho i Verolldar Bad.

Satan van̄ ad svijkia Man̄, og særa vest, Fellde a han̄ hid hætta Ban̄ og hrakte mest, fyrer Syndena gat so Limuna lest, ad la han̄ i Sorg og Hugarens Brest.

Ræntur Klædum goodum Giædum Guds Jmynd, i ollum rædum fyrtur Frædum, Fullur af Synd, hvorsen̄ Soome en̄ Hyggian̄ blind, harme nu slijkt hvor man̄leg Kind:

Lijkt sem daudur i langre Naud hañ liggur þa, Vrusnaudur elsku traudur, J Eyend og Praa, Prestur og Levite sem ad hañ saa, Seigia skal nu hvad þydum vier þa.

Prests-Stiett frijd i fornre Tijd og Foorner þær, Par Moyses bydur Logmaal Lyd, sem læsum vær, þad hiaalpar wr Daudanum hvorge nær, hier er hiñ saare jafnlijkt fær.

Fyrr eñ kiennur og Saareñ semur ein Samversk Kind, Sem halfu fremur i Hiarta nemur þa Hrygdar Mynd, Guds Son JEsus gledur med Hind, Hañ græde Mañ af Dauda og Synd.

Petta ed sæta Lijtelæte lietter Pijn, Vel kañ bæta Meistareñ mæte Meineñ mijn, Bar hañ i Saareñ veglegt Vijn, Vijsdooms Log og Bodordeñ sijn:

Guds Son smurde Astar Orde aumleik Mañs, So alheil urdu Hneixleñ hordu Hiarta Rañs, Pad Oleum gooda er til sans, Evangelium Myskuneñ hañs.

Eykureñ fra eg ad merkia ma hañs Mañdooms Ok, Fyrer Elskuna þa þeir aller fær good æfelok, Sem Herran sier a Herdar took, til Herbergis og Lækningar jook.

Petta Hws ed er Herrans JEsu Kyrkia klaar, Par er hañ fws ad þvo og leysa Synda Saar, Hwsbondeñ er Hirdereñ Fiaar, sem Helgedoomenum fyrer ad staar.

Honum ad selur og a Hende felur hiñ saara so, wr Punge velur og Preste telur Penninga tvo, Logmaals Ogn þar under bioo, Evangelium gledur hañ þo.

Pañiñ lætur Lausnareñ mætur lækna hañ, Sem ædur grætur i Sorgar Sæte hiñ saare Mañ, Lofar ad heidra Hirder þañ, Sem hugula Nærlng veita kañ.

JEsu kiære Hiartad hrære hiaalpa mier, Gief þu eg lære ad lifa sem bære i Heime hier, Fyrer Lausn og Græding Lofed sie þier, So lykta eg Dykt og Bragarens Kver.

## Gudspialls Vijsur af Skipenu Christi, Matth. 8.

SJglt hef eg opt og sied hef ei til Landa, HErrañ JEsus hefur mig leyst wr Vanda.

Stirnad hefur mier Styre Maals um̃ Stunder leinge, Ef Heilax Anda Hiaalp eg feinge, Hañ kañ ad mykia Liooda Streinge:

Ecke fære eg Elldre Moñum Odeñ þeña, Bornunum þyke mier best ad kieña, Sem Boguna hvoria læra neña.

Po greine eg hier til Gudspialls Ord og gior eg af Kvæde, Pa stodvade JEsus Storm og Bræde, Stundum hef eg þad reynt a Flæde.

Lausnareñ stie a lijted Skip med Læresveinum, J blyda Logne ad Himne hreinum, Hættum kvijda ecke neinum.

Siaalfur JEsus sest i Skut og sofna fer, J odru Bragde int er mier, Ad Aulldu-Siooreñ hreifde sier.

Yfer þa drijfa Afoll stoor og urdu hrædder, Ræda so af Roodre mædder, Riett erum vier i Naudum stadder.

Sijdañ vekia þeir siaalfañ Christ og sogdu af Moode, Hiaalpa þu oss HErrañ goode, wr hættre Neyd og Siaafar-Floode:

Vered

Vered Ohrædder veyker Meñ þvi vilie þier kvijda, HErrañ talar med Hyggiu blyda, Haſtar a Vind og Olldu ſtrijda.

Lygnde Vind og lægde Sio ſo Lyder ſagna, HErrañs Ord ſo myklu mag:a, Mattar Stormureñ hlaut ad þagna.

Skips Ferd þeſſa þydum nu a þañ Veg alla, So mætte oſs ſijdur wr Miñe falla, Milldeñ Guds vid Konur og Karla.

Siooreñ merker hættañ Heim þvi Hafed er vijtt, Lijka ſem opt er Logned blijtt, Litlu ſijdar Brim-Fall ſtrijtt.

Aulldur Sioar Mootgang Mañs ad merker hier, Pa minſt ad varer margañ ſkier, Megna Praut þad ſkynium vier.

Stormureñ æſer Olldu-Sio þañ adur var hægur, Er þad Diofulleñ Illſku flægur, Eykur Mañſins Rauna-Dægur.

Styre-Madur i Stafne ſitur ſtuddur Liſt, Eg vil nefna hañ JEſum Chriſt, Af mier ſtyrde Bodanum fyrſt.

Styred hañs er Guds Ord gott þad gledur i Praut, Aulldu Siooreñ þad eingeñ Braut, J allre Neyd, Peſs Chriſtneñ naut.

Maſtred feſt i midiañ Bat þad merker riett, Fyrerheit Guds þad framar er ſett, Par feſta ſkal vid Trwna ſliett.

Segled kalla eg ſaña Trw i Sorg og Neyd, Lypter upp med Afle Skeid, Alldañ kropp þvi verdur greid.

Attkiers Streing i Ogna Vedre wt mun rent, Polenmæde i Prautum hent, þyder riett ſo var mier kient.

Hialpar-Gruñed helld eg Chriſt þañ Hellu-Stein, Sem Attkier vort fyrer utañ Mein, Añaſt beſt hvad Voneñ er hrein.

Veriur þarf a vænum Bat fyrer vondre Piood, Velium þar til Vopneñ good, Vargur er margur a þeirre Slood.

Guds Ord er þad gooda Sverd ſem gyllder meſt, Med hreiñre Trw i Huganum feſt, Hiartans Bæn er Skeyted beſt.

Pau Hættu Skier i Hafenu þvi eru Hneyxla-Goll, Skiemdar Verk og ſkadleg Voll, Pa Skipbrot lijdur Chriſtneñ oll.

Po reke Skiped a rwmum Sioo med roſkva Dreinge, Pad ſkadar ei þar ſem Skier eru eingeñ, Po Skwr og Bylgiur yfer þa geinge.

Guds Bornum ſo geingur hier þeim grandar fatt, Ef þeir falla ecke hatt, J Afbrot nein eda ſyndga þratt.

Goſſed allt hier iñañ Bords eru Andleg Giæde, Synda-Boot og Salar-Fæde, Seige eg tu Neidu ollum ſtæde.

Kaupunum rada Kieñemeñ þeir kalla ſo, Gieſens ſkulu þier Goſſed fa, Ef gyrnaſt vill þar nockur a.

J Hafnar-Naust vier holldum Loks med hægañ Byr, Mitt i giegnum Daudans Dyr, J DRottens Fadm sem Adam fyr.

Sa Unadar Stadur er Abrahams Skaut ad ødru Nafne, Pangad vilium styra Stafne, Vors Stijremañs er eingeñ Jafne.

Skal sa Tijme Skips-Foolks heita Skulldar-Stefna, Sem Effta Doom ad aller nefna, Utvalder fa Sælu giefna.

Pa er nu vel til Prautar sigl ef þar skal lenda, Pañ sem gyrner þad mun henda, Pyding Skips er komeñ a Enda.

Vekium vær þig med vorre Bæn þiñ veyke Lydur, Alldañ Sioor og Stormureñ striidur, Strijder a oss eñ Dagureñ lijdur.

Flyttu oss heim i Fødur-Land aptur a Feriu þiñe, JEsus miñ þa Lijfenu liñe, Lioodeñ skulu hier wte ad Siñe. HErrañ JEsus hefur mier styrt wr Vanda.

## Hier epter fylgia Wijsur um̃ Skijrnena.

Med Psalma Lag.

HEyre Guds Børn um̃ Heimeñ vijtt, Hialpræđis Kieñing sana, Næsta berum vier nytt og frijtt, Nafned Christeña Mana, Hier fyrer skylldum heidra mest, HErrañ Christum vorn Broodur best, Og stunda nu øngvañ añañ.

Fra hønum kom oss þad Heidurs Nafn, Og hier fyrer skijrast villde, J Jordan fyrer vort allra Gagn, So allt Riettlæted uppfyllde, So ad vier hliootum Heiller þær, Ad Heiløg Preñina hun er oss nær, Su Vord oss veita skyllde.

Alla þa Dyrd og Skijrnar Skraut, Sem skein yfer Christ vorn kiæra, Hañs Lofsæl Christneñ lijka hlaut, Lof sie hønum og Æra, J hvort Siñ opnast Himeneñ klar, Og helgast sierhvør Skijrnar-Saar, Pad Gagn er oss gott ad læra.

Fadereñ kallar fyrst a þañ, J Fontenum skijrest einum, Pu ert miñ Sonur ad seiger hañ, Mier sætur i øllum Greinum, Pvi er mitt Nafn i Neyd og Pijn, Nærkvæmlegasta Huggun þijn, Pad skrifast hia Herra hreinum.

Heilagur Ande af Himne kiemur, Og Hiartad giorer ad vijgia, So sa hiñ skijrde Skilning nemur, Eñ skadleg Synd mun flyia, Mañs Natturuna alla aptur, Andans lijfgar Dyrdar-Kraptur, Og skapar so Skiepnu nyia.

JEsus Christur sa ed a sig took, Allar Syndernar Maña, Og siñar Christne Sæmder jook, Og Saurgan villde baña, Sialfur vijgde hañ Brwdar-Bad, Hañs Blood-Laug skyllde merkia þad, um̃ heñar Hreinsun sana.

Pvi latum þad heita Læknis-Bruñ, Og Laug þa ed best kañ græda, Heidrum vier Christ af Hiartans Gruñ, Sem hefur oss giort ad fræda, Skijrnar Vatned þvær Barnsins Beih, Eñ Blooded Christi Andar-Mein, So mun Ritningeñ ræda.

Endurfædingar Lijfsins Laug, Lætur hañ Paall þad heita, Bidur þa Christnu ad miñast miog, Hvad moote eigum ad veita, Hvorn Dag strijda Hollde a moot, at Hneyxlan allre ad viña a Boot, Eñ illu øllu afneita.

Kross

Kross og Mootgæang Kvaler og Neyd, Christur vor reyna villde, Sierhvor Christeñ hañ sver þañ Eid, Ad soddañ lijda skyllde, DRotteñ vor reis af Daudanum klær, J Dygdonum lifum vier Sijd og Ar, Pad kieñer oss Meistareñ millde.

Audkieñingar Merked mætt, Mæ vel Skijrneñ heita, Feingeñ Pantur af fullre Sætt, Ad Frid vill Gud þeim ei neita, Sem framgæanga i Fylking hañs, Og fylgia Rædum Merkis-Mañs, Hæsta Lofstyrs ad leita.

Nu bid eg Guds Born giæte ad, Gagneny Skijrnar siñar, Hun ber Vitne i hvorium Stad, Um̃ Heimvon Sæalar þiñar, Ef þu trwer og jdrast hreint, Og athugar vel hvad hef eg nu greint, J Vessunum Vijsu miñar.

Vertu nu fws ad vanda þad, Og vird til Skylldu þijna, Hvar þu kiemur i hvorium Stad, Heidran Skijrneñe syna, So herlega þier hegda þa, Par Heilog Preñing oll er hia, Med ædsta Eingla sijna.

Kiendu nu Brooder Bornum þijn, Og bid þau ad leggia i Miñe, So geymelega þau giæte sijn, Og gææ ad Virding siñe, Pau eru Christi Kongs Born hier, Kioreñ til Lijfs þess eilijft er; Par Lioosenu alldrei liñer.

Gief þad Fadereñ giæsku or, Gud fyrer Myskun þijna, Ad skilia villde skijrdur hvor, Um̃ Skijrnar Pryde sijna, Sie þier Lofed og Synenum med, Sañleiks Andanum Dyrdeñ tied, vill hier so vijsañ dvijna.

## Eiñ huggunarsamlegur Bænar Psalmur til Trwarstyrkingar i stoornm Mañraunum, Med Lag, Oviñañleg Borg er vor Gud.

HErra JEsu þitt heilagt Nafn, Af Hiarta eg nu ækalla, Er þier ad krapte eingeñ jafn, Alldrei kañ Stioorn þijn falla, Diofulsins Illskañ oll, Ætlar oss skadleg Foll, vier ottunst ei þau hoot, ertu þar Vorn a moot, ei ma þvi a oss halla.

Pitt volldnga Nafn er verndarhlijf, Vort Skiool fyrer hañs Reide, Po svelgia vilie Sæal og Lijf, Og Svika Noot fyrer oss breide, Og vort auma Holld, Auke Synda Giolld, Heimur herie a, Og hvad sem skielfa ma, Pijn Hond wr Hæska leider.

Vor Nattura er vond og spillt, Veykest i ollum Raunum, Herra þeim sem þu hefna villt, Hlytur sa Skom̃ ad Launum, Urræde eingeñ Mañs, Upphallda Sæmdum hañs, Helldur þitt Himlparræd, hvorium þu veiter Næd, Og Myskun þijn hlijfer honum.

Hætta er mest i Heime nu, Sa Heliar Vargureñ skiæde; Veit snart til Dooms ad vitiar þu, Vesnar hans olma Bræde, Grefur upp Galldra Ræd, Ef giæte hañ Lopt og Læd, Eitrad allt i señ, Eiñeñ Dyr og Meñ, Nema Giæskañ þijn þad græde.

Po Diofulsins Grimd sie gepse stoor, Grædge og Heipteñ bræda, Med hvorre hañ æder hart til vor, og hvorn eiñ vill forræda, Med eitrad illsku Tæl, Uppsvelgia Lijf og Sæal, Pu Jesu Christe kiær, Krapt hañs vel hindrad fær, þitt eitt Ord þvi kañ ræda:

Pvi vake nu upp þijn volldug Makt, Vor Striids Herrañ goode, Ord þitt fær Diosul underlagt, og afstyrt Syndafloode, þijn Christne kallar hætt, Klagar siñ veyka Mætt, eñ þijn osluga Hond, oll hefur leyst vor Bond, med dijrum Dauda og Bloode.

Af Hiarta bidium þig Herra kiær, hiaalp oss i þessum Voda, Utan þu siert oss avallt nær, Eingeñ Raad þar til stoda, Ad hepta Haaska nu, Hiaalpa þu veikre Trw, Allt til Enda-Dags, So ef þu kiæmer strax, Blessun villder oss boda.

Soñum Fodur vier syngium Lof, Syne og heilogum Anda, Guds Bornum virdest ei vid of, af instre Root þad ad vanda, fyrer Guds Astar Ord, sem er nu liost a Jord, þad eyder Myrkra Makt, Mun þvi Amen sagt, So verde þad epter vanda.

## Eirn Bænar Psalmur fyrer þa sem Hugveyker eru.

Med Lag, Konung David sem kiende:

HEyr þu mig Lækner Lyda, Lifande JEsu kiær, Eg klaga fyrer þier þañ Kvijda, Er Kremur mitt Hiartad nær, So ad mier Otta slær, Eg veykur maa valla lijda, Veistu þa Hugraun strijda, Af heñe mier hiaalpad fær.

Þu kieñer til miña Meina, Miuklaat er Giæskañ þijn, Og Hiartans Elskañ hreina, heitare nu til mijn, Þvi þu Polder Pijn, Lijknsamur laat mig Reyna, Lækning þo ecke seina, Sool epter Skwreñ skijn.

Reynder þu Freisne Fianda, Flecklaus og þunga Slægd, Fyrer Hiaastod Heilags Anda, Hañs Svik þa urdu lægd, Syn þu mier veykum Vægd, Þvi Hollded af heimskum Vanda, Hrædslu lætur sier granda, Dvijne þijn Naadar Nægd.

Fyrer þa Freistni gillda, Er fieckstu ad Reyna hier, Hafe þitt Hiartad millda, Heilnæma gaat a mier, Vesæll og aumur eg er, giet eg ei vijst þo villda, Sem være til mijn skyllda, Leitad mier Lids hia þier.

Eg fel mijna Saal og Siñe, Sæte JEsus af Trw, Med Huxun aa Hende þiñe, Hrædslu Svip fra mier snu, Og øllum Naudum nu, Faare og Freistne liñe, So Flærd eingeñ mig giñe, Hia mier dvel Herra þu.

Fyrer þijn Taar og Trega, Treyste eg JEsus miñ, Ad vernder þu Vollduglega, Mig veykañ Saudeñ þiñ, Piaadañ miog þetta siñ, Mig villa marga Vega, Meinvætter Satans jaga, Og færa i Freistne iñ.

Fyrer þa Teingd og Trygder, Ad tookstu Mañdoom a þig, Christe med Kiærleiks Dygder, Þu kieñer i Briooste uñ mig, Þijn Elska er Jñeleg, Græd mijnar Hiartans Hrygder, Hia mier reistu so Bygder, Leid mig a Lijfsens Veg.

Sie þier Lof sæte Fader, Sonur og Ande hreiñ, Sem Borneñ þijn øll Blessader, bæde ert Preñur og eirn, ei er Gud añar neiñ, Heimbode þijnu hrader, J Himnavist mig lader, So verde Vegureñ beiñ, Amen.

## Eiñ Psalmur med þad Lag, Eiñ Herra eg best.

HEyr þu nu Gud miñ goode, Hvors girner Hiartad mitt, Syngia med Psalma hlioode, Uñ sæta Nafned þitt, Hiaalpa mier Herrañ kiære, Hvorn Dageñ sijd og Ar, Orded Guds eg so lære, og akte þijn Verkeñ klaar.

Himen og Hnottur Jardar, Hafed þar allt uñ krijng, Setningur sierhvors Fiardar, Sool yfer Landa Hrijng, þiñ Almaatt øllum lysa, Og Eilijft Visku Raad, Eiñ

Gud

Gud eg vil priisa, Eñ med mier þijna Naad.

Maññ af molldar Leire, Mynd þiñe priidder þa, Mættur þiñ er þvi meire, Eñ meige þad nockur tia, Endurlausn Aumum sende, Elskañ þijn var so good, J Brioost um Kvol vora kiende, Christi oss grædde Blood.

Hier med Heilagañ Anda, J Hiortu Guds Barna send, Ad þau nu underskanda, Ord Guds sem verda kiend, Fyrer JEsum Christum kiæra, Christnena frædder so, Honum sie Heidur og Æra, Himne og Jordu a.

Vier þeckium þig nu Fader, Fyrer þesse Dyrdar Verk, Hroosum nu Hiarta Glader, Hond þijn er nooguꝛſterk, Og Sonur þiñ siaalfur leidde, A saña Lijfsins Braut, Hana til Himna greidde, þa hafde hañ uñed Praut.

Po hafe þær heidnu Piooder, Hiærgudum Trwnad a, Pa eru þeir ecke gooder, Og aumur er sierhvor sa, Sem fra þier Faderen sæte, Fellur i Villudoom, Eiñ sañur Gud mijn giæte, So gief eg þiñ alldrei Room.

Pad kañ eg ei full þacka, Pier miñ Fader og Gud, Saal mijn fieck sætt ad smacka, Sykur ilmande Naad, Pijna þusundfallda, Og þessa lærde List, Hreina Trwna ad hallda, A Herrañ JEsum Christ.

J Kiere brothættu bæde, Ber eg nu Dijrgrip þañ, Og saurugu so mier stæde, Synda ad graata Bañ, JEsus þitt Orded hreina, Er umbwd harla good, þu kieñer til miña Meina, Mun eg þvi hrinda Mood.

Piñ er eg Prælleñ veyke, Piaadur af Syndum hier, Siaadu til so ad ei feyke, sier hvor Vindblaastur mier, Af Muñe Mioolkurbarna, Muntu Lof hollast faa, Veslingunum villtu giarna, vera sem optast hia.

Halltu mier allt til Enda, J eiñre og hreinre Trw, J. Sælu Hofn laat mig lenda, Lofad hefur so þu, Sa Guds Ord geima villde, Gladur hier skildest vid, Sætlega sofna skylde, Siidar faa Lijf og Frid.

Sie þier Lof sæte Fader, Sonur og Ande hreiñ, Sem Borneñ þijn oll blessader, Bæde ert þreñur og eiñ, Laattu mig alldrei liña, Medañ Lijfed endest hier, Psalma saung ad iña, Siaalfum til Dijrdar þier, Amen.

## Eitn Jdranar Psalmur med þad Lag;

Mitt Hiarta hvar til hryggest þu,

Heyrdu miñ Gud mitt Hiartans Maal, Harla dopur mijn grætur Saal, þviad eg braut þijn Bod, Pijn Reide er grom og geyse braade, Goode Fader legdu mier Raad.

Hvert skal eg flyia so fiñe Skiool, Fagra ma eg ei lijta Sool, Mijn Synd er svivirdelig, Skiepnañ þijn oll nu skulldar mig, Skapare miñ eg moodgade þig.

J Helvijte er mier hvorge vært, Til Himnaña myklu sijdur fært, allstadar ertu Nær, Reidur og gramur sem mig sier, Syndgad hef eg a moote þier.

Son Guds JEsus svarade mier, Siertu mæddur þa komdu hier, Angrast þvi ei

osmiog, Miñ kiære Fader gaf kvittañ þig, Fyrer Kvølena þa hañ lagde a mig.
Siaa þu helldur nu Syndum vid, Saalu þiñe so kauper Frid, Set a mig saña Trw, Eg er þijn Borgun ordeñ nu, Ovøllt mun þier Hugguneñ sw.
Goode JEsu þu gladder mig, Giarnañ vil eg nu elska þig, Auk þu mier Andar Styrk, ad Lofgiørd verde liwf og merk, fyrer Lijknar Raad og Myskunar Verk.
Til Jdranar gief mier Anda þiñ, allañ styrker so Veykleik miñ, Angur mitt þockneſt þier, eirneigeñ Trwna auktu mier, og Umboot Lasta hvar sem eg er.
Lof sie þier JEsus Lækner trwr, leyst hefur þu mig Symdum wr, Fader og Ande hreiñ, Þu ert Gud bæde þreñur og eiñ, Þier ma ecke samlijkiast neiñ.

## Auñur Vijsa, med sama Lag.

HErra JEsu vor Hiaalparmañ, heidra laat mig Velgiørning þañ, af allre Ast og Trw, ad veyk Mañeskia villder þu, Verda boreñ af hreiñre Jungfrw.
Guddooms Elskañ þig þar til droo, þessar Teingder so under bio, Ad eitt Saad yrdum vier, og Oska Born til Arfs med þier, af øllum Heillum Raadeñ sw ber.
Eingeñ Twnga þad wtskyrt fær, Eingla nie Maña fyrr eda nær, Hvad mijkel er Myskun þijn, ad øll þu grædder Afbrot mijn, Eñ a þig lagder Daudans Pijn.
Hvørsu ma eg nu þacka þier, Þessa Elsku þu synder mier, Af Reideñe fieck eg Frid, Sie þier Lof mier synder lid, Og sætt hefur mig Fødureñ vid.
Hef eg i Pant þitt Holld og Blood, Herra þad er vor Fædañ good, J Braude og Vijne veitt, Naadar Jñsigle er þad eitt, Og añad Skijrneñ þridia ei neitt:
Testamentum þad nyia nu, Nefner Christneñ sem skeinkter þu, Heñe a Hrygdarstund, JEsus miñ i Astarmund, Fyrer Andlaat þitt af tryggvastre Lund.
Sacramentum sa Eidur er, Ad þu DRotteñ oss siaalfur sver, Ad hallda þijn Heiteñ good, Og leggur vid þitt Lijf og Blood, Ad lijkna og vægia Christeñe Þiood.
Eñ vier sverium i añañ Stad, Efna laat þu mig DRotteñ þad, Af allre Ast og Dygd, Vid Gud og Brædur bestu Trygd, Vel er ef reyneſt Fals eda Lygd.
Avi Avi miñ JEsu kiær, Angur og Treige mitt Hiartad slær, Eg rauf so opt miñ Eid, Fyrer þijna Pijnu og daprañ Deyd, Drag þu mig nu a Fridarens Leid.

## Ein Vijsa uñ Fæding JEsu Christi, og heñar Gagn

og Nytseme, Med Lag, Frelsareñ er oss fæddur nu.

HEyr þu Guds Son vor Hiaalparmañ, Hiarta mitt byriar Lofsaung þañ, Hvørn eg aan þijn ei enda kañ, Jñblaastur þiñ, Sem opt eg fiñ, Ørve mitt Siñ.
Gud og Madur hañ er saa eiñ, Alldrei vill fordæmeſt neiñ, Saa bæde er trwr og Hiarta hreiñ, Heiter JEsus, Til Hiaalpar fws, Vort heilla Lioos.
Velgiørning þañ eg villde nu, Virda af Ast og goodre Trw, Hañ fæddeſt Madur af Mariu Frw, Af Anda Guds, Gieteñ aan Sauds, Mañs Girndar Raads.
Høfud-Einglarner hallda eñ, Haatijd og Guds Utvalder Meñ, Syngia Lof af þvi aller señ, Gud giørdest Mañ, Heidrum vier hañ, Hvør best sem kañ.

Christnen fyrst nam Fognud þañ., Sem Fadereñ Naadar tiede, Ad Soneñ i Mañdoom sende hañ, Su er vor hæsta Glede, Sijdañ heidrast Hátijd nu, J Hæd ad fæder JEsum su, Ein Jomfrw klaar (vel komed nytt Ar) a Aare hvoriu Upphaf riett, Olldeñ helldur so er þad sett, J Heime hier, vel kom:

Fyrer lidna bid eg nu Ared oss, ædur Gude ad þacka, Med Trega Hugar og Hvarma Foss, Pa hæstu Ast ad smacka, Aumum Heime eilijf Naad, Til Eignar gaf þad Kveñmañs Saad, sem Christur var, Vel kom. samteingiande sig vid Piood, Su er nu Gæfañ harla good, Pad vitnum vier, vel komed nytt Ar.

Su Kieñing eñ hefur klaar þad Ar, J Kyrkiu Styrking feinged, Sem færde og lærde oss Lausnareñ vor, Til Lykta er slijkt vel geinged, Og þeir sem bera þad Lijfsins Lioos, Lifa med Giæfu eñ hia oss, Fyrer utañ Faar, v. K. og alla Heill med Orde hañs, A ysta vijst er Horne Lands, Sem hvor Mañ sier, vel komed nytt Ar.

Lijfed hefur Gud verndad vort, Fyrer Voda og Skadanum braada, Landed ad vanda groodrad giort, Og giefed oss Efling Daada, Sootter og Otta Synda Giallds, synt þo lint til Bæna halldz, So fordunst Faar, v. K. Kallad alla Christna Meñ, Kiært og skiært fyrer Teikneñ Tveñ, Ad siaae ad sier, vel kom:

Eg villde ad Mylldе og Myskun su, Vort Miñed og Siñed hrære, Gud hefur Vidlund gooda nu, Po Glæpa-Hroop hañ Sære, Eg meina ad reynest Reideñ grom, Riett fyrer þetta hefnesom, Ef samt til gaar, v. K. Pvi bid eg ad Ydran eflest hrein, So alldrei Gialld edur skadleg Mein oss skiedie hier. vel kom.

Laattu ORotteñ nyast nu, Naadugur Hlydne Maña, Fyrer Orded Dyrdar auk oss Trw, um Ydran bidium saña, Kieñemeñ og Christne halld, Kyrkiu styrk og Stioornarvald, So fordunst Faar, v. K. Stoolum Skolar bæder beint, Og Biskups Stietter vande hreint, Ad þocknast þier, vel komed.

Vor Kongur leinge lise med Frid, Lijka og Rijkis Prijde, Drottning hañs med Sæmdar Sid, So sem ad Vijsum hlijder, J Landed sendest hijngad hyr, Hofuds-Madur af Ættum dyr, Og Dygda klaar, v. K. So yfer hvorrar Syslu-Raad, Sæmdar-Meñ um allt vort Laad, vid halldest hier, vel. kom.

Logmeñ sig med Sooma Bloom, Sidunum goodum prijde, Vor fogru Log i fromañ Doom, fære og skyre Lyde; Synder vondar straffe strijtt, Eñ stydie vid Frañferde frijtt, So fare þad skaar, v. K. Peir og fleire Mektarmeñ, Med Guds Raade aller señ, Nu siaae ad sier, vel komed nytt:

Stande um Landed Stioornarmeñ, Sterker i Verke hreinu, med Raad og Daad og Roksemd eñ, Riett og sliett a einu, Otrw lioot og Osundar Græd, Eydest bæde Spott og Haad, Sem Drasl og Daar, v. K. So laung su hanger yfer oss oll, Ogneñ megn fyrer skadleg Foll, Nu hverfe hier, vel komed:

Piooneñ þioone hvor sem ein, Himna Fadereñ kiære, J Bwskap lijka Lyndis-hrein, Og lise sem froomum bære, So Bleßan þesse Bwed og Hiw, Bæte sæt sem

lofader þu, Og Luckañ klaar, v. k. Eirneñ Born og Vndermeñ, Med Æru lære aller señ, Ad þioona þier, vel komed.

Nefne eg giefna Nyaars Giøf, Af Naad oss ædur kienda, Ædra Gooda eg sungvañ hef, J Astar-Steink ad senda, JEsum kys eg aller vier, Eignunst fegner hvør med sier, Vm̃ Allder og Ar, v. k. Bæte ægiæta Blessan hañs, Bæde Giædeñ Sioos og Lands, Og allt hvad er, vel komed.

Kiendu ad enda Kvæded mier, Christe best og vanda, Flecklaus, Pock ad færa þier, Med Fodur og Helgum Anda, Mitt þu bætter Lucku Lag, og liest mjer flest allt snwast i Hag, vid Elle Ar, v. k. Þvi lykta eg Dikt med Lofgiørd eñ, Lise vid Giæfu Konur og Meñ, J Hwse hier, Vel komed nytt Ar, og vel komed er.

## Kvæde af Stallenum Christi, sem kallast Vøggu Kvæde.

Emanuel heiter hañ, HErrañ miñ eñ kiære, Med Viisna Søng eg Vøgguna þijna hrære.

Nootteñ var su ægiæt ein, J allre Verølldu Liooséd skein, Pad er nu Heimsens Prautar Mein, ad þeckia hañ ei sem bære. Med Viisna Søng eg Vøgg.

J Betlehem var þad Barned fætt, Sem best hefur Andar Saareñ grætt, so hafa Einglar um̃ þad rætt, sem Endurlausnareñ være, Med Viisnasaung:

Fiaarmeñ hreptu Føgnud þañ, Peir fundu bæde Gud og Mañ, J lægañ Stall var lagdur hañ, Po Lausnare heimsins være.

Lofed og Dyrd æ Himnum hætt, Honum med Einglum syngium þraatt, Fridur æ Jordu og feingeñ Saatt, Fagne þvi Meñ sem bære.

J Betlehem vil eg nu viikia þa, Vænañ Svein i Stalle siaa, med bædum Høndum honum ad nææ, hvar ad eg kiemst i Fære.

Betlehem kallast Kyrkiañ sviñ, Koreñ helld eg Stalleñ þiñ, Pvi hef eg mig þangad HErra miñ, So Heilrædeñ ad þier lære.

Upp wr Stallenum eg þig tek, Po Aundeñ mijn sie vid þig sek, Barns mun ecke Brædeñ frek, Bid eg þu ligg mier nærre.

Aurmum sætum eg þig vef, Astar-Koss eg Synenum gief, Hvad eg þig milldañ moodgad hef, minstu ei æ þad kiære.

Pier giøre eg ei Rwm med Grioot nie Trie, Giarnañ læt eg hitt i tie, Vil eg mitt Hiartad Vaggañ sie, Vertu nu hier miñ kiære.

Um̃bwd verdur eingeñ hier, Oñur eñ su þu færder mier, Hreina Trwna ad Høfdt þier, Fyrer hægañ Koddañ fære.

Eilijfs Guds mijns einka Son, under hañ breide eg stoduga Von, Hiartans vil eg en heita Boon, Ad hvijlu Bondeñ være.

A þig breidest Elskañ sæt, Af øllum Huga eg Synder græt, Fyrer Ydran verdur hun miwk og mæt, Midur eñ þier þo bære.

Af klaaru Hiarta kysse eg þig, Komdu sæll ad leysa mig, Fadmløg þijn eru fyselig, Frelsare

Frelsare miñ eñ kiære.

Vertu yfer og under hier, Emanuel fagna eg þier, A Bak og fyrer og i Briooste mier, og baadum Hlidum nærre.

Ver þu mitt ed veyka Briooſt, Fyrer Veralldar ſaarum Bræde-Pioost, Metnad deyd og mun þad liooſt, Ad mier er þijn Aſteñ kiærre.

Skapadu Hiartad hreint i mier, Til Herberges ſem ſoomer þier, Saurgan allre ſijdañ ver, So eg þier Gaafur fære.

Gulled hreint miñ Guds Son kiær, Gief eg þvi þu dvelſt mier nær, Þad er mijn Trweñ ſkygn og ſkiær, Skapareñ bid eg ad nære.

Eñ Reykelſed ilmar ſætt, Ofan aa Gulled þvi ſkal bætt, Bæneñ hrein þar hef eg uñ rædt, Hun villda eg þad være.

Myrrañ giorer ſo Meiſleñ klaar, Maa hun þvi heita Lækning ſaar, Rauner mijnar reikna eg faar, Riett þo ſtærre være.

Þo vil eg Myrrañ þetta ſie, Eg þacka af Aſt og fell aa Knie, Piñ Lijknar Kroſs mier lieſtu i tie, Þo lijde eg hañ ei ſem bære.

Mier er nu Anaud eingeñ ſaar, Þo opt eg felle Sorgar-Taar, Ollu linar þu JEſus klaar, Og ert mier ſiaalfur nærre.

Umſkier HErrañ Hiartad mitt, Og hrær þad ad geyma Orded þitt, Yferhwd Synda helld eg hitt, Sem hamlar ad eg þad lære.

Alla Limuna lækna þu, Loſt og Syndum fraa mier ſnw, Þitt ed ſæta Nafned nu, Mier Nytſemd alla ſære.

Þu heiter JEſus Heilleñ mijn, Hiaalpader mier fraa Daudans Pijn, J allre Neyd þa minſtu mijn, Og miwklega Endurnære.

Þo ſkielfe Synd eda Satañ mig, Sæte JEſus beide eg þig, Ad Heliar Ogneñ hrædeleg, J Hugarvijl ei mig fære.

Af voru Hollde Holld og Bein, Hiaalpareñ took fyrer utañ Mein, Ad Oſpilladre Guddooms Grein, So Gud og Madur hañ være.

Hañ kieñer i Briooſte uñ Brædur ſijn, Og biargar þeim fraa Synd og Pijn, J Daudans Neyd þa minſtu mijn, Og miwklega endurnære.

Þa Saaleñ ſkilur vid ſiwkañ Bwk, Sie þijn JEſus Lækning miwk, Eñ fyrer heñe upp þu liwk, Unadarſtadnum Kiære.

## Huggunar vijſur fyrer þa ſem ſyrgia epter Aſtmeñ ſijna.

HVorſem epter Aſtmañ þreyr, Og añañ þañ i Trwñe deyr, Huxe hañ fyrſt uñ HErra þañ, Er a Himnum byr og ſkapade Mañ, Hefur hañ Valld ad heimta hañ aptur i Himna Rañ.

J añare Grein þa huxa hier, Uñ hvorn þiñ Vin ſem laateñ er, Ad aadur var hañ Syndum Mæddur, Avallt ſijdañ i Heim var fæddur, Situr hañ nu hiaa ſiaalfum Drottne Sooma giæddur.

J Pridiu Grein er þvi so vart, Er þig ma hugga nockurn Part, Aller Meñ og eirneñ eg, Eigum ad ganga Daudans Veg, Øllum Christnum er su Stundeñ Æfeleg.

J fioordu Grein þu huxa hier, Um Heimeñ hvornen hañ breyter sier, Odum spillest mest sem ma, Pad meigum vier bæde heyra og siaa, Og er sa sæll sem soddañ Vodanum sofnar fraa.

J Fimtu Grein þig hugge hier, Pa Himeneñ lioost fyrer Augum sier, Pad er nu orded Heimile hañs, Piins Hiartagooda elsku Mañs, Hañ liidur ei Graat nie granded vont, nema gledst til sañs:

Helge Paulus huggar best, og hier til leider dæmeñ flest, hvorsu ad oliik er su Vist, sem eigum vier med siaalfum Christ, Hormung þeirre er hefur oss aadur i Heime gist.

J Upprisuñe er Huggun hæst, Hiartans Gledeñ og Virding stæst, Añars Heims þar Aundeñ miin, Aptur klædest Liikama siin, Ædre eñ Sool fyrer Augsyn Guds med Einglum skyn.

Forgeingelegt hid fyrsta Saad, Fellur i Jørd, so stendur skraad, Oforgeingelegt uppmun staa, So ongva Fyrning liida ma, Skiæru Hollde skrydest Aund sem Skripter tia.

J Heime er Mañsins Holldet þiaad, Hnyed ad Elle og misser Daad, añars Heims er ofslugt hreint, alldrei verdur ad nockru meint, Fognud sliikañ sæ eg þo ei med fullu greint.

Par næst seiger hañ saad i Molld, Saurgad Lostum mañlegt Holld, Pad verdur og riis upp Vegsamlegt, Vera kañ siidañ alldrei bleckt, Friidleik sañañ saaum vier alldrei fyrre þeckt.

Eñ pad sem verdur i veikleik saad, ad viisu hefur so Paulus tiaad, oflugt riis þad aptur a Fætur, allar fæ a sorgum Bætur, Dyrd og heidur Drottne syngium Daga sim Nætur.

Liikams Holld vier leggium nidur, Pad Liifs næringar þyrfte vidur, Andlegt verdur og Einglum liikt, Ecke hefur þad Fæde sliikt, Af Gledeñe sedst þvi Guddooms Naad so geingur riikt.

Hvor er saa ei vill huggast nu, Hvad vill syrgia Mañ og Frw, Eymdeñ vor er aa enda kliaad, Epter fylger Glede og Naad, Pockum Gude þad er oss meira Parfa Raad.

Hugga þu allra Hiortun tvist, HErra Gud fyrer JEsum Christ, Gief þu oss øllum Glede og Naad, Piñ Guddooms Anda og Hiaalpar Raad, Heilog Preñing heidrest bæde uñ Haudur og Laad.

## Añnur Huggunar Viisa, i moote Barna misser.

Se þitt Hiarta af Sorgum moodt, Þvi Sonureñ deyde þiñ so skiott, Hiartans Mooder hugge þig, Pad Heilagur Ande frædde mig, Sa Fødurnum þocknast, Flyter hañ mest aa Fund vid sig.

Pvi Æska hañs var ung og hrein, So ongvum giørde nockurt Mein, Betre eñ langur Elle-Alldur, Ef einatt verdur Synda valldur, J Hættu er saa sem hier vill bwa old Heimsins skvalldur:

Skapareñ þecker Skiepnu best, Pvi skiedur þad Herrans Børnum flest, A Daudans Tiima DRotteñ skiær, Daasamlega er þeim nær, So sem hañs Viskañ veit, ad

hvor mune vel til fær.

Vier siaum þad opt ad Sotteñ straung, a sum unn er bæde hørd og løng, so ofraun margur af þvi fær, eñ sa Gude er Hiartakiær, i Andartake er einu komeñ hñs Einglum nær.

Vite þad Gud ad veykest sa, Er vill hañ kalla Heime fra, Langa Soott ef lijdur hier, Lækner so med þetta fer, Þeim svipter allre Freistne fra, J Fylgd med sier.

Mørg Ogiæfa hender hier, i Heime þañ sem bleckstur er, fra þvi er nu frelstur sa hiñ frome Sveiñ, So ecke ma, Skaparans ædsta Skoola Børnum skiliast fraa.

Yckar styrke um̃ þad Trw, Edla Hioon sem grated nu, Huggareñ sa sem Hiørtun sier, J Himnenum þad mitt Andvarp er, Og giefe oss Naad þad Giæsku hañs alldrei gleymum vier, Amen.

## Kvæde um̃ þañ sijdasta Dag.

Tijmt er i Heimenum DRotteñ miñ, Deigenum tekur ad halla, Dagur fagur pryder Verolld alla.

Noogu þike mier Nootteñ løng, Nyañ vil eg þvi dikta Søng, Myrkvastofañ er Meisla þrøng, Maal er hiedañ ad kalla, Dagur fagur prijder Verølld alla.

Myrkur er noog i Heime hier, Hætt vid Slysum hvar Mañ fer, Lifande JEsus lystu mier, Og laattu mig ecke falla, Dagur fagur prijder Verolld alla.

Lientu mier þañ Luckuslag, Med Laane og vænum Raadahag, Ad athuga nieige eg þañ efsta Dag, Og a þitt Nafned kalla, Dagur f. p. V. a.

Þu hefur taled upp Teikneñ flest, Og trwleg Raadeñ giefed mier best, Komed er langt nu kyñest mest, Kieñingeñ Gudspialla, Dagur f. p. V. a.

Þitt hefur Ord um̃ allañ Heim, Adur fared um̃ Lønd og Geim, Su Heill er svipt fra Hierødum þeim, Og hijngad villdi falla, Dagur f. p. V. a.

Hiartagladur i Huganum mijn, HErra JEsu vænt eg þijn, Morgun-Stiarnañ skiært nu skijn, Skaparans Ord eg kalla, Dagur f. p. V. a.

Siaalf Riettlætis Sooleñ skiær, Med sijnum Liooma er hier nær, Þvi vil eg giarnañ Guds Son kiær, gladur til Foota falla, Dagur f. p. V. a.

Heimur og Satan hamla mier, Og Hollds Naatturañ spillt i sier, Miñ goode Jesu giet eg mig þier, giet eg mier raaded valla, Dagur f. p. V. a.

Mier er a øngu meire Lyst, Eñ mæte eg siaa þig nu sem fyrst, Og allt þad gott sem eg hefe mist, Aptur til mijn falla, Dagur f. p. V. a.

Miñ Lijkams Daude er sætur Svefn, Signadur JEsu heit þijn efn, a Ovinum mijnum øllum hefn Sem yfer mig vilia falla, Dagur f. p. V. a.

Vake mitt Hiarta a hvørre Stund, Og huxe um̃ þad med goodre Lund, Nær DRotteñ setur þañ dyrsta Fund; Til Doomsens lætur kalla, Dagur f. p. V. a.

Upp wr Grøfunum aller señ, Iller og gooder hrøckva Meñ, Hofud-Eingelsins Hlioodeñ þreñ, Og Herrans Lwdrar gialla, Dagur f. p. V. a.

Jordeñ forn og Fiølleñ haa, J feikna Loganum breña þa, Himnarner sem heyra ma,

Med hvellum Brestum falla, Dagur f.p.V.a.

Af instum Rootum eg þig bid, JEsum Christum Himna Smid, Hiaalpa oss þa veyk-
um vid, Eg vil þitt Nafn aakalla, Dagur. f. p. V. a.

JEsus kiemur med Eingla Sveit, Epter þvi sem Christneñ veit, Hañs mun Fylgd-
eñ fogur og teit, Fyrer sig Lydeñ kalla, Dagur f.p.V.a.

So sem Hirder Saude og Kid, Sundur skilur hañ giorvallt Lid, Goodum skipar a
Hægre Hlid, Heidureñ ma þad kalla, Dagur f.p. V.a.

Med soddañ Ordum seiger upp Doom, Sonureñ Guds med sniallañ Room, Ko-
me þier blessud Borneñ froom, bæde Konur og Kallar, Dagur f. p. V. a.

Eg var siaalfur i Heime hier, J hvorre Neyd þier sintud mier, Rijked mitt sem eilijft
er, Til Erfdar skal ydur falla, Dagur f.p. V. a.

Til Vinstre Handar vijkur hañ þa, Voda reidur Kongureñ sa, Bolvader þier mier
flyed fra, A Fiandans Heliar Palla, Dagur f. p. V. a.

Þvi hwngradur var eg bæde og ber, Biarga villdu þier ecke mier, J Baaled þad sem
eilijft er, Med Arunum skulu þier falla, Dagur f. p.V. a.

Hvor er nu þvilijk Hiartans Kvol, Sem hyxa um þeirra eilijft Bol, Fra Augsyn
Guds fyrer utañ Dvol, J oped Helvijte falla, Dagur f. p. V.a.

Um Allder varer þad eilijft Baal, Og eingeñ Vægd fyrer Lijf nie Saal, Þvi er oss
ollum meir eñ Maal, a Myskun Guds ad kalla, Dagur f. p. V. a.

Hiartans JEsus Heilleñ mijn, Harda leidstu Daudans Pijn, Bid eg þu styrer
Bornum þijn, Ad bæta Lijfsins Galla, Dagur f. p. V. a.

Sa hægre Handar Flockureñ fer, Fagur og skiær sem greine eg hier, Med Lausnar-
ans Hende leiddur er, Lijfs a Dyrdar Palla, Dagur f. p. V. a.

Eingeñ Twngañ telia ma, Tignar-Valld og Æruna þa, Sem wtvalder Meñ aller
fa, J Yndenu Himna Halla, Dagur f. p. V. a.

Fyrst þeir skijna fegre eñ Sool, Forgleymt mun þa Veralldar Hiool, Dyrd og Lof
fyrer DRottens Stool, Um Dagana syngium alla, Dagur f. p. V. a.

Auglit Guds þeir aller siaa, Ædsta kalla eg Sælu þa, Af Sætleik hañs þa Sadning
fa, Ad seigast ma þad valla, Dagur f. p. V. a.

Af þeirra Kiñum þurkar Taar, Þydleg DRottens Honden klaar, Þa mun horfeñ
Harmureñ saar, Vær hofum þa ongvañ Galla, Dagur f. p. V. a.

Þar er ei Synd nie Sorgar kvein, Sott edur nockur Daudans Mein, eilijf Glede
og Elskañ hrein, Ynde ma þad kalla, Dagur f. p. V. a.

Þu þecker Fodur og þijnar Mædur, Þar med allar Systur og Brædur, Vegles
þessu Vitskañ rædur, Vine og Frændur alla, Dagur f. p. V. a.

Hwngur og Þorste er horfeñ vijst, Hite og Kulde grandar sijst, Gudlegt Ynde ollum
bydst, So alldrei naaer ad falla, Dagur f. p. V. a.

Sæte Fader i Himna Hæd, Vid Hollded mitt eg ongvu ræd, Med Heilogum An-
da

da Hiartad fræd, um̃ Himna Gledena alla, Dagur f. p. V. a.

Alla Daga og eirneigeñ Nætur, Alundeñ mijn i Hollde grætur, Mig lángar til þijn Lausnareñ sætur, i Liooséd Himna Halla, Dagur f. p. V. a.

Gud miñ trwr fyrer Grædarans Und, Gief mier hæga Daudastund, So mætte eg þijnum fagna Fund, Fridar um̃ eilijfd alla, Dagur f. p. V. a.

Untu mier þeim Arfe ad naa, Æfenlega ad vera þier hiaa, So hvørn Dag meige eg þar huxa a, Hier skal Kvæded falla, Dagur fagur prijder Verølld alla.

## Samtal og Agreiningur Lijkamans og Saalareñar.

Jesus Guds hiñ sæte Son, Ad soñu er mijn Hiaalpar Von, Pad er mitt Traust og blijdleg Boon, Biargar þu mier i allre Raun.

Vil eg þier jaata Veikleik miñ, Verd eg þvi mæddur þetta siñ, Moot þrooa Hollds eg med mier siñ, Mijn Saal gyrnest þo Viliañ þiñ.

Olijker tveir i Sambwd sijn, Saal og Lijkame ad otlun mijn, Ef Otte Guds og Elskañ dvijn, eykur þad Saalu mestu Pijn.

Samtal hafa a hvørre Stund, Hvort vill hier fylgia siñe Lund, Hef eg þad fært i hroodrar fund, Hlyda bid eg til Meñ og Sprund.

Lijkameñ seiger mig laangar mest, Lifa a Jordu vid Glædeñ flest, Hafa ei Sorg nie Heilsubrest, Ef Herrañ giæfe mier leinge Frest.

Saaleñ telur þad sijna Lyst, Vid Sællijfe skiliast allt sem fyrst, Lif eg i Hollde laun- gum tvist, Laangar mig þraatt i Himna Vist.

Lijkameñ seiger mig laangar til, A Leika Dansa Tafl og Spil, Ol og Sælgiæte eg þad skil, Ollum Moñum sie hellst i Vil.

Saaleñ mæler þad særer mig, Sællijfe allt sem tæler þig, Duleñ og heimskur hv- dr um̃ sig, Hrædest ei þetta Glæpa-Stig.

Lijkameñ seiger mitt Lijf er ungt, Lysting rædur i þeñañ Punt, Fleirum mun Raad þitt falla þwngt, Fyrr eñ Elle þa speñer þraungt.

Saaleñ mæler þu siaa þar vid, Saa fieck opt lijted Heliar Bid, Sem reid so stollt med reisugt Lid, Ratade snøgt a Daudans Hlid.

Lijkameñ seiger mijn Lucka trw, Lætur mig nioota Yndes nu, Græda verd eg og bæta Bw, Blessan Guds heiter Audlegd su.

Saaleñ mæler þu safnar þa, Synu bestur mun Grooduren̄ saa, Orded Guds med- añ þvi mattu naa, Milldañ Gud laat fyrer Audlegd siaa.

Lijkameñ seiger eg lære hitt, J Lijfe ad stunda Gagned mitt, Ongu sijdur eñ ad- rer sitt, Jñtektalaust er Raaded þitt.

Saaleñ mæler þu seirna fær, Sañreynt ad Gyde er eingeñ kiær, A hañs Ord sem hier Hafnan slær, Po hafe hañ Aud sem Kongur nær.

Lijkameñ seiger þo Girndar Grein, Giøre mier leinge nockurt Mein, Pa veit eg ad eingeñ Ydran hrein, Ofmiøg verdur i Lijfe sein.

Saal-

Saaleñ mæler eg sagda þier, Ad sviplega margra Andlaat skier, Hvart Dauðeñ ad ollum fer, Ydran sein flestum brigdul er.

Lijkameñ seiger mijn Lund er treg, Ad lijta aa Raad þijn hyggeleg, Fleire Meñ hafa þo fyrr eñ eg, Fared þañ Holldsins Girndar Veg.

Saaleñ mæler þad svijkur nu, Sierhvørn Mañ sem ræder þu, Alþydu Dæmeñ ecke trw, Illa reyneft þier Verndeñ su.

Lijkameñ seiger eg meina Meñ, Þa merkeleguftu fyrr og eñ, Davids Kongs veit eg Dæmeñ Tveñ, Og DRottens Þolgiæde allt i Señ.

Saaleñ mæler þu þyrfter þa, Ef Þolgiæde Guds villt miñaft aa, Ad Yferboot Davids eirneñ gaa, Og vid Reideñe meir ad siaa.

Lijkameñ seiger so lijdur mig, Lijknsamur Gud sem hvørn uñ sig, Reynt hef eg opt aa Reidesvig, Reideñ Guds er miøg stødvanleg.

Saaleñ mæler allt er þad riett, Ostraust leikur þo morgum Þrett, Reide DRottens þad færdu friett, Fellur syndugum ecke liett.

Lijkameñ svarar þu sagder nu, A syndugum hefne Reideñ su, Set eg aa Gud miñ saña Trw, Syndlausañ fiñur øngvañ þu.

Syndlauser reiknast Saaleñ tier, Sañlega þeir sem ydrast hier, Fylgia Trwñe sem Froomum ber, Og Forþienan Christi eigna sier.

Lijkameñ seiger eg leita til, Lærdoom þeñañ og ecke skil, mier være þad þo mest i Vil, Ad meire feinge eg aa þvi Skil.

Saaleñ mæler ef Sorg og Neyd, Særde þig opt uñ þetta Skeid, Holldsins yrde þier Lysting leid, Og liete þig vekia Skijrnar Eid.

Lijkameñ seiger ad Løgmaal slijkt, I Limunum bygge harla rijkt, Þad verdur þier alldrei Lyndis lijkt, Þo leinge telier mier þeñañ Dickt.

Saaleñ mæler eg sie þa Raad, Ad setia allt aa DRotteñs Naad, Giefa mun hañ þier Giæsku Saad, So gieter uñ sijder ad þier gaad.

Þañeñ lyktar nu þetta Siñ, Þesse Bardage eg med mier fiñ, Auktu mier Trwna JEsus miñ, Og Krapt ad stunda Viliañ þiñ, Amen.

## Kvæde af Rahab, Josue 2.

MIg girner þraatt ad glepia Hroop og Eida, Eñ gamna þeim uñ ædre Skemtan beida, Og Guds Bornum giora mun ongvañ Leida, I Grædarans Bruñe er lifanda Vatn til reida.

Biblia er saa Bruñureñ Spektar Greina, sem best maa heita Lækning Saalar Meina, Vil eg uñ Rahab Vijsu stofna eina, Og vekia af Svefne gooda Læresveina.

Þad Æfentyr skal ollum þeim til gooda, Sem Ast og Hlijdne vilia DRottne bioода, Gud forsmaar ei Giæsku neinra Þioda, Af goodre Trw hañ huggar Sorgar mooda.

Þa Josua styrde epter Mosis Dauda, Israels Lyd sem foor uñ Hafed Rauda, Yfer Jordan komst so kiende ongra Nauda, aa Canaans Land, þad Heidna giørde blauda.

Jericho

Jericho hiet þar einhvör Borg i Lande, Er Josua skyllde viña fyrst med Brande, Tvo Meñ sende aa Niosn þar nærverande, J nefndañ Stad þa Rahab firte Grande.
Þeir Niosnar-Meñ sem nu var greint i Ode, Naadu Bygd hiaa þessu heidna Fliode, Su Lausa-Kona þeim lagde Raad i Hlioode, Af lifande Trw þvi veitteſt heñe Goode.
A Hwsaþakenu i Haalme baada falde, Heidurs Meñ og þañeñ fyrer þeim dvalde, Birter ad Ædra Borgar-Lijdeñ kvalde, Bleyde og Hrædslu allra þeirra talde.
Stadarens Meñ þa Stundu sijdar ad leita, Og strax ad Bragde Epterforena veita, Og komu i Hws þar Kviñañ byr hin teita, Su komumaña Parviſt giører ad neita.
Þeir komu hier iñ i Kvölld ad Vijfed sagde, þa kiende eg ei nie Grand til þeirra lagde, Geingu i burtu greitt ad skomu Bragde, Yfer Giesta siña Erinde beſt hun þagde.
Þeir sem leita þadañ i burtu gaanga, þar næſt vijkur aptur Lindeñ Spanga, Til Niosnarmaña nu med Rædu laanga, Nockur Laun vill fyrer siñ Dugnad faanga.
Rahab talar af Riettum Spektar Bruñe, Nokſamlega fyrer sier mæla kuñe, Hun bidur þeir Fridar og Frelsis heñe uñe, Og Folke sijnu riett af Hiartans Gruñe.
Veit eg seiger hun vora Borg og Lyde, Viñe þier til Gruns med hördu Strijde, Af ydur stendur Ogn og Hrædslu Kvijde, Jsraels Gud hefur verndad ydur med Prijde.
Hafed og Jordan hañ liet burtu þorna, Hrædeleg Undur Pharao beid til Forna, Konga uñud kaska og tijgeñ-borna, Þvi kvelur oss Ædra bæde Kvölld og Mörna.
Þvi lætur hun Sveina lofa med svarna Eida, Lijfs og Fridar vill sier af þeim beida, Þa Josua lætur allt i Stadnum deyda, wt skulu þid mitt giörvallt Hyſked leida.
Þessu jaata þeir og Eidum festa, Ad þad skule ecke heñe þurfa ad bresta, Ef i þitt Hws kallar þijna Ættmeñ flesta, Og þar med leyner einka Maalum Giesta.
Hun rende þeim med raudre af Mwrnum Feste, Og rædde so vid Niosnar-Meñ ad leste, Feleſt þid uppi Fiallſins Hlijd med Neste, Fioora Daga so Epterleiteñ breste.
Þeir skilia til ad skule su Festeñ rauda, þeim skiallegt Teikn so þar mætte ecke um trauda, Ellegar være hun volld af siaalfs sijns Dauda, Villdu þo hun kiende ongra Nauda.
Þeir hafa þau Raad sem lagde hin liwfa Kviña, Ad lidnum Tijma Josua aptur fiña, Heit Ord sijn og heñar Spaaſogn iña, Hañ mune Borg og Landed giörvallt viña.
Hertugeñ baud med Hiarta-Prijde saña, Ad hallda Trygder vel vid liwfañ Svaña, Herlid byr þa heim til Borgar Maña, Hañ mun DRottens Fullting meira kaña.
Sio Daga liet hañ Lwdra Drotteñs þeyta, so Lijmed rañ ur Mwr sem Vatned heita, og aller Mwrar ofañ ad Jordu leita, Fyrer Almaatt Guds sem þvilijkt kañ ad veita.
Jericho Borg var öll i Drotteñs Bañe, so Josua hlijfde ongvum lifande Mañe, nema ut var leiddur aadur-greindur Svañe, med Ættfolk sitt þad hafde hun luckt i Rañe.
Þesse Rahab mæt aa margar Lunder, Med Guds Folke lifde allar Stunder, Þar til hittaſt holler Blijdu Funder, Heilagur Andebioo þad giörvallt under.
Salma nefneſt Sæmda Madureñ gilde, Er Son gat eiñ vid liwfre Meniahillde, þañ Boas hiet i beſtu Herra Gillde, Og bæde er leyfdur af Hiartans Dygd og Millde.

Boas feste Ruth so reynda Brwde, Rijka ad Dygd, Eñ snauda ad Gulle og Skrwde, Gat vid heñe Giæfumaduren prwde, Eiñ gøfugaň Son, þaň Drottne allvel trwde.

Sa Arfe haňs var Obed Fader ad Jessa, Ettkvijsl fær ei neina ædre eñ þessa, Huň dregst til Christs sem diktar Skaallded Vessa, Drotteñ giøre oss sara allvel hressa.

Nu vara eg Lijd vid liootu Fiandans Raade, Sem Lærdom þeñaň blandar soddaň Haade, Fyrst Christur sialfur er komeñ af slijku Saade, Ad Kveňa Girnd Oleysda fyrer þad naade.

Margur diarfur Dareñ þetta mæler, Og dugande Meñ saavijsa þar med tæler, Hordom frømdu Høfudfedurner sæler, Og hreptu Gietnad hvørium Skripteñ hæler.

Eg meina ad þesser meir eñ illa þyde, Þa miklu Naad sem Græðareñ veitte Lyde, JEsus kys ad aller til sijn flyde, Yferboot riettre giører haň mesta Prijde.

Þvi skylldum aller skamast illra Giørda, Og skoda þa Smaan sem tapader lijda verda, Vid Yferboot rietta Ord Guds Trwna herda, Fyrer Aurvænting haňs Myskun ecke skierda.

Gud hefur opt af Glæpa Maňa Saade, Gøfuga Meň framleitt sem Vijsaň tiaade, so ad hiñ aume sem þar riett ad gaade, Siaae þess Naad sem Himnum rædur og Laade.

Eñ Synd maa øngva sialfur DRotteñ hylla, Svijke oss alldrei þvilijk Skamar Villa, Frelsaraň bid eg Fodursins Reide ad stilla, Fyrerlaat þu mier allt hvad giørde eg illa.

Fodur og Syne og frægstum helgum Anda, Fyrr og sijd sie Lofgiørd allra Handa, Rahabs Kvæde ritad maa þaňeň standa, ræde frooder Læged ad gømlum Vanda, Am.

## Kvæde af Naaman Syrlendska, 4. Reg. 5.

Hlijde þeir sem henda Gaman ad Kvædum, Og hafna vilia ødrum verre Rædum, Þo optast hafe eg Obreitt Lag, Jdia mijn er sierhvørn Dag, ad dikta Brag, Af helgu Letre høfum vier besta Ræme, Og heilnæm Epterdæme.

Naaman skal hier nefna Herraň gooda, Er nytum þiente Herra Syrlands Þiooda, Lijkþraar var og heideň haň, Hafde þo saa gøfuge Maň, eitt mektugt Raň, Haňs Frw þiente Herleidd Mey wr Strijde, høfd fraa Gydinga Lyde.

Mællte þesse Mey vid Hwsfrw sijna, Af mijnum Herra hvyrfe saarleg Pijna, Med vorre Þiood ef være haň, Eg veit þar eiň þaň Guds Spaamaň, Sem græda kaň, Naaman kynte Konge þessa Rædu, Haň kys ad lietta Mædu.

Hreppte Naaman Heidur af vænum Tiggia, Þvi Hesd og Ertu maklegur var ad þyggia, Þvi Hers-Høfdinge haň var giegn, Og hafde fyrer sijn Raad og Megn, so foor af Fregn, J Syrlande þaň Sigureñ besta uñed, su hefur Fregn utruñed.

Audling vill med allre Dygd til leita, Ef Jsraels Kongur ma þa Lækning veita, Skiootleg lætur skrifa so Brief, Skiolldung laat fyrer utaň ef, Og ecke tef, Þaň tiwsa Maň af Lijkþraa siñe græda, Letred fra eg so ræda.

Høfdingeñ sig heimaň bioo med prijde, Hafande med sier Aud og valda Lyde, Gull og

og Silfur og Gangvara med, Giefa vill fier til Læknis Fied, Sem fyrr var tied, Is- raels HErrañ hitte bratt ad Bragde, Og Briefed i Hond hañs lagde.

Þa Sikling les og fier hvar Briefed uñræder, J sundur fleit og reif hañ af fier Klæ- de, Er eg þa sialfur sagde hañ, Sa Gud riett sem lesta kañ, Og lijfga Mañ, Af Lijkþraa bidur mig Lækna þeñañ HErra, Eñ leitar einhvors verra.

Eliseus þa Audling Breitne kiende, Ord til hañs aa þañ veg strax ad sende, Laat til mijn þañ Lijkþraa Mañ, Lækna skal eg ad heilu hañ, Sem kioosa kañ, So aller vite ad eñ er Spaadoms Ande, Med oss aa Gydinga Lande.

Hier næst kom saa Hertuge Syrlands Piooda, Heim i Port til Spaamañs þess hins gooda, Eliseus liet seigia so, Sig skule hañ i Jordan Pvo, Um Tijma tvo, Sio- siñum og Siwkdoom missa þeña, Eñ Saarleik aungvañ kieña:

Hañ reiddest vid sem ritad er hert i Letre, Riett er seiger-hañ Jordan ecke betre, Helldur eñ Votn aa vorre Laad, Vonade uppa Læknings Raad, Med Dygd og daad, Ad Hendur munde hañ hafa ad vijnu Lijfe, Og hiaalpa af Soottar-Kijfe.

Naaman bystur burtu snyr med Reide, Baadu Sveinar slijkt hañ gior hugleide, Po Spaamañ sette þyngre Praut, Pa her ecke Hisrva Gaut, Ad hallda aa braut, Af Pvotte fær þu Pvijngan aungva strijda, Og þessu villde hañ hlijda.

Sijdañ þvær sig Sæmdarmadureñ goode, Siosiñum i Ar Jordanar Floode, Hañs Lijkame vard heill og skiær, Hreiñ sem Barn þad nyfædt er, So Naaman fer, Aptur aa Leid til Eliseus ad bragde, Med Audmykt þacker sagde.

Bidur hañ þa ad þiggia Peninga sijna, Pad byd eg fyrer Heilsugiøfena mijna, Spaamañ neitar ollum Aud, Og ei vill neitt þad Herrañ baud, Nema Gøfge Gud, Torf wr Jordu tveggia Mwla Byrde, Trw eg hañ burtu færde.

Tilgang siñ uñ Torf þad flytur ur Lande, tiaaer hañ þa af Ast og Trw fagnande, Is- raels Gud þvi eirn er sa, einka DRotteñ Himnum a, Sem hiaalpa maa, Eitt Alltare vil eg mier af þvi Torfe vanda, Par opt a Bænum standa.

Þa Syrlands Kongur siñ Gud vill tilbidia, So er þvi vart eg neydist hañ ad stydia, J Remons Hws hañ hvorn Dag fer, Himna Gud forlaate mier, þad Oriett er, J Go- dahofenu giøre eg þa frañ ad falla, Hañs Guddooms Nafn aakalla.

Guds Spaamadur gaf honum Blessan væna, J goodum Fride ad niioota hreiñra Bæna, Hañ dro med sijna Sveit af Stad, Seigia skal nu fraa Gezi hvad, Hañ hafd- est Ad, Agirnd took hañ iñarlegana ad reita, Epter forena veita.

Kveiktest af þvi Kvijde og Briooste þiaade, Ad Klæde og Gull hañs Herra allt for- smaade, Hañ skundar þvi sem skiootast maa, Skrum og Lyge diktar þa, Sem heyra maa, Sagdest vera sendur af Spaamans Hende, Og so fraa Stadnum vende:

Reis wr Kierru Rausnar-Madureñ hreine, rijkur og fagnar DRottens Spaama- ñs Sveine, Spyr hvort hef eg hagad mier lijtt, Eda hvort er Brooder Erended þitt, a Mooted mitt, Hañ sagdest vera sendur og þo med skunda, Snart til Herrans funda.

Til mijns Herra tveir Meñ sender voru, Tigner Spaamañs Nidiar þa þier fóorud, Þvi bad hañ ydur ad bijta sier, Af Blessun þeirre er færdu þier, og hafed nu hier, Gull⸗stycke og good Haatijda Klæde, So giefa hañ þeim þad næde.

Tveñañ Klædnad Tignar⸗Madureñ sviñe, Took þañ hesta er hafde i Eigu siñe, Og Gull⸗Stycke eiñ veg tveñ, Ædstu velur nu Fylgdar Meñ, Af Flocke eñ, Hnosser þess⸗ar heim ad bera ad Nañe, Med hoskum Sendemañ.

Gezi kvedur nu gofugañ Herrañ þeña, Og giorer so Heim med þesse Plógg ad reña, Aptur sende Sveina þa, Sijdañ geimest feingureñ saa, Eg sagda frá, Fyrer Eliseum iñgieck skiott ad bragde, Og ecke grand til lagde.

Spaamadureñ ried spyria hvort hañ fære, Þvi spektar Ande fra eg ad med hönum være, Gezi seiger heima hier, J Herbergium so nærre þier, Eg þiente mier, Sagde Vijser sa eg hvar ein var Kierra, Þar sidugur stood upp Herra.

Þu hefur Gezi giort hvad ecke hæfer, Giallda skalltu þess um langa Æfe, Agyrnd hefur þier aflad Fiaa, Af þvi skalltu verda saa, Ogso Lijkþraa, Sem Naaman var og Nidiar þijner lijka, Nu fyrer Ofdyrfd slijka.

Spaamañs Ord tru eg Spektar Anda kieñe, Sprack þvi Lijkþraa wt i Sveinsins Eñe, Gezi vard so geyse saar, Gieck hañ wt og var Lijkþraar, Og leinge saar, Þau fer⸗leg Dæme færum oss til Boota, Og fordunst Hrecke liota.

Af Naaman være oss nytsamt hellst ad læra, Hvad næsta froom og dyrleg er su Æra, Ad vera snueñ fraa heidnum hag, Eñ heidra Skaparañ Naatt sem Dag, Fyrer Luck⸗lag, þvi vier erum komner Hunds fra heidnum Þiodum, i Hird med Koonge goodum.

Guds Ords krapteñ giorla maa hier skilia, Þvi Græding veittest epter DRottins Vilia, Vatned i Jordan vañ þad ei, Vissélega seige eg þar til nei, Þad gamla Grey, Synd og Lijkþraa, Samt hvær Skyrneñ hreina, Fyrer sagdañ Krapt alleina.

Gezi reikar Glotunar⸗Stijgeñ illa, gieck þvi yfer hañ bæde Skom og Villa, Þvilijk Dæme fordunst freckt, Þau færa yfer oss bæde Sekt, og Siñed blekt, Fra Lyge og A⸗girnd laat oss DRotteñ venda, Eñ Lucku og Blessan henda.

Heilog Þreñing hafe nu Lofed saña, Hwn bid eg styrke Trw Christeña Maña, Og soddañ Lækning sende mier, Sem nu strax umrædd u vier, J Hroodre hier, Mijna Lijk⸗þraa mattu JEsus græda, Mun hier Ender Kvæda.

## Eitt Kvæde af Draum og Syn Kongsins

J Babylon, Daniel. 2.

Daniel fieck i Draume Vitran kienda, Hvorneñ gaanga Heimenum mun til Enda.

Kongur fraa eg sialfur sa, Syn þa eingeñ raada maa, Hönum var horfeñ Hugañum fraa, Himna Gud liet birtast þa, hvorneñ gaanga.

Daniel sa sem DRottne añ, Draumeñ veit og skyra kañ, Veitte Gud hönum Vijsdoom þañ, Vel hefur spaad saa goode Mañ, hvorneñ gaanga.

Haatt

Hvatt Lijkneske hafde hañ dreimt, Høfuded var med Gulled hreint, Brioost og Hendur giørla greint, Af goodu Sylfre so var meint, hvorneñ ganga.
Kvidur og Lendar Messing mest, Mun þvi fylgia Ogneñ flest, J Jarnfootleggium Afl er best, Eirneñ Leir þo blandast vest, hart mun.
Epter þad sa Audling hreiñ, Ad aan Mañs Handa nockur Steiñ, Broteñ var af þvi Biarge eirn, Braut þad allt, Og vard ei seirn, hart mun.
Jarned Leyr og Messing med, Molade allt sem Feyske=Tried, Silfur og Gull sem so var skied, Sijdañ kvadst þad ei hafa sied, hart mun.
Sa litle Steirn sem lyser spiall, Loksens vard hid hæsta Fiall, Pad maattu ei hræra Meñ nie Troll, myklu stærre eñ Verollden oll, hvorneñ ganga Heimenum mun til Enda.
Daniel ried so Ræsers syn, Rijkis Stioorn þad merker þijn, Epter þiñ Dag þver og dvijn, Eñ þu sem Gull hia Eyre skijn, hvorneñ ganga.
Høfud med Gull er Heidureñ þiñ, Og Herradoomur þetta siñ, Eñ Silfred hvijtt a Sañleik miñ, sijdare Stioorn eg merkia fiñ, hvorneñ ganga.
Messing þyder þridia Valld, Pad vier kollum Rijkis=halld, Pvi Kongur hvor þo heimte Gialld, Hnignar þo vid Staala hiald, hvorneñ.
Fætur Jarns i fioorda Stad, Frabært Rijke merker þad, Orcku sterkt vid eitt og hvad, allt i sundur brytur þad, hvorneñ.
Eñ sem Leir af ongvum Smid, Jarned kañ ad blandast vid, So mun þad Rijke og Riddara Lid, Reyndar hafa olijkañ Sid, hvorneñ.
Eñ sa Steirn sem allt bad braut, Er sw Raad af Himnum flaut, Sa Hiaalpareñ leyser hvoria Praut, Heimureñ þess uñ sijder naut, hvorneñ.
Eilijft Rijke eg mun tia; Upp skal reisast Jordu a, Himna Kongur Herrañ sa Heimsins Makt ad situr þa, hvorneñ.
Daniel þyder þañiñ hier, Peñañ Draum sem Fræded tier, Pañ Vijsdoom ecke eignar sier, eilijfur Gud þad birte mier, Herrañ Christur hefur sitt Vald til Enda.

## Susõñu Kvæde.

Himna Smid eg hædstañ bid ad hiaalpa mier, So elske eg Dygd, Eñ ongva Lygd, Uñ Æsena hier, Og heilaga Skript eg skilie giør, Skapareñ miñ til Vegsemdar þier.
Mier byr i Lund uñ Baugagrund ad byria Od, Lyndishreina hana ma greina, Heilla Fliood, Hun leid og beid af Lygunum mood, Eñ Lykteñ vard a fogur og good.
J Babylon þau biuggu Hioon sem birte eg fra, Froom og Rijk so særre slijk ad fiña ma, Josn ad Trw og Jatning þa, Joachim hiet og Susaña.
Gudhrædd blijd og furdu frijd var Fallda=rein, Pvi Fader og Mooder mentudu Fliood, a Maaleñ hrein, Æru rijk a alla Grein, Til ongra voru þau Dygdaña sein.
Joachim sa sem int var fra, hefur Aura nægd, Metord good af mætre Piood og mykla Frægd; A ollu høfdu Hiooneñ Hægd, Hotudu bæde Svikeñ og Slægd.

So var virtur False firtur eñ froome Mañ, ad Judar Lands sig hafa til hañs i her-legt Rañ, Uñ Vandamaal sem verda kañ, Þeir villdu sækia ad Raadunum hañ.
Wijngard ætte og af honum mætte Avoxt fa, æfastañ vid ægiætt Rañ sem iñt er fra, Þeir Doomendur þangad gaa, Sem þañ Tijd ættu ad Logunum siaa.
Aulldungs Vallde ættu ad hallda Yfermeñ Tveir, Dæma Þiood þad lysa Liood hvad lieku þeir, J sagdañ Stad so soktu þvi meir, Selldu Gull eñ tooku vid Eir.
Uñ Domara þa sem dickta eg fraa, Hefur DRotteñ spaad, Allt Raanglæte ad þeir giæte eftt æ Laad, Eñ Riettlætis alldrei gaad, ævallt stunde Svikeñ og Haad.
Sijna Doma so skal rooma, Setia þraatt, J Joachims Garde, So ecke vard þeim Afla faatt, Þaangad kalla Þegna bræatt, Sem þeir hafa hellst vid Sakernar ætt.
Sierhvorn Dag var soddañ Plag, hiaa Seimanaa, Hun vijkur uñ Stund hia væn-um Lund i Wijngard þa, Er Þijngenu geingur Folked fraa, Falsararner þetta siaa.
Þesser breña bæder señ af blindre Ast, Vm HErrans Ord og Hefndar Giord, Ei hirda ad siaast, ad Himna Þrijde hvorge dæast, Heimsker Pussar Girndunum liæast.
Hvor af þeim liest hafa sig heim eñ hinkrar meir, Fiñast ad i odrum Stad þa aptur þeir, Kiemur þar Lox þeir kieñast Tveir, Þa kvelie Girnd fyrer Hrijnga Eir.
Binda Raad ad drygia Odaad, vid dyra Snoot, Bæder naa og fleckad faa med falsk-leg Hoot, So meige þar eingeñ mæla æ moot, Miog voru þeirra Samtokeñ lioot.
Einhvorn Dag med Lymskulag, þeir lædast iñ, Þar Selian Landa vijkur ad Vanda i Wijngard siñ, Med Þernur Tvær i þetta Siñ, ad þiggia Laug sem Morguneñ hiñ.
Laun-Dyr einar glogt ad greina, J Gardeñ laa, Þernur sende Sæmdar Kvende Sapu ad faa, Svikarar hlaupa Hrijngþoll æ, Hun maa ei vid Brogdunum siaa.
Þeir hefia Tal sem herma skal, Vid Hrijnganaa, Asteñ þijn giorer ockur Þijn, Og ærna Þraa, Bædum ockur Blijdu liaa, Þvi byrgd er Hurdeñ Gardenum æ.
Eñ ef þu neitar ockur ad veita, Yndis-Hoot, vid skulum bæder Bryxl og Haad þier bera æ moot, Ad syndgast hafer med Seimabrioot, Þu sier þa fyrer þijn Afdrifeñ lioot.
Susanna med saara Þraa og Sorgar Kvein, uñ Kosti Tvo hun talade so, su Tviña Rein, Þo dæme þier mier Daudans Mein, Fyrer DRottne skal eg af Syndeñe hrein.
Hroopar nu hin hoska Frw so heyra maa, Þesser Tveir þo myklu meir af Megne þa, Añar Dyrunum upp nam slaa, Vt i Gardeñ Folked ried gaa.
Þienarar heñar þaangad reña þegar j Stad, Svikarar birta Blessan firter, Bryxl-ed þad, sem heñe komed er Hondum ad, Hlioodnar Folk sem Odureñ kvad.
Þvi alldrei sañ med froomum Svaña Fleckun þa, Nockur Mañ so mætte heñe, Mijnkum faa, Heñar Vine þad hryggia maa, Ef Hoordoms Sokeñ er falleñ uppaa.
Añañ Dag sem ædur er Plag, ad Joachims-By, Þeir hallda Moot, Vm mæta Snoot og Marleñ ny, Svikarar ecke seinka þvi, Svañañ vefia Lygunum i.
Þeir kalla bræatt æ Kyrtlagætt, So kiemur hun þar, Ættfoolk heñar allt i Señ, Þa Angur bar, Þiiodeñ af Harme þrwngeñ var, Þegar sem heyrde Aulldungaña Svar.

And-

Andllt byrgde og Odum ſyrgde Audarnaa, Þeir vondu Meñ, Þvi villdu heñar Vænleik ſiaa, Stoodu upp ſem iñt er fraa, A hana løgdu Hendurnar þa.
Þeir villdu bæder Vægd og Naader, viiſt forſmaa, So Meñþoll frooma, Dauda Doomur dytte aa, Eñ hun trwer og treyſter aa, Tijgeñ Gud ſem Riettindeñ ſaa.
Vid geingum Tveir ſo greindu þeir, J Garde þeim, Þorna-Niſt kom þangad fyrſt med Þernum Tveim, hun liet þær fara um Laundyr heim, luckte Gard og dvalde þar ein.
Eiñ ungur Madur geyſe gladur gieck þar til, wr leyndum Stad, vid litum aa þad, ad Laukabil, Hañ framde øll þau Yndisſkil, Sem Elſkuganum hagade i Vil.
Vid geingum ad ur ødrum Stad, med Ætlun þa, Þañ unga Mañ ad høndla hañ, Vid hugdum naa, Yferſterkare var ockur ſaa, Hañ opnar Dyr og ſtrykur þar fraa.
Falldalaad vid feingum naad, Og friett i Stad, Hvør ſaa være heñar kiære, Hun hulde þad, Vid erum bæder Vallded kvad, Vottar þeſſu Brotenu ad.
Valldsmeñ þeir ſem voru nu Tveir, Þad virdeſt Lyd, Sem votte riett, Þvi ſo er aaſett, Vm Seimahliid, Daudans Hørmung hørd og ſtriid, heñe er dæmd a þeſſare Tijd!
Hun hroopar þa ſem heyra maa aa Himnaſmid, Þitt eiliiſt Raad kvad Audarlaad, Af Aſt eg bid, mier aumre ſyn þitt einka Lid, Þvi allañ veitſtu Mañaña Sid.
Þad veiſtu kvad Þornabrw, Ad þeſſer Meñ, Þeir brioota af Dygd eñ bera nu Lygder bæder ſeñ, Þvi ſaklaus er eg af Saurgan eñ, Siaalfur Gud þar Huga til reñ.
Heyrde Gud þa Hiartans Naud og heñar Kvein, Þa Dygda Sprunded dreiged var under Daudans Mein, Hañ vekur upp einhvørn ungañ Svein, Fyrer Anda ſiñ med Sgñleikans Grein.
Daniel hiet ſaa DRotteñ liet ad Doomenum gaa, Og kvitta ad Vanda af klaarum Anda, Kallar ſaa, Saklaus ſkal eg ſeiger hañ þa, af ſoddañ Bloode ſnwe þier fraa.
Vid þau Ord uñ Veigaſkord, þeim verdur Stans, Folked ſniallt ſnyr aptur allt til unga Mañs, Spyr hvad vallde Hlioodum hañs, Hañ ad ſøñu giefur þeim Ans.
Fyrer Lygena raanga laate þier gaanga, af Lymſku Root, Vitſku toomer, Dauda-Dom a dyra Snot, Þvi giæted ad og giøred aa Boot, Giæſkulaus er Alyktan fliot.
Søkena ſkyllde ſaa ſem villde ſitia Doom, Þroſa grant þad er geyſe vant, Og gieſa ſier Toom, Jſraels Dotter er Æru froom, Aller gaafu honum Daniel Room.
Hañs Ordum trwa, og ad honum ſnwa, Ædſtu Meñ, Leita nu, Ad frelſa Frw, og fretta ſeñ, Doomara gaf þig DRotteñ eñ, Danjel oſs þar Raadeñ til kieñ.
Uñ Lygara Tvo hañ talade ſo, Þier taked þau Raad, Skilied þa ſo Foolke fraa, Og frietted ad, Sierhvørn þeirra i ſtjnum Stad, Sañ frooder þier vered uñ þad.
Þeir ſkildu ad ſo ſkiott i Stad, þa Skaalka Tvo, Daniel Sveiñ, vid Añañ eiñ, Hañ tiier ſo, Þu ſkiemdar Booſe Skoñ og Þraa, ſkiellur þier ſem Voneñ er aa.
Þvi allt hid raanga uñ Æfena laanga, Elſkader þu, med ſvikula Dooma og falſar frooma, Og fleckar Frw, Hinum Raanglaatu hliiſder nu, Hefndeñ er komeñ yfer þig ſu!
Gud baud þier ſem greine eg hier, uñ gooda Meñ, ad deyda ei þañ ſem hvørge vañ, til

Hefndar

Hefnda eñ, Hvar bar þig ad þeim bædum señ, Biorkena þa med Nafneuu kieñ.
Hañ ansar lioost eg leit þau fyrst vid Lynde Trie, Daniel glatt þu seiger þad satt, Hañ svarar med Spie, Þijn Lygaña Tunga Lijflaus sie, Pad lætur Gud ei dragast i Hlie.
Epter þad i Añañ Stad þa eins vid hiñ, Daniel kvad, hvar komstu ad þeim Kompan miñ, Vid Eikebiörk hañ svarar uñ Siñ, Sa eg þau bæde, Bæled eg fiñ.
Daniel moot þijn Lymskañ lioot, Þig leidde i Hel, Þu Canaans Art, Hefur öngvañ Part med Jsrael, Petta er satt þu seiger þad vel, Sakaña Volld eg fyrer þier tel.
Jsraels Dætur ougvar Bætur af þier fa, Opt i Leynd med liootre Synd, Pær liekstu a, Po þesse hin dyra Dreglana, Med Dygd og Æru kiæmest þar fra.
Su Fegurdar Mynd hefur soddañ Synd þier sæd i Briooft, Og Girnden þijn med Þvijngan sijn, Pad er nu lioost, Þvi ættu Lijffins öngvañ Kost, Eingell Guds til Hefndaña bioost.
Þeir lofudu Gud sem liette Naud af liootre Frw, Og frelsar þañ sem heiter a hañ med Hiartans Trw, Eñ þeim Tveimur Aullden su, Jllañ Dauda samþycker nu.
Daniel kuñe sa DRottne uñe ad dæma riett, Af þeirra Muñe þeckia ad Gruñe þeñañ Prett, Hvad Moyses hefur uñ Maal þau sett, Mun þeim ecke falla nu liett.
Valldsmeñ þeir enu vondu Tveir sa verdug Giolld, Heliarleid fyrer Lygaña Seid, Var lioot og kolld, Pad være betur i vorre Olld, Ad vondud yrde Lagaña Holld.
Med Gofugu Fliode Fader og Mooder fagna þa, Joachim Bonde og aller Frændur wt i fra, Þvi nu er þad skyrt sem skilia ma, Ad Skoñ er eingeñ falleñ uppa.
Daniel unge af Eingla Konge, og ollum Lyd, fyrer þañ Dom hañ fær nu Soma fyrr og sijd, Eñ Christnen Guds sem Verolld er vijd, vottar Drotteñs Stormerkeñ frijd.
Vier lofum hañ Gud sem lietter Naud, og længre Þra, Med Trygd og Dæd hañ tiæer þeim Naad, Hañ treysta a, Eñ hiner Ranglætu Hefnder sa, Sem hier ma lioost med Augunum sia.
Þvi fordunst nu ad flecka Trw, Med Fals og Lygd, Eñ hegdum riett i hvorre Stiett med Heidur og Dygd, Þvi ecke er slijkt sem Æra og Trygd, Og eignast Vist i Himnaña Bygd.
Fadereñ Naada fullur Dauda frelse mig, Fra Lygaña Hreck og liootum Fleck, Sem lyser sig, So Hreinhiartadur eg þecke þig, Pad er mijn Bæneñ ætsamleg.
Lofed og Dyrd i Dicktan skyrd, Sie DRottne þraatt, Sem mier kiende ad kveda til Enda þeñañ Þatt, Hañ eignest hvor su Audargætt, Sem Æruna stundar Dageñ seni Natt.

## Nu Epterfylgia Rijmur af Bookeñe Ruth.

### Fyrsta Rijma.



Mig lyster mest ad iooda Od af Lærdooms Greinum, Raams af Bruñe næsta hreinum, Og næmum kieña Læresveinum.
Heilog Ritning Hiartad Mañs kañ hellst ad fræda, Dicktan su er dyrleg Ræda,

Ræda, So dragist af heñe Efned Kvæda.

Nu vil eg birta Bornum Guds i Bragarens Hætte, Ruth sem Boas Ræded bætte, Po Rietteñ til þess valla ætte.

A Dogunum þeim sem Doomarar styrdu DRotteñs Lyde, Oar var so esldest Kvijde, Elimelech Landed flyde.

Naemi var nefnd hañs Kvon og Nidiar Tveir, Af þvi kveikest Mærdeñ meir, Mahlon og Chilion nefnast þeir.

Elimelech Ædstur var af Juda Slecte, J Betlehem siñ Bwstad þeckte, J burtu þadañ þo Oar hneckte.

J Moabs Land hañ sette sig og sijdañ deyde, Eñ Naemi med Nidium þreyde, Nockud hnijgeñ af Æsku-skeide.

Baada gipte hun Synina sijn og sijdañ miste, Ruth og Silpha Sæmdeñ giste, Pær Sonar Konur ad elska lyste:

Sonar Konum saaðe Vijf hvad sijst ma dylia, Heim i Lond sig hallda vilia, Po Hormung þætte vid þær skilia.

J Betlehem er nu batnad Ar, Kvad blijdur Svañe, Pad hef eg friett med fullum Sañe, Pvi fare þid vel og giptest Mañe.

Mægkonur heñar mælltu þa af minkum Vilia, þier skal fylgia Fallda þilia, Feigeñ og alldrei vid þig skilia.

Pad er ei Raad kvad þriflegt Vijf þid þarfnist Sæda, Ei ma eg Synena aptur fæda, yckur ad fa sem Log vor ræda.

Peim Framlidnu þid hafed unt med Pijdleik hreinum, So jñelega i ollum Greinum, Ydur mun DRotteñ svipta Meinum.

Silpha kvadde Sæmdar Vijf þo Sorgeñ speñe, Ristell trw eg Rauna kieñe, Ruth kvadst munde fylgia heñe.

Piñ einka Gud er eirneñ miñ, Hvors ei ma dylia, Og dygdugt Foolk kvad Dwka þilia, Daudeñ eiñ ma ockur skilia.

Naemi liet reynda Ruth nu raada ad siñe, Betlehem trw eg þær baadar fiñe, Borgarmwgureñ gledst þar iñe.

Boas hiet eiñ Borgar Mañ sem bygde þar, Af Juda Kvijsl sa Ættstoor var, Og Elimelech skylldur nær:

Boas atte Aura Nægd og Akra sæde, Volldugur noog med Vijsdooms Ræde, Ad Verkamoñum sialfur gæde.

Hun kom þa heim er Kappar lietu Korn-skurd viña, Og med heñe Ruth su Moverska Kviña, Sem milldur Gud liet Blessan fiña.

Aller giordu ad aumka þær og Adstod veita, Naemi vill Nafne breyta, Nu kvadst meiga Mara heita.

Mara heite eg mædd i Swt kvad Meniaþilia, Geinged er þad Guds ad Vilia, Gior-

 de

de hañ mig víd allt ad skilia.

Vid Maagkonu sijna mællte Ruth, Su Moversk Kviña, Eg vil ockar Fædslu fiña, Og fara þar ad sem Bygg-Meñ viña.

Naemi bad Naumu Gulls i Naadum sofna : Ut gieck Ruth, a Akureñ jafna, Og upptook þad sem Sveinar hafna.

Boas atte Akureñ þañ og eñ kom þar, Kvedia hañs sw kurteis var, Kornskurdar Meñ vanda Svar.

Ydur sie, O Rotteñ avallt med kvad Edla Mañ, Aller svorudu a niiñ Sañ, Ad eiñ Gud skyllde blessa hañ.

Fyrermans Sveina friette hañ ad um Falldabrw, Hañ leit Ruth þar hia þeim nu, Hvadañ ad være Stulka su.

Pad er hin mæta Moversk Ruth ad Madureñ sagde, Heñe eg til Leyfes lagde, Ad lesa þad fielle af Klyfia Bragde.

Boas talar vid Bauga-na af Blijdleik hreinum, Tijn þu a þessum Akre einum, O-fleckud af mijnum Sveinum.

Med Pernum mijnum þu skallt eirneñ þiggia Naader, Merke eg þijna Dygd og Daader, Drycknum vil eg ad lijka raader.

Fiell þa Ruth til Foota hañs og Fognud kiende, Hvadañ kom mier kvad Heidurs Kvende, Heill og Naad af þiñe Hende :

Mællte Boas mier er þad lioost hin mæta Kviña, Pu flyder Odal Frænda þiña, Og fylgder Moodur Brædra miña.

Maagkonu þiñe mestu synder Mañdooms Prijde, eñ þeckter ecke þessa Lyde, Pier mun O Rotteñ launa um sijder.

Israels Gud mun ærna Blessan yfer þig senda, Pvi til hañs þu villder venda, Hañs Vængia skiool þier duger til Enda.

Boas þa til Borda gieck og baud til Svaña, Veik hun sier til Verka Maña, Virdíng þa og Æru saña.

Boas sende Bauga-na siñ besta Riett, Axen steikt hun er þa mett, Allt mun falla Starfed liett.

Akurmoñum Boas baud sem byrter Kvæde, Ad siaa so til ad nockru næde Naumañ Gulls þad epter stæde.

Giæted ecke grant ad þvi kvad geymer Sverda, Po Affsop kuñe epter ad verda, eig-nast skal þad Porna Gierda.

Froome Herra Fliooded kvad eg Faatæk Kviña, Ei er lijke Perna þiña, Pessa Naad af ydur ad fiña.

Fullañ Mæler fieck med Bygg su frooma Kviña, Kuñe hun allt ad Korne viña, Um Kvollded foor til Hwsa siña.

Maagkonu siñe synde hun allt og sagde bæde, Pau sem ad Boas gierde Giæde,

Gaf heñe Leyfar af þvi Fæde.

Naemi var næsta glød og neytte Fædu, Hier næst fra eg hun hoof so Rædu, Himna Gud þig svipte Mædu.

Boas er mijns Bondans fræga Brooder næsta, ad hønum lytur Erfdeñ hæsta; Audnu hefur þu feinged stæsta.

Ad þu komst a Akureñ hañs og Ordlofs beidder, Umsioon slijka yfer þig leidder, hia øllu vondu Rykte sneydder;

Vijktu ad þeim Akre opt kvad elldre Kviña, Fyrst Liufmeñed þier lofar ad viña; Laate Gud þig Blessan fiña.

Sialfur baud hañ sagde Ruth mier Soomañ þeña, Ad sækia Faung til siña Kveña, Sijdañ giorde huñ þangad reña.

Foolke Boas fylgde Ruth og fieck ei miña, Þorf a starfe hin þyda Kviña, Þar til Korn var bwed ad viña.

Margkonu sijna hitte hun og heñe færde, A Viñu siñe Vijsed nærde, Vel sie þeim sem Prisnad lærde.

Hiartans Dygd er Heilleñ mest sem hier ma fiña Myskun hlytur Moversk Kviña, Mun so verda Rijmu ad liña.

## Auñur Rijma af Ruth.

ANNad siñ skal Oodureñ miñ af þeim gooda Stofne, Fram i Letur færast betur, Fyrr eñ Mærdeñ dofne.

Guds vill Rand og Giæsku Rand giæta best ad einu, Eckert sænd hefur eñ forsinnad, Sem er med Hiarta hreinu.

Hvor sem Trygd og hreina Dygd i Hiarta naaer ad geyma, Herrañ sa sem Hinme er a, Honum mun alldrei Gleyma.

Dæmeñ good uñ Dygda Fliood Drooser bid eg ad lære, Moversk Ruth fieck hæstañ Hlut, Þo Heideñ ædur være.

Nu med þvi ad Naemi Naumu gulls vel uñe, Hun hoof so Tal sem herma skal, Af hreinum Elsku Bruñe:

Dotter good kvad Dygda Fliood duga mun Raaded sviña, Hlyd þu mier til hvijldar þier, Eg hlyt med Brøgdum viña.

Boas sa sem foorstu fra er Frænde Nidia miña, Hañ vinsar Korn kvad Veiga-Norn, Þu verdur i Noott hañ fiña.

Smyr og þvo og syn þig so med Sæmd og Blooma þijnum, Hañ liggur nu kvad Listar Frw, J Lava Garde sijnum.

Til Foota hañs þess frooma Mañs far þu nidur i Klædum, Athuga señ ad ongver Meñ, yckar vite af Rædum.

Ei kvadst su hin unga Frw af þvi skyllde bregda, Hun veik af stad so vel var þad, Þar vard a eingeñ Tregda,

J Laava Gard hun leynaſt vard lærd til allra Dáda, Mettur og gladur hiñ gofgi Madur, Geingeñ var til Raada:

Blæu þa ſem breidd var a, braut hun upp til Foota, Legſt hun nidur eñ Lauſa-Vidur, liet hana Dygda nioota.

Uñ midia Noott kom Ogn ſo ott yfer Boas i Svefne, Vaknar þa og ſijdañ ſaa, Kviña Hrijngagiefne.

Hañ ſpyr þa ſem heyra ma hvor ſu Kviña være, Ambaatt þijn kvad Audarlijn, Edla Madureñ kiære.

Lifande Gud þig liette Naud og laate Bleſſan fiña, Liooſt er þad i þeſſum Stad, Þu ert ein Dygda Kviña.

Mañdygd ſu en mæta Frw, er meir eñ giorvallt añad, Þu ſegder Nei og ſinter ei, Uñ Sialeik Yngis Maña.

Hun nefner ſig ſo ſidſamlig, Hia ſviñum Heidurs Mañe, Arfureñ ber ſa einum þier, a mig breid kvad Svañe.

Þo bere mier hañ Boas tier, Bæde Arfur og Kviña, Añar er hier ſem eñ er nær, Madur vil eg hañ fiña.

Hafdu Dootter Raad i Noott, Næm a allt hid gooda, Þegar i Ar ſo Ætt ſie klaar, Arfeñ ſkal honum ſo biooda.

Ef neitar hañ vor Nandar-Mañ, Naumur gulls ad feſta, Eg tek þig þa þu aatt mig ſo, Ecke ſkal þad breſta.

Hreinlijfis Bloom fær hæſtañ Room, Þu haf til Morguns Raader, Af Saurgan hrein i hvorre Grein, Heidur er ſlijkt og Dáder.

Vert ohrædd i Heidre giædd hier ſkal alls vid leita, Hvad ſeiger þu mier med Þydleik hier, Þad ſkal eg giorvallt veita.

Uñ Dægra moot hin mæta Snoot, Ad Morne upp ried ſtanda, Eiñeñ hañ ſa Edla Mañ, Epter ſijnum Vanda.

Fara vill burt med Fremd og Kurt, Fyrr eñ vakna Sveinar, Vid þvi ſaa hun vilde ei ſaa, Vonda Ofrægd neina.

Laattu hier kvad hañ hia mier, Hafnar Skyckiu þijna, So verdur þu hin væna Frw Vijs uñ Ætlan mijna.

Bygg-Miols Korn ad Bauga Norn, Boas giefur hiñ ſviñe, Mæla ſer þvi Milldeñ ver, Magkonu færer ſiñe.

Hun ſpyr nu hin nyta Frw, Naemi hvorſu geinge, Audarlijn uñ Erende ſijn, Hvort Endalok ad feinge.

Hun ſagde þa ed ſaña fra, ad Sæmdarmadureñ veitte, Korned ſitt og hier med hitt, Hvorſu hañ vid hana breytte.

Hun ſagde þa vid Seimana, So ried Boas iña, Toomhent ma ei Menia-Na, Magkonu ſijna fiña.

Nu

var hiaa mier, Og Vatsſkort leid þeim epter ſer.

Ungmeñe vor elltu þa og alla giordu kvika ad ſlaa, DRotteñs Her þa hrockte fraa, Huglauſa ſem Born ad ſiaa.

Nu ſkal ſyngia Nafne hañs, Nyañ Dict med fagrañ Dans, Almaattugur Gud er til ſañs, Eñ Orkulaus er Kraptur Mañs.

Pier ſkal þioona allt hvad er Fyrer Ord þitt ſierhvor Hlutureñ ſkier, Su Hug⸗hreyſte Sigureñ ber, Sem þu gafſt hvad eingeñ ver.

Bifaſt þvi Fioll og Biorgeñ ſtrax, Braadna ſem fyrer Ellde Vax, Eñ Gudhrædd⸗ra geymer Hags, Og giefur þeim Naad til Effta Dags.

Breñefoorn og Feite Fiaar, Er faanytt allt ſem Daggar Taar, J Augſyn DRott⸗eñs Ilmar ſkaar, Otte Guds og Bæneñ klaar.

Hafe ſu Skom̃ hin heidna Piood, Sem heriar faſt aa Christed Blood, Orma⸗Kyn og Elldſins Glood, Mun eyda þeirra Grimdar Mood.

Pañeñ endaſt Vijſañ væn, Sem vel maa heita Judiths Bæn, jafnañ ſkyllde Chriſt⸗neñ kiæn, Kveda þa Guds er Hiaaſtod ſien.

Nu er aa Jordu Flockur faar, Saa finſt med DRotteñs Otte klaar, Eñ Eymdeñ vex og Anaud ſaar, Fyrer Illſku Heims þvi fell eg Taar.

Guds Born hafa ſo goodañ Skiolld, Giet eg þau verde ecke felld, Þo Daglega ſie til Dauda ſelld, Þvi DRotteñ ſlockur þeirra Elld.

Ef eiñ ſaa Madur Ottaſt Gud, Af illum Moñum lijdur Naud, Þo hañs ſie Lund⸗eñ Heiptar traud, Hefndeñ kiemur yfer þa ſnaud.

Faa þvi Guds hin froomu Born, Fulltyng hañs og Hiaalpar Vorn, Hañ feller þeirra Fiandmañ hvorn, Hañs Fodurleg Naad er Lijknar giorn.

Þvi leitum Guds af goodre Root, Þa geingur oſs ſem meſt aa moot, Ovina ecke hrædunſt Hoot, Þvi Hefndeñ kiemur yfer þa flioot.

Bæneñ hrein af tryggre Trw, Er trauſtuſt Vorn, Þad reyner þu, Ef lijka fylg⸗er Lofgiord ſu, Sem lærum vier af Judith nu.

Þvi hoſum nu þetta heilla Raad, Hvenær ſem lijdum Sorg aa Laad, Trwum aa dyra DRotteñs Naad, Sem Dæmeñ ſtanda fyrer oſs ſkraad.

Endad hef eg nu Judiths Þaatt, Þo undañ falle margt og ſmaatt, Þvi ſkal lijkta Liooda Haatt, Lære Born og giore ſier kaatt.

## Hier ſkrifaſt Rijmur af Bookeñe Eſther.

### Fyrſta Rijma.

Guds Bornum ſkal gamna eñ, Med Grein vor helgu Letre, Ef þad villdu aa⸗huga Meñ, Ecke er Skemtan betre.

Æfentyr af Eſthers Book, Eg hefe fært i Kvæde, Oſdramb ſialldañ Aud⸗nu jook, Þad iñer þetta Fræde.

Sierlega bid eg ad Sviplynd Fliood, Til Soguñar hlijda villdu, Drage ſier hvor⸗ke

ke Dramb nie Mood, Edã Dreissed meir eñ skylldu.

Morg hefur jaatad Mañe su, Miwklynd fyrst i Bragde, Eñ þegar lijda Areñ Priu, Er hun þa lijkust Flagde.

Forsmaar þañ hun fester vid, Fulla Trw med Raade, aafryr Mañsins allañ Sid, Ofseint þessa gaade.

Syrach mæler satt uñ þær, Siñis stoorar Hrunder, Hoggorm fær sia heñe nær, Og Hugraun allar Stunder.

Po hun sie Volldug Væn og Rijk, Vara eg þig vid heñe, Hittast Fliood i Heime slijk, Haf þau Raad eg kieñe.

Orded Guds þu jdka mest, Pad eykur Visku saña, Drag þier oll af Dygdum best, Dæmeñ goodra Maña.

Vilie þagna Vijf og Meñ, Og Vijsu hlyda miñe, Pa skal byriast Odureñ, Vpp i Fyrsta Siñe.

Assverus hiet Odling vitur, Austur i Persia Rijke, J Heidre stoorum Hilmer sit-ur, Hæstu Konga Lijke.

Priaatiju Lond yfer Hundrad hañs, Herra-Dæme þiena, Fraa Blaafolld allt til India Lands, Ei maa Frægdeñ riena.

Pad bar til uñ Peingels Hag, A Pridia Rijkes Are, Veglegt stofnar Veislu Plag, Vijser Dygda klaare.

J Susans Slote aa sijnum Stool, Sat med fræga Dreinge, Paangad baud fyrer Pridiu Sool, Peingell voldu Meinge.

Hofdingiar sem hielldu Laad, Med Heidur af rijkum Tiggia, Verda nu fyrer Vijsers Raad, Veislu gooda þiggia.

Uñ Persia Land og Mediam med, Millding valde Lyde, So hvor Mañ feinge heyrt og sied, Hilmers Tign og Prijde.

Haalft Ar skyllde Hoofed rijkt, Og heilañ Maanud standa, Hier næst vende Hof-Folk slijkt, Heim til siña Landa.

Sijdañ magnar Sioole Bod, Sijnum voldum Lijde, Viku ad auk su Veislañ stood, Med Veralldar mestu Pryde.

Hofdingiar og Hirdeñ best, Heim aa Kongsins Garde, Herrans reyna Hylle mest, Eñ Heidureñ engvum sparde.

J Alldengarde er herlegt Hof, Pad Holl maa kalla glæsta, Millding fær þvi Maña Lof, Par magnast Veislañ stæsta.

Odling tialldar allt uñ kring, Eiñ Veg Mwr og Stræte, Sparlak sett med Silf-ur Hrijng, Og sameñ aa allskyns Mæte.

Af Marmara Stein var Golfed greypt, Grænt og svart ad lijta, Raudt og gullt sem rent og steypt, Med Reita eirneñ hvijta.

Ad Silke hvijtu er Sæmdeñ mest, So skal Tiolldeñ prijda, Gul og raud þar giegn-

de best, Græn og blaa so vijda.

Sæteñ voru med Silfred hreint, Sameñ og Gulled brenda, Vegsemd su hefur Vijser meint, Skal vijdfræg Heims til Enda.

Dryckiar-Kiereñ med dyrsta Gull, Doglings Sveinar baaru, Og skiptu um̃ þau so Skiemtan full, Skapast af Vijne klaaru.

Kongsins Vijn var kostulegt, Klaart sem hier maa skilia, Ad ongvum hiellt þar Audling frekt, Eñ aller hafa siñ Vilia.

Vasthi Drottning Vijsers Kvon, Veislu helldur lijka, Kveña Skara sem skilst inier Von, J Skiolldungs Salnum rijka.

Siounda Dag var Sioole kiendur, sijna Hird vill kiæta, Frwiñar Hagur med Heidre stendur, Hun mun Gledena bæta.

Af sijnum velur hañ Sveinum þa Sendemeñ til Fliooda, Fremsta og æsta sim̃ og þria Fruñe iñ ad blooda.

Vasthi DRottning Vijser kvad, væn med siñe Prijde, hingad leidest straxs i Stad og stollta gledie Lyde.

Drottning Vasthi dramblaat var og Doglings Bod forsmaade, Sveinum ecke syñer par, ad Soomanum allitt gaade.

Ræsers Brioost af Reide breñ, Fyrer Ristels Breytne slæma, vill þvi laata vitra Meñ, Um̃ Vasthi riett ad dæma.

Sio Hofdingia setur hañ til, Sagdañ Doom ad vanda, Sem lært hafa oll a Logunum Skil, Ad leysa wr hvoriu m Vanda.

Memucan sa mestur var, Mælsku giæddur Sooma, Haatt og sniallt ried herma þar, Hilmer þeirra Dooma.

Ef so virdest Audling hier, Eins og Briooste mijnu, Ad Vasthi DRottning siaa fyrer sier, hun synte ei Bodenu þijnu.

Einskys virte hun ydar Sæmd, ill eru Dæmeñ Svaña, Er hun þvi riett af Rijke dæmd, Med Raadum bestu Maña.

Fleire hefur hun Fliood eñ sig, Fyrer Forsed leidt i Vanda, Epterdæmeñ ugger mig, Ad ill mune Vijsum granda.

Ef þad berst nu wt fyrer sañ, Hvad Assverus leid hiñ rijke, Ad Fliooded Vasthi forliet hañ, Fæst þa heñar lijke.

Þa forsmaar hvor sem flioodast kañ, Fliood siñ eigeñ Herra, Og so hvor siñ eckta Mañ, Og er þad Raaded verra.

Af þvi skrife nu Audling Brief, um̃ sitt fræga Vellde, So vite þad Fliood fyrer utañ Ef Hvad a sig DRottning fellde.

Kome hun alldrei i Audlings Rañ, Adra Millding feste, Þa heidarlegustu hittast kañ, Og Hlydneñ ecke breste.

Laattu a þessu Letre skraa, Log þau halldast meiga, Ad eingeñ Fliood skule eiñ forsmaa

sma Yfer-Mañ sem þær eiga.

Um̃ Persia Land og Mediam med, Mun so Riettur ganga, Þvi Vasthi hefur þañ Vansa skied, Hañ varer um̃ Æfe længa:

Hvort sem Kviñur meire Mañ, Eda miñe Tignar eiga, J ollum Greinum heidre hañ, Og hafe þa Sæmd er meiga.

Urskurd þeñañ Audling vitur, allvel giorde ad rooma, Og so hvor sem i honum situr, alla tel eg þa frooma.

Sijdañ skrifar og sende Letur, a sagdañ Hatt um̃ Vellde, Pienörum Kongs þad þocknast betur, Ad Þeingell Reide fellde.

DRottning skilur vid Sioola siñ, Og Søguna eirneñ lijka, þvi bid eg nu Flioodeñ fogur a Kiñ, Ad fordast Breytne slijka.

Hvorre Þiood liet Hilmer sagt, J heñar Twngumaale, Hafa skal Bonde i Hwse Makt, Og Heidureñ ei med Taale.

Epter þetta Audling þa, Alla feller Kiære, Døgling miñest Drottning a, Er dæmd var fyrr wr Sæte.

Kvadust vilia Milldings Meñ, Meyunum safna vijda, So af þeim velde ollum señ, Audling DRottning frijda.

J Brwdar stofuna bestu Frwr, Budlung flytia laate, Þær velie Hyrder vitur og Trwr, Og Vijser Trygdum jaate:

Sa Gielldingur skal geyma þær, Er Grundum kañ ad þiena, Hegi sem þad hentad fær, Og Hilmer vill þad liena.

Ef ydur þocknast einhvor best, Fyrer Æru Dygd og Sooma, Uñe þeirre Audling mest, Og eignest Brwde frooma.

Budlung kvad þad besta Raad, Og bydur Dygda Moñum, Vænar Meyiar um̃ Vijsers Laad, Ad velia af Heidre soñum.

Sa var Madur i Milldings Hyrd, Mardocheus ad heiter, Af Gydinga Ætt med Orløg stird, Og Esther Fostur veiter.

J Her-For þeirre hañ var fluttur, Heidurs Maña lijke, Þa Jeconias Audnu stuttur, Af var flettur Rijke.

Nabogosor Hertook hañ, Og harder Kongsens Þioonar, fluttu Kong og margañ Mañ, Til myklu Babylonar.

Mardocheus af morgum þeim, Sem meire kiendu Sorgar, Judum dreifdum Austur um̃ Heim, Var iñañ Susans Borgar.

Nefnda eg biarta Baugarist, Hañs Broodurdotter frijda, Forelldra hafde Flioded mist, Þa fostra giorde sijdañ:

Þa Meyarnar liet nu Millding heim, Margar til sijn færa, Esther var sw ein af þeim, Sem Audling hafde kiæra.

Hyrder Meya Hegi trwr, Hañs Gielldingureñ froome, Skarte ollu flytte Frwr/

So

So frijdleik prydde Soome.

Allt hvad Vijsed Eskia kañ, Audling veitte Fliode, Pvi Esther Naud hiaa Fylker kañ, Sem framar er greint i Ode.

Kyn sitt vill ei kyrtla brw; Konge ad helldur greina, Mardocheus bad mæta Frw, Millding þvi ad leyna.

J Forgardenum hia Flioda Sal, Fostre reikar heñar, J sijdara Od þad sky-ra skal, Hvad skipt er uñ Hille Kveña.

Mardocheus Meyin añ, Merkia vill ad soñu, Hvørt Esther Naud hia Audling kañ, Og ollum sæmdar Moñum.

Allra hæsteeinka Gud, Audmiwk Hiortun sæmer, Hialpar þeim wr hverre Naud, Eñ Hofmood riett fordæmer.

Vasthi fieck þa vestu Smaan, Og verdur keyrd wr Sæte, Eñ Esther Sæmd og Audnu-Laan, Fyrer ægiætt Lijtelæte.

Hlydne lære hæverst Fliood, Hier med Audmykt saña, Peim fæ eg i Hendur hiñ fyrsta Od, Eñ Forsid ollum baña.

Goodlynd Vijseñ gamne sier, Og giefe mier Hvijld uñ Tijma, At Esthers Book sem vitum vier, Endast fyrsta Rijma.

## Auñur Rijma.

NN skal stofna añañ Brag, Obreitt verdur Kvædalag, Af Eddu fieck eg ongvañ snert, Uñ Efned þike mier meira vert.

Huxe uñ þad Heimsins Piood, Hvar fyrer Dæmeñ ill og good, J Rit-ning verda leseñ og lærd, J Lioodasmijðed sijdañ færd.

Pad er ad soñu Meining mijn, Ad mune þvi Drotteñ Ordeñ sijn, So iñelegana oss nu tiaa, Ad þeim vilie hañ laata gaa:

Pvi samt er Herrans Siñed eñ, So sem ad reyndu fyrre Meñ, Ofmetnadur fær ætijd Smaan, Eñ Audmykt fylger Giæfu-Laan.

Nær sem eirn sier hreyker hæst, Hañ er falleñ þessu næst, Sem sa leinge laagt var settur, litlu sijdar vid mun riettur.

Skiootlega þessu skipter sa, Sem skynia og reyna Hiortun ma, Giefum vier all-er Gaum ad oss, Gudhrædslañ er besta Hnoss.

Jña verdur Esther fra, Audling fieck hun Sæmder hia, Su kom Tijd ad Milld-ing mætur, Meyna hvoria prijda lætur.

Heillt Ar skyllde hvor sem ein, hegda siñe Prijde Grein, J Balsam hræra hvort siñ Lid, Og hafa þar Myrru blandad vid.

Añañ Helming Arsins skal, Edra fa til Smyrsla val, Ad bera uñ heñar biart-ta Holld, So betur ad ilme Meniafolld.

Sijdan var þa sierhvor skrijdd, Med Sæmdar Skart og Gulle prydd, Leidd til Audlings ein i señ, Med ægiætlega Fylgdar-Meñ.

Par

Par skal hvijlast þessa Nott, Eñ þegar ad Morne leidast skiott, Til Gelldings þess i goodañ Stad, Sem giætte Kongsins Frillum ad.

Hvad su gyrnest Meyañ merk, Milldings veiter Tigneñ sterk, J hvoriu gillde sem þad sie, Sveinar laate strax i tie.

Alldrei ma sw Audargrund, Apturkoma a Hilmers Fund, Utañ ad Kongur Sveina sijn, Sende ad kalla Menialijn.

Pa Abiels Dotter Esther Frw til Audlings skyllde leidast nu, Er þad lioost hun einkys bad, Utañ þar vijkur Hegi ad.

Mardocheus sem mælltum vier, Meyna hafe teked ad sier, Fostrad best i Forelldra stad, Frændrækneñ ma veita þad.

A siounda Are Rijkes rett, Rijked hañs sem fyrr var sett, J Manude Tebet Meyañ sviñ, Mæt var leidd fyrer Kongeñ iñ.

Januarius merke Meñ, Manudur sa nu kallast eñ, Hañ er tijunde halldeñ þar, Hefst nu med honum nyia Ar.

Assverus med Astarband, Esther feste sier vid Hand, Drottning vard i Vasthi stad, Vel mun Judum giegna þad.

Aller lofudu Esther Frw, Audnu sterk var dygg og Trw, Gull-Koronu glæsta bar, Af Gofugum Jofre Tignud var.

Hilmer lætur Heimbod eitt, Hofdingiunum med Sooma veitt, Fyrer Esthers Skulld og Eruplag, oll hañs Hird fieck godañ Dag.

Ad Skiptum þessum skipast so vid, Skiolldung sæmer allt sitt Lid, Lydur er ecke i Lande þiaadur, Lofdung giefur meir eñ aadur.

Pad bar eñ til einhvorn Dag, Jomfrwr hofdu Gledeñar Plag, Mardocheus ad sijnum Sid, settest nidur vid Borgar Hlid.

Bigthan hiet og Theres tveir Tiggia Sveinar bader þeir, setter ad geyma Siklings Port, Eñ Svik sa jafnañ Audnu Skort.

Reider biuggu Raaded lioott, Ræser ad deyda a þeirre Nott, Mardocheus þad heyrde Hial, Og hermde DRottningu iñ i Sal.

Esther Konge iñer fra, Audling lætur faanga þa, Sañer urdu ad Svikunum tveir, Sijdañ heingder bader þeir.

Skiolldung lætur skrifa þad iñ, Skyrt og riett i Añal siñ, Pvi Gud vill ecke ad gleymest su, gooda Dygd og holla Trw.

Eirn Hofdinge Aman hiet, Er Audling mest ad heidra liet, Son Medata settur hæst, Og sialfum Konge virtur næst.

Aman þeña upphoof señ, Yfer alla sijna Tignar Meñ, Honum skal hneigia hvor sem eiñ, Heidarlegaste Kongsins Sveiñ

Mardocheus af Juda Ett, Er ecke fieck ad þessu giætt, Fyrer Aman beiger hañ alldrei Hnie, Er þo sagt hañ froomur sie.

Hirdmeñ bædu hañ Hneigia sig, Þvi Hilmers Bod eru merkeleg, Aman laut hañ ecke ad helldur, Eitt hvad slijkre Prioosku velldur.

Aman seiga þeir Hegdan hans og Heite lijka þessa Mañs, Gydinga Kyns þeir greina Þegn, gramdest hañ vid þessa Fregn.

Hañ grijpur upp eitthvad grimdar Raad, So Gydinga feinge hañ Lijfe naad; Þvi Hefndar Hattur þiker ei neiñ, þo þeñañ Mañ ad heinge eiñ:

Med Fiølkynge bruggar Bragd, Og bryst nu uñ sem hamadest Flagd, Af Offa þeim sem i honum brañ, Eingeñ Madur hañ stødva kañ.

Hier mun sañast Ordtak eñ, Þad jutu fordum Spaadoms-Meñ, Moote ODrottne duger ei Raad, Rie diupsett añad Vitsku Saad.

Hañ mun skipta Heillum best, Og hiaalpa þeim hañ reyner mest, Sie hønum Lof sem leyste Þiood, Lyckta eg þañeñ styrdañ Od.

## Þridia Rijma.

NN skal þridia Odarvers af Esthers Þætte, Setia frañ med søgdum Hætte, Sierhvør villde eg ad þvi giætte.

Hvørsu vallt ad Veralldar Laaned verdur þeim, Sem treysta uppa Aud og Seim, og ofmiog stunda þeñañ Heim.

Saa sem hæst j Heidre sat, Og hugde ad einge, Opsa sijnum aptrad feinge, Undarlegana miste Geinge.

Añar beid i Otta Guds þañ ætte ad deyda, Gud kañ Raade illu ad eyda, Aman liet i Gaalga leida.

Þvi athuge Meñ hvad epter fer, i Odarspialle, Hvør sem situr a hæsta Palle, Hage so til ad ecke falle.

Þa Tolf Ar hafde Hilmer frægur hallded Rijke, Fraa eg ad Aman fæstra Lijke, Foringia Lands aa Eintal viijke.

Hier er ein Þiood kvad Beiter Brands i Budlungs Vellde, Sem laangt ber fraa vort Løgmaal hiellde, Lijdast maa ei slijkt Ofbellde.

Ur Eigu miñe æred Fie skal Audling þiggia, Faa eg þau Brief af froomum Tiggia, Ad Folk þad mætte i Heliu liggia.

Sioole rietter Signets-Hrijng og seiger hañ mætte, Folk þad slaa sem falled þætte, Eñ Fie sitt geyma slijkt sem ætte.

Skiølldung lætur Skrifara sijna skraa þad Bod, Af skule maad med Undaskod, Uñ allt þad Rijke Gydinga Þiood.

J Maanude Adar er saa Tolfte Arsins þar, A Dag Þrettanda þad so bar, Ad þetta Raaded aasett var.

Aller Kongsins Umbodsmeñ þad akte þa, Uñ sierhvørt Land sem sagt er fraa, A settum Tijma Juda ad slaa.

Bæde Konur og Borneñ med hañ baud ad slaa, A einum Deige so allt i Straa, Hvøgt

ar Ebreſk Piooden̄ hittaſt mâ.

Med Loſdungs Hrijng var Letred þryckt og lagt vid rijkt, Hefndar⸗Bod þar heima lijkt, Hirdmen̄ ecke kiætte ſlijkt

Aman drack med Audling frægum ægiætt Vijn, Hootar Judum Heliar Pijn, En̄ huxar gott til Ræda ſijn.

Mardocheus fieck þa Fregn og Fylkers Letur, Klæddeſt Seck og græted gietur, Gieck i Port þvi Neyden̄ hvetur.

En̄ kiæme ein̄ i Kongſins Ran̄ ſo klæddur Seck, Pad Logmaal eins yfer alla gieck, Ad illan̄ Daudan̄ ſierhvor fieck.

Frwr og Sveinar wt af Salnum Eſthers gænga, Og ſøgdu þetta Seliuſpænga, Pa ſette ad Vijſe Harmen̄ ſtrænga.

Sende Klæde Selian gulls ad ſig þeim ſkryde, En̄ leggie af Seck þa lioota Pryde, J Loſdungs Gard hun ecke hlijde.

Mardocheus mæddur af Sorg i moote ſagde, Rauner ſijnar brætt ad Bragde, Og Briefed i Sveinſins Hønd ad lagde.

Hatach hiet ſæ hellſte Svein̄ til han̄s var ſendur, Sagde þeim af Sorgum vendur, J ſærre Neyd han̄s Efne ſtendur.

Vidur þa vijſt ad biarga ſier, Og Budlung ſin̄a, Grimdar Ede Amans in̄a, Pvi Eſther meige þar Boot æ vin̄a.

Vndan̄ taldeſt Eſther þvi fyrer Alma Bende, Pvi meiga kvad hvorke Men̄ nie Kvende, Fyrer Millding gæ nema Bod til ſende.

Heilan̄ Mæanud hef eg nu ei til Hilmers geinged, Pvi Bod hef eg ecke Audlings feinged, Er þad liooſt fyrer Kongſins Meinge.

Gænge einhvor Ordloſslauſt þar in̄ um̄ Giætter, Heidur og Lijf i Hættu ſette, Nema Hilmer ad honum Spyrn riette.

Mardocheus af Moode ſærum mællte þa, Hun mun komen̄ i Hefd ſo hæ, Ad hiælpa Judum Dauda ſræ.

Vilie hun ecke voga ſier til fyrer Vijſer gænga, Fodur⸗Hws hen̄ar Hefnd fær ſtrænga, En̄ Hiælp munum vier af DRottne fænga.

Pa Eſther heyrde Orden̄ þau hun anſar moote, Hætta ſkal þo Hird⸗Log brioote, Ef hæged ſo til⸗eg Bæna nioote.

J Priæ Daga ſkulu þier med mier þa Pvijngan lijda, Gydinga Folk æ Bænum bijda, Bwed i Seck med Foſtu ſtrijda.

Pernur liet og Piðnara med ſier þan̄en̄ breyta, Og aller Judar einſkis neyta, Eik Gud bædu Hiælp ſier veita.

Hvar um̄ Lond ſem heyrdeſt þeſſe Harma⸗Ræda, Aller bædu Gud þad græda, Gydinga Lyd mun Sorgen̄ mæda.

J øllum Londum Juda mæder Angred ſtrijda, Foſtumooder kien̄a Kvijda, Klædd⸗

er Seck med Ydran strijda.

A Deigenum Pridia Drottning Esther Dygda prwda, Med Gull-Koronu og glæstañ Skrwda, Geingur iñ fyrer Stiller prwda.

Jñañvert vid Audlings Port ad Esther stood, Gagnvart Konge helldur hliood, Hilmer gladde Sæmdar-Fliood.

Gull-Spyruñe Vijser veik ad Veiganaa, Pvi er pad liooft hun Ordlof pa, Vid Oddeñ liwft ad Hende braa.

Hvad er ad Angre Esther Frw kvad Audling millde, Sijdañ bidur hañ Seima-hillde, Seigia hvors hun beida villde.

Fieck hun pesse Fyrerheits Ord af froomum Tiggia, Laat pad ecke Hugeñ piñ hryggia, Po hatlft mitt Rijke villder piggia.

Aman bid eg kvad Esther Frw fyrer ydur ad kalla, Eñ ad Siñe voga eg valla, Vijser lysa Naudsyn alla.

Pier og Aman pigged hiaa mier pegar ad Morne, Veislu-Bod og Vijn af Hor-ne, Veittur skal pa Miodureñ forne.

Aman kiemur sem Audling baud til Esthers Hallar, Vijser eñ vid Vijsed spiallar, Ad veita skule heñe Booner allar.

Vijned gladde Hilmer hreint og hvørskyns Fæda, Vid Esther giorer hañ opt ad ræda, Allra skule hun nioota Giæda.

Esther bidur eñ ad Morne Aman pa, Veislu piggia Vijse hiaa, Vid pvi seiger hañ giarnañ Jaa.

Aman gieck pa wt uñ Port ad Aptne sijd, Med hønum kveiktest meinlegt Strijd, Pvi Mardocheus hañ stood par vid.

Og hneigde ecke helldur eñ fyrr po hryggur være, Aman trw eg pad illa sære, Af sier po med Horku bære.

Aman kiemur i Hws sitt heim og hroosar Geinge, Ad Valld og Raad af Vijser feinge, Virtur frañ yfer allt hañs Meinge.

Vinunum sijdañ safnar hañ og sagde lijka, Sijna Hefd og Sæluslijka, Vid Ser-es talar hañ Hwsfrw rijka.

Sier pu miña Sonaña Heill og Soomañ peñañ, Ad Esther Drottning Afbragd Kveña, Med Audling baud mier Vijn ad kieña.

Aungvañ virte hun Audlings Mañeñ añañ pess, Ad faa hiaa Konge Sæmdar-Sess, J Siñe ber eg po Harma-Vess.

A medañ saa leide Mardocheus aa miñe Braut, Star sem Fjill eda stirdfætt Na-ut, Saa stollte Sveiñ mier alldrei laut.

Af pessu er mier hvørge hægt medañ hefne eg eige, A peim leida Laufasveige, Lijt eg hañ po aa hvørium Deige.

Vid pu Hilmer Hwsfrw kvad hañ heingia laata, Fyrst hañs geingur frañ wr

Maata, Foolskañ su hañ glører sig staata.

Pa situr þu gladur sagde hun med Sioola ad Veislu, Hañ maktar þig til Maala-greidslu; Mun þad giort af þiñe Beidslu.

Aman þocknast þetta Raad og þegar i Stad, Vm̃ Gaalga bioo sem giort var þad, Gladlega fraa eg hañ liek og kvad.

Fim̃tigu Alna Eike-Trie þar upp var sett, Mardocheus fyrer minstañ Prett, Ad Morne skal þar hainga riett.

Amans fær nu Offeñ braatt siñ Endadag, Sierhvør giæte ad sijnnm Hag, So skal lykta Pridia Brag.

## Fioorda Rijma.

Hlyda bid eg ai Hroodrarfund, Hæfelaata Meñ og Sprund, Giefe sier þar til gooda Stund, Ad giætum stødvad Holldsins Lund.

Pvi mun Hollded hreyfa sier, Hygg þu ad hvorsu vont þad er, Aska leid og Orma-Kier, Ofañ i Jord ad fwna fer.

Hvad er Madur ef Hollded rædur, Hreckvis blecker Saatan skiædur, Nema fall-eñ allur i Elldsins Glædur, Eilijft Baal og Gude siarstædur.

Skam̃a Stund hier Blooma bar, Boola Vatns ad Madureñ var, Drambed ecke dugde par, Vid Daudañ reynast Heillernar.

Endadag þeim goodañ giefur, Gud sem meinlaust Lijfed hefur, Og Orded Drott-iñs ad sier vefur, Eñ eingeñ Raad med False grefur.

Pvi skal fram̃ þad fyrer mig took, Fioorda Rijma af Esthers Book, Aman Snei-pu aa sig jook, Pvi ecke dugdu Raadeñ klook.

Pessa Nootd sem næst var þa, Nistung ecke sofna maa, Annaals Bækur Hvijlu hiaa, Hlyda villde Fylker aa.

Lofdung hafde i Letre skraad, Pvi launa villde hañ Dygd og Daad, Pad Mar-docheus gaf Milldiing Raad, So mætte hañ fordast Svikarans Haad.

Pa Lesareñ kom þeim Annaal ad, Ansar Tigge þegar i Stad, Hvar er saa Mañ ad Hilmer kvad, Eda høfum vier nockru launad þad.

Lesareñ gaf þad Lofdung Svar, Laaunad var hønum ecke par, Aman gieck um̃ Gardeñ þar, Fyrer Gaalga hañ mesta Huxan bar.

Pa Milldiing veit ad Aman er, Par iñañgards hañ þañeñ tier, Kalled braatt so kome hañ hier, A Kongsins Fund hañ giarnañ fer.

Hvorneñ skyllde heidrast saa, Hilmer spyr til Reynslu þa, Sem Milldiing veiter Virding haa, Vil eg þu Aman kveder þar aa.

Duleñ er margur ad sier til Sans, So var Huxun þessa Mañs, Ad Milldiing hef-de meint til hañs, A moote svarar og giefur til Ans.

Saangvara Kongs og goodañ Hest, ad Gull-Koroonu er Sæmdeñ mest, prydehañ saa sem boreñ er best, Budlungs Sveiñ med Pijngeñ flest.

Hañs Taum-Jor leide Tignarmañ, Vm̃ Twn og Stræte vijtt sem kañ, Kallara læte hroopa hañ, So heidreſt ſæ ſem Kongureñ añ.

Minſtu þeſs kvad Millding nu, Mardocheo ad veiter þu, Giorvallt ſo med goodre Trw, Ad gleymeſt eingeñ Virding ſu.

Aman þetta iñañ ſkar, Af ſier þo med Horku bar, Setur æ beſta Millding Mar, Mardocheum med Sooma-Par.

Aman leider Heſteñ hañs, Hier liet ecke verda æ Stans, Vm̃ Stræteñ oll og ſo til Sans, Soome roomar þeſſa Mañs.

So ſkal Hirdeñ heidra þañ, Sem Hilmer beſtu Sæmdar añ, Aptur ad Porte Audlings rañ, Aman ſkyllde þar vid hañ.

Aman kvelſt af Angre og Præ, J ſitt Hws hañ ſkundar þa, Sijnum Vinum hañ ſagde fræ, Svorudu þeir og Bauganæ.

Ef Madur er ſæ af Juda Ætt, Offeint hofum vier þeſſa giætt, Sem fyrer hefur þu Mijnkan mætt, Vid meira Falle er þier hætt.

Kongs Giellding ar koma þar ad, Kalla Aman þegar i Stad, Med Heidre ad ſækia Heimbod þad, Sem Hwsfrw Eſther fyrre bad.

Naudugur gieck nu Aman iñ, Eñ opſa gladur i Fyrra Siñ, Þvi ſærdu hañ æ Sañleik miñ, Samviſkuñar Gaflok ſtiñ.

Audling drack i Eſthers Sal, Afelngt Vijn med Gledeñar Hial, Eñ ſpyr þa ad med Ordaval, Eſther hvors hun beidaſt ſkal.

Af Vijne gladur Vijſer tier, Veitt ſkal þetta allt af mier, Nijked hælſt eda hvad ſem er, Til Heidurs villtu Oſka þier.

Eſther fiell þa fram̃ i ſtad, Fylker ſo med Tærum bad, Vilie miñ Herra veita þad, Sem voru Lijfe er Huggun ad.

Gullſpyrnna rietta ried, Ad riodre Snoct og huggar med, Bid þu þeſs ſem bydur Gied, Budlung liet ſo Vijſe tied.

Lijfe mijnu lijkna þu, liwfe Herra ſagde Frw, Og Ættfolks mijns fyrer Aſt og Trw, Þvi oſs er ſteſnt til Dauda nu.

Eg kiore mier helldur Prældoom þañ, Er þyngſtur Lijfe verda kañ, Vier þegdum oll um̃ Oſundar-Mañ, Ef ecke ſkadade Kongeñ hañ.

Hvor er ſa Mañ ad Millding tier, So mykla Foolſku tekur ad ſier, Eſther ſeiger hañ Aman hier, Jllſku ſlijka med ſier ber.

Audling reidur wtgieck þa, So Aman ſijna Hel-For ſæ, Veik ad Eſther miukt ſem mæ, So mætte hañ ſijnu Lijfe næ.

Jñ gieck Ræſer aptur i Stad, Medañ Aman veik ſier Drottning ad, gramdeſt Millding meir vid þad, Mordingiañ þvi fænga bad.

Er hañ ſo diarfur Audling tier, Eſther vill hañ deyda hier, Jñ i Sal fyrer Augum mier, Jllañ Daudañ kauper ſier.

Fyrer

Fyrer Amans bundu Augun þar, Ostillt Reide Kongsins var, Hilmers Sveiñ sa Horku bar, Harbona gaf þetta Svar.

Fram i Garde er fimtugt Trie, Er Falsareñ sette uppa Spie, Mardocheus ad Mindeñe, Miog vel ser þar heingdur sie.

Hilmer talar af Horku þa, Heinged hañ þar sialfañ a, So var giort og ses-adest þa, Siklings Grimd og liette Praa.

Peñañ Dag gaf Doglings Raad, DRottning Esther Valld og Raad, Yfer A-mans Hwse Eign og Laad, Pad af sier braut hañs Foolskañ braad.

Mardocheus fyrer Millding stie, Meir er Von hañ falle a Knie, Esther dregur nu ecke i Hlie, Ad hañs Broodur-Dootter sie.

Mardocheo Millding fær, Siñ Mekta Hriijng med Trygder þær, Sem Aman haf-ve allar nær, Pvi Esther var honum Hiarta kiær.

Esther talar vid Audling þa, Ef eg maa þessa Beidne fa, Pier kalled aptur skrif-ada Skraa, Par skipade Aman Juda ad slaa.

Ei maa eg siaa kvad Audarnipt, Ad Ettfoolk mitt sie Lijfe svipt, Pad er mier bæde Skade og Skript, Skiolldung laat þvi aptur kipt.

Eg liet heingia Aman hañ, Audling talar sa Vijse añ, Gaf eg þier hañs ed gof-uga Rañ, Goss og Fie pad atte hañ.

Fyrer þa Sok hañ groof þad Grand, Gydinga Lijd um̃ sierhvort Land, Nu sel eg þier Pant af sialfs mijns Hand, Miñ Signets-Hriijng i Astar-Band.

Under Nafne mijnu maa, Mardocheus laata skraa, Letred sem þijn Lyst er a, Legg eg þar til gledelegt Jaa.

Rit þad eingeñ riwsa maa, Sem Ræsers Hriijng er þrykt uppa, Pvi munu Judar Frelse fa, Ad Fyrersogn Esther rædur þa.

A Maanude fyrsta Syvan setur, Sioole liet þa skrifa þad Letur, Tuttugu Daga telia getur, Tvo og Eiñ ad auke betur.

Peim sem hallda Lofdungs Lien, Letreñ verda birt og sien, Su Vijfalning er Hil-mers hrein, Ad hindre Juda eckert Mein.

A Susans Slote er sagt og tiad, So være wt um̃ Londeñ skraad, Ad Gydingar feinge af Niflung Raad, Noogañ Styrk med fullre Daad.

Med Lofdungs Raade riett i Stad, Var ritad og skraad sem Drottning bad, Ad Gydingar fylgest aller ad, Assverus þeim bydur þad.

Bydur Judum Budlungs Letur, Ad bwest til Varnar hvor sem gietur, A þañ Dag sem Aman setur, Og Ovine þeim i moote hvetur.

Dag Prettanda sette sa, Og sagdañ Maanud kvad þar a, Ad Juda skyllde alla slaa, Eñ þeir bwest til Varnar þa.

Dreped og deyded heideñ hvorn, Hlyfest ei vid Konur og Born, Pad leysest þo þier Landsmañ vorn, Laated sæfa Vndaþorn.

Pesse

Þesse Brief voru þryckt sem best, Med Þeingels Hrijng og Trygdum fest, Hleypt med þau sem mætte mest, Milldings sparade ei Svein nie Hest.

Af Hundrad Londum heimte Skatt, Hilmer ør med Lynded glatt, Og Priatige betur þad var satt, Premur ad Tolu vard æfaatt.

Lofdungs voru þvi Letreñ skraad, Vm̃ Londeñ øll sem fyrr var tiaad, J hvøriu Maale er hafde naad, Heideñ Þiood um̃ sierhvørt Laad.

A ungum Mwl so ort ad reid, Eiñ og sierhvør fram̃ æ Leid, Briefa-Sveiñ ad giordest greid, Gydinga Hiaalp um̃ þetta Skeid.

Dæsamlega DRotteñ maa, Duga þeim best hañ treysta aa, Ending skal so fulla faa, Fioorda Rijmañ Esther fraa.

## Fim̃ta Rijma af Esther.

ENN skal reña hid Fim̃ta fram̃ af Fræda Bruñe, Mærdar-Vijn og Miod-ureñ þuñe, Midlast þeim er Skiemtan uñe.

Verkeñ merke Veralldar Þiood og vegleg Dæme, Af DRottne giord so Dygda-Næme, Daglega oss ad Hallde kiæme.

Ritning vitnar vijda þad ef villtu adgiæta, Hiarta-Giæskañ Guds hins sæta, Goodfwsa mun Naudsyn bæta.

Þo lijde Strijd med læ̈ngre Neyd og Lucku stirda, Ef Orded Guds i Hiarta hyrda, Hañ mun þeirra Bæner virda.

Sijdañ prijda Sooma þa med soddañ Hætte, Þo øllum Heime ørvænt þætte, Ad Ættkvijsl siñe hiaalpa mætte.

Lioos er Josephs Ærañ øll og Ættarstod, Daniels lijka Dæmeñ good, Af Drottning Esther birta Liood.

Adur tiaad i Ode var þad Audling sende, Til Gydinga Lyds af liwfre Hende, Letreñ sterk og veriast kiende.

So snerest hier fyrer Herrans Raad og hæstu Millde, Ad hañ sem aadur hæ̈n-ga skyllde, Hafeñ er nu i besta Gillde.

Hañ sem gieck med Hæru seck og harma rædum, Mardocheus er giæddur Giæd-um, Gøfugum pryddur Silke-Klædum.

Frægdar Nægd af flestum bar nu Fostre Brwdar, Med Gull-Koronu og glæst-añ Skrwda, So gieck hañ wt fraa Stiller prwda.

Miste Sorg i Susans Borg allt Siklings Meinge, Judar trw eg þvi Fognud feinge, Ad Fylkers Brief sem greidast geinge.

Þeir hallda og giallda Heimbod rijk i hvørium Stad, Og Fagnadar Øl þa fiñ-ast ad, Sem feinged høfdu Letred þad.

Af Juda Lydum Otte stood so øllum Þioodum, ad geingu iñ fra Godaña Slood-um, A Gydinga Sid med Vilia goodum.

J riett æsettañ Tijma til sem tiaade Letur, Ebresk Þiood þvi Audling hvetur, Ovi-ne sijga sigrad gietur.

Adur er tiaad um̃ Amans Grimd og ∞ſett Raad, Ad Ein-daga þeim fær Judar gaad, Sem Audling hafde þeim til ſkraad.

Þeir ſlæ ſier þa i Hoopa hvar i Hierodum bwa, Fiandmoñum a Flootta ſnwa, framar eñ nockur ſkyllde trwa.

Ad heria og veriaſt vogar ei Piood, nie vid þeim ſtanda, Þvi Otte og Hrædſla allra handa, Af þeim ſtood ſo Lyd ma granda.

Liens-Meñ eins fyrer Audlings Brief um̃ allar Jarder, fylgia Judum furdu harder, Fiandmeñ voru til Dauda barder.

Hrædſlu ſloo yfer heidna þo þeir harder þætte, Þvi Mardocheum Milding ſette, J meſtu Sæmd ad Tign og Riette.

Sooma Roomur ſa gieck wt um̃ Siklings Vellde, Mardocheus þeim Heidre hi-ellde, Hrædſlu þad yfer margañ fellde.

Judar prwder hertu Hug ſem hermt er fra, A Suſans Slote Hilmer hiæ, Hundrud fim̃ til Dauda ſlæ.

Amans grim̃a Synena lijka ſex og fioora, ſloou i Hel med Hædung ſtoora, Og heingdu upp ſem ſkorpna Bioora.

Audling ræder Eſther vid þa allt þad ſpurde, Hvad heñar Foolk þar heima giør-de, Halfa Puſund ſloo med Sverde.

Mig grunar ad mune Gydinga Her kvad Geimer Landa, J Fiarſka vid mig fleir-um granda, Frelſa ſkalltu burt ur Vanda.

Giefe þier Leyſe Linſan kvad vid Landſins Meinge, Gydingar meige ſo leika lein-ge, ad lijka Synena Amans heinge.

Jætar kætur Peingell þvi og þad var giørt, Um̃ Amans Syne er einſkis vert, Par iñañ Borgar Lid mun ſkiert.

J Suſan fwſer Judar eñ med Jarne ſlæ, Hundrud þriu ſem hermt er fræ, Eñ hvorge ræna Gotze þa.

Skierd fyrer Sverdum Juda er ſu eyſtre Alfa, Siotijgu Puſund þar til halfa, Peir hafa deytt eñ Reudur ſkialfa.

Mæanud greiner Adar eñ ſem ædur ſeiger, A Prettanda þad var Deige, Peir hafa Her um̃ Landed ſleiged.

Hætijd læta hallda þvi fyrer Heiller prwdar, A Dag fiortanda froomer Jud-ar, Feingu Sigur af Volldum Brwdar.

J Borg æn Sorgar Suſan þeir hia Sioola Rijka, Fyrer DRottins Raad og Dæaſemd ſlijka, Dageñ fimtanda hallda lijka

Mætur lætur Mardocheus þad meſt nu vanda, Ad ſkrifa þau Brief til Skiolld-ungs Landa, Ad ſkule ſu Hætijd leinge ſtanda.

Hvar ſem var þa Juda Sveit i Audlings Vellde, Tvo Daga þeſſa Hætijd hiell-de, Pa Harm og Pra fyrer Gledena ſellde.

Hæfur Gæfur hvor skal þa og Heimbod veita, Purims Dagar plaga ad heita, Pryde-Tijdeñ Gydinga Sveita.

Pa Hætijd sijdañ hallda þeir med Heidre mesta, A hvoriu Are Heimbod Giesta, Hafa og þar med Skiemtan mesta.

Miñast sviñer Judar opt a Amans Reide, Og sa þeirra Óvin leide, Alla villde ad Herlid deyde.

Eñ Gudleg Nææd so gevse brætt, Þeim Grimleik hneckte, So Aman sialfur Heinging hrepte, Og hañs Nidiar eñ Volldum sleppte.

Esther mesta Audnu beid hia Audling frooma, og Mardocheus settur i Sooma, Soddañ Heiller Judar rooma.

Purims voru þvi Helge holld i hæsta Gillde, Þvi Mardocheus þad miñast villde, Ad Myskun Guds ei gleymast skyllde.

Esther seste hreint og hañ med hæsta Rææde, Eilijf Bref so ad þvi gæde, Ættkvijsl su a hvoriu Lææde.

Þau Løg eru miøg i Miñe høsd af Mañdoom soñum, Pa Hætijd veita Heimbod Grøñum, Og hiælpa eirneñ Þursamoñum.

Atte og mætte Assverus sa Audling fræge, Leggia Skatt a Lond og Æge, Loksins fra eg med Heidre dæie:

Af Milldings snilld er meira tiæd af Media Lande, Añall fra eg af honum stande, Og Esthers lijka Trygda Bande.

Esther hæst i Heidre sat og heñar Brooder, Audmykt prijder allar Piooder, S Enda-Dagarner verde gooder.

Hæste og ædste Himna Gud vor Hiortun myke, a Siduna gooda so honum lijke, Sijdañ leide oss i sitt Rijke.

Odar Liood af Esthers Book siñ Enda fiña, Þo undañ falle ecke miña, Eirn Gud mun þar Boot a viña.

## Rijmur af Tobias, kvednar af Sijra Jone Biarna syne, i Presthoolum.

### Fyrsta Rijma.

Hullstra traustan Ara Biorn ætla eg fram ad setia, Nææden DRottens Giæsku giorn, Giore mig þar til hvetia.

Aungva hef eg Eddu Ment, Orda-Snilld ad vanda, Veit eg mier þvi valla hent, Vidrigs Dryck ad blanda.

Var hier fyrr i vorre Sveit, Vol a Skiemtan Liooda, Nu er Þogn i þessum Reit, þverrar Listeñ gooda.

Gud vill ei ad Gæfur hær, Geymdar nidre liggie, Helldur ad aukest Heidran klær, Og Holdar Skiemtan þiggie.

Angrar mig þañ Heimsins Hætt, Ad hygner þañeñ þeigia, Verd eg þvi med veykañ Mætt, Vilian fram ad seigia,

Hvorke

Hvørke skal hier Hæd nie Spótt, Hriooka miet af Muñe, Yrkia helldur um Efned gott, So aller skilia kuñe.

Ast Meñ Guds i Heime hier, Sem Herrañ sialfur kiñde, Byrder hwngar bæru œa sier, Med beiskum Nauna Vende.

Poleñmæde hin þrifna Frw, Var þeirra Stod i Pijnu, Þvi þeir geymdu trygg-va Trw, Traust i HErra sijnum.

Hañs mun Ast og iñre Fridur, alldrei fra þeim vijkia, Eirneñ þeirra Ættar Lidur, Æ med Gude rijkia.

Hvor sem Gud og goodañ Sid girnest jafnañ rækia, Adstod hañs er Eingla Lid oss til Luckn sækia.

Eg mun verda Dæmeñ dijr Drottum frañ ad leida, Epter Sorg vill Herrañ hyr, Huggun sijnum greida.

Nockur Madur Trwar traustur Tobias ad Nafne, J Verkum goodum var so hraustur, Valla fanst hañs Jafne.

Anna hiet hañs Eckta kvon, Agiætt Rædaneyte, Ol vid heñe einka Son, Eitt var beggia Heite.

Lofgiord oll hins liufa Mañs, Laut ad Gude soñum, Alldrei veik af Vegenum hañs, Eñ var med heidnum Moñum.

Herleidingar hrepte Sorg þo Herrans Vinur være, J Nafnkuña Ninive Borg, Neyddur trw eg hañ fære.

Atrwnadar illum Keim Ytar þeir sig vefdu, Alldrei fanst hañ fylgde þeim sem falska Gude hofdu.

A sier hafde gooda Gæt, Og grandvarlega Breytte, Af Heidnum Foornum alldrei æt, Þo adrer þeirra neytte.

Otta Guds og Helgañ Hætt, Hver sem geyma þorde, Tobias þeim talde þrætt, Trw af DRottens Orde.

Hvorn Dag sijna hafde Leid, Til Hertekiña Maña, Hreste þa sem þoldu Neyd, Og þeim fieck Huggun saña.

Christnum veitte Klæde og Mat, Sem kvalde Neydeñ harda, Fws var til ef fundēd gat, Framlidna ad jarda.

Eitt siñ hitte anman þañ, Eirn af Slekte sijnu, Gabel nefnest goodur Mañ, Sem siste Sorg og Pijnu.

Aureigu hañs a alla Lund, Aumkar Madureñ goode, Totra Mañe Tiju Pund, Talde wr sijnum Sioode.

Kom i Landed Kongur sa, med kaska og illa Dreinge, Er gramdest miøg og gyrntest œa, Guds ad eyda Meinge.

Jsraelis Ættar-Meñ, Ecke villde hañ lijda, Meinlaust Folked margt i señ, myrda liet so vijda.

Tobias sier Trygder jook, Trwar þañeñ neytte, Lijkeñ Juda jafnañ took, Og Jardan ollum veitte.

Allar þessar Jdiur hañs, Einhvor Konge sagde, Greip þa Fie hins frooma Mañs, Og Fiandskap a hañ lagde:

Peinkte sier ad þessum Hal, Pwnglega skyllde giallda, Dogling seiger Dreingeñ skal, Drepa eñ Fienu hallda.

Fliootlega giordest Flootta-Madur, Og flwde Daudans Pijnu, Fielaus ordeñ foor so gladur, Ad forda Lijfe sijnu.

Leinge foor i Lande þar, Leynt hia Vinum goodum, Vns ad Fylker falleñ var, Sem fyrre styrde Pioodum.

Visse sier þa fullvel fridt, Fiarhlut aptur ad viña, Vende heim med Hyske sitt, Til Hwsa og Eigna siña.

Hatijd eiña um helgañ Dag, Hiellt hañ Gude soñum, Veglegt bioo til Veislu-Plag, Ad veita sijnum Grøñum.

Vid siñ unga einka Son, Ordum ried so venda, Eiñrar Ferdar attu Von, Et-la eg þig ad senda.

Furdu hradur fardu eñ, Vm Frændleifd ockar alla, Gudhrædda og gooda Meñ, Giesse til mijn kalla.

Sveirneñ geingur sijna Leid, Sem hañs Fader kiende, Ferdeñ hañs var fullvel greid, Fliott og aptur vende.

Til Orda took hiñ unge Sveiñ, Pa allt var komed i Sæte, Daudañ fañ eg ad-gañ eiñ, wte liggia a Stræte.

Uppstood þegar hiñ Elldre Madur, Og einskis villde neyta, Padañ i burt og helld-ur hradur, Hræsins foor ad ~~leita.~~

Funded Lijked flutte heim, Falde i Hwse sijnu, Gieck so iñ og at med þeim, Ang-urs spentur Pijnu.

Eñ þa Dagureñ Enda fieck, Og adrer fooru ad sofna, Til Jdiu siñar grateñ gieck, Ad greptra þañ hiñ dofna

Viñañ hañs var varla þeck, Vimm þeim hañ atte, Avijtur hañ af þeim fieck, So alla fordast matte.

Virte hañ hvorke Vijsers Makt, Nie Vijtur siña Grañs, Pvi Tobias hafde Trwnad lagt, A Tignar Kongeñ saña.

Dirfast took i Dreingskap þeim, Sem Daudum þotte varda, A Daga foor ad draga þa heim, Eñ diñre Nootta jarda.

Eitt Siñ kom ad Kvollde heim, Kappeñ Dygdarijke, Stoorlweñ i Storfum þeim, Stird ad jarda Lijke.

Varpar sier vid Veggeñ nidur, J vijdu Hwse ad liggia, Par vill meddur Maal-ma Vidur, Miwkar Nader þyggia.

Litlu

Litlu ſijdar ſofnar greitt, Og ſiñe kaſtar Mæde, Fugls[i]ns Drit wr Fiodrum heitt, Fiell i Auguñ bæde.

Sionlaus vard og ſat med Hrygd, So vill longum falla, Peim ſem HErrañ heidra af Dygd, Hañ reyner þa alla.

Villde Gud i Prautum þiaa, Pienara ſiñ hiñ kiæra, So þad mætte Piodeñ ſiaa, Og Poleñmæde læra.

So ried vaxa Sorgeñ braad, Sem ſeiger i Ode mijnum, Hañ vard ad lijda Laſt og Haad, Lijka af Vinum ſijnum.

Komu þeir þar med Kalls og Spott, Er kiæra fordum ætte, Hvar er þad allt þu giorder gott, Og Gude lijka matte.

Aulmuſur og oll þijn Trw og Idiur goodar fleire, Hiaa Gude eru gleymdar nu, Og Graatur þiñ ad meire.

Tobias greider ſoddañ Svar, Seggium þeim hañ hæda, Ydar Trw maa ecke par, Og ill er þeſſe Ræda.

Þvi vier hofum þa Von og Trw, Er verdum hier ad ſyrgia, Ad oſs mun ætlud Sælañ ſu, Sorg mun wte byrgia.

J Hrygdum ollum huxa ber, Vm̃ Huggun þa vier eigum, Þegar ad lided Lijfed er, Lauſnar vænta meigum.

Reiddeſt alldrei Rauna-Madur, Reyndur miog þo være, Alla Daga giorde gladur, Gude Lof ſem bære.

Anna Frw ſem ætte hañ, Allvel Dygda neytte, Ydeñ Verk hun einatt ſpañ, og Adſtod gooda veitte.

Hryggvañ þañeñ Herra ſiñ med Handbiorgeñe nærde, Af Viſtum þeim ſem vañ hun iñ, Og Voludum lijka tærde.

Til Vtvega ſiña Audarnaa, Eitt Siñ hafde geinged, Kom ſo aptur Kiærañ þa, Ad Kidling gat ſier feinged.

Boonda heñar braa ſo vid, Er Buckſins Jarmeñ kiende, Ecke ſkyllde hid unga Kid, Ofriaalſt þier i Hende.

Aptur ſkila ungum Saud, Eignarmañe ſijnum, Eingeñ vor ſkal Ofriaalſt Braud, Eta i Hwſum mijnum.

Reidaſt took og rodna Snoot, Med Rædu þeyge miwka, Bæde ſijdañ Brijxl og Hoot Ad Boonda lætur ſiwka.

Audſied er kvad Audarbrw, Ollum þeim þad frietta, Ad Aulmoſur og oll þijn Trw, Einſkis vert er þetta.

Von er þvi ad vaxe Neyd, Pa Vina Stodeñ dvijnar, Brijxlar honum Brwdureñ reid, Vm̃ Bol og Eymder ſijnar.

Epter þad took aumur Þegn, Ad andvarpa og graata, Sijna Neyd og Synda-Megn, Sialfum Gude ad jaata.

 Mætk-

Riettlaatur ertu DRottẽn dyr, J Doome og Verkum þijnum, Myskun veit mier HErrañ hyr, Og hiaalpa i Naudum mijnum.

Minstu hvorke aa mijna Stygd, Nie Mootgiørd fyrre Maña, Helldur aa Saatt og saña Trygd, Og Synda Refsing baña.

Rett er Von ad reidest þu, Miñ Riettlaataste HErra, Þvi vier gleymdum goodre Trw, Og giørdum margt hid verra.

J þessu Lande þwnga Smaan, Þar fyrer verdum lijda, Ovinaña ordner Raan, Og wtdreifder so vijda.

Syn þu DRottẽn milldur mier, Myskunseme þijna, Hafdu i Fride heim med þier, HErrañ Saalu mijna.

Kys eg nu i Gude gladur, Giarnañ helldur deyia, Eñ ad lifa aumur Madur, Eymder leingur ad þreyia.

Eñ aa medañ hiñ Aume bad, Adburd þañ eg seige, Eins bar til i ødrum Stad, A þeim sama Deige.

Raguel hiet rijkur Þegn, Er rœkte Trwna klaara, Anna Hwsfrw allvel giegn, Og eirueigeñ Dootter Saara.

Soñum Gude Side og Trw, Saara giørde ad Vanda, wt af heñe ætla eg nu, Æfentyred standa.

Sis Siñum var Seimahrund, Selld til Eignarmañe, Þo var eñ vid allra Fund, Ospialladur Svañe.

Jllur nockur Ande saa, Þeir Asmodium kalla, aadur eñ svaasu heñe hiaa, Hañ myrte þa alla.

So bar til hiñ sama Dag, Er Seggium fyrr eg talde, Jllt og mijked Ordalag, Ein Ambaatt heñe valde.

Þyged vonda þañeñ tier, Med þwngu Brijxle og hørdu, Alldrei lifne wt af þier, Afkvæmed aa Jørdu.

Eins vænt eg þu ætler nu ad afmaa Heilsu mijna, Mordingiañ sem myrter þu, Og marga Bændur þijna.

Saara griet og gieck i burt, Og Guds sijns foor ad leita, J þañ Tijd var eingeñ Kurt, Obyria ad heita.

Sætu fraa eg ad Sorgeñ vex, Hun sat i Hwse þraungvu, DRotteñ bad um Dægur Sex, Droos og neytte øngvu.

Ecke liette Brwdureñ blijd, Af Bæn og Taarafloode, Þar til Huggun saña um sijd, sende Fadereñ goode:

Þad mun vijst kvad Þornanaa, Þeim sem DRottins giæta, Ad epter Hrygd og þwnga Þraa, Þeir faa Huggun sæta.

Þettã þungt eg Bryxle ber, Bøl vill a mig falla, Leuse Herra liett af mier, Leys mig burtu ella.

Fiærre

Fiærre var mier Fysneñ su, Ad fylgia Gyrndum mijnum, Einum v illda eg veita Trw, Vijst i Otta þijnum.

Eg var þeirra omakleg, Af mier styrder Vanda, Ella hefur þu ætlad mig, Einhvorium til Handa.

Ef vier þioonum þier med Dygd, þad mun ecke bresta, Lier þu epter lidna Hrygd, Lucku og Huggun mesta.

Beggia þeirra Bæner señ, Budlung Himna kiende, Synde Daad og Dugnad eiñ, Og dyrañ Eingel sende.

Til Raada kom þeim Raphael, Riett i nefndañ Tijma, Fyrte Neyd og fylgde vel, Falle þañeñ Rijma.

## Aukur Rijma.

EG mun verda i añad siñ, upp ad reisa Hroodur miñ, Sidum goodum seigia fra, Ef Segger vilt du hlyda a.

Þo eg villde Þundar Vijn, Þegnum biooda ad gamne mijn, Þa mun ecke Þiooden nein, Þessa nyta Mærdar Grein:

Ecke er breyttur Braguren, Ef berast kañ fyrer Hygna Meñ, Ofroodum og Ungum helldur, Ætla eg best ad hañ sie selldur:

Yngre Meñ og elldre Þiood, Epter Dæmeñ fiña good, ef þeir þetta Efned frijtt, Astunda og huxa tijtt.

Gamler eiga ad giefa af sier, Good Dæmeñ so siaum vier, Eñ yngra Foolked fylge þeim, Og fra sier legge vondañ Keim.

Ungdoomureñ Odæll er, Og illa giører ad hegda sier, Þvi þeim elldre er þad tijtt, Athøfn sijna ad vanda lijtt.

Æru verd er Elleñ su, sem Ungum kieñer christna Trw, Frood ad seigia Dæmeñ dyr, Og Dygdum yfer jafnañ byr.

Æsku-Meñ og elldra Lid, Eiga þessu ad midlast vid, Hæru Mañe Heidran ber, Eñ hañ skal Dygder kieña þier.

Nu skal miñast aptur a, Efned þad sem hvarf eg fra, Tobias i Tarum laa, Trwskap sijnum alldrei bra.

Æfeñ sijn hañ ætlar brætt, Endast mune a þeñañ Hatt, Son siñ kiæran kvedur a Tal, Og kieñer hvorneñ breyta skal.

Heyrdu Son miñ Hiarta kiær, Heilrædeñ þier kleñum vær, Amiñingar Orded mitt iñplanta i Hiartad þitt.

Þegar hiñ hæste heim til sijn, Hefur i burtu Aundu mijn, Mitt hid lidna Lijkams Holld, Legdu nidur i Jardar Molld.

Ætijd skalltu Arfeñ goodur, Elska Gud og þijna Moodur, Minstu þess ad mædd hun var, Medañ þig fyrer Briooste bar.

Attu heñe alla Hrygd, Umbuna med goodre Dygd, Sijdañ þa hun Sæludes, Setia nidur i Gröf hia mier,

Medan̄ ad Lijf þier endest allt, Almaattugan̄ gofga skallt, þier fyrer Augum hafdu han̄, Og Hiartans laattu geyma Ran̄.

Varastu jafnan̄ Verken̄ lioot, Sem veistu ad eru Gude a moot, Saurugleg an̄ synda Haatt, Samþyckia þu alldrei maatt.

Aulmosur af ollu Fie, Aumum skalltu laata i tie, Fordast allan̄ soolsku Sid, Faatækum ad stugga vid.

Ef þu ræker Auma Piood Um̄bun mun þier veitast good, Vor hin̄ hæste Herra þa, hyrlega þig slitur a:

Epter þvi sem þu hefur Maatt, Pursa Mon̄um Hiaalpa aatt, Ef Nægtum þijnum Nægd er a, nooglega skalltu veita þa.

En̄ þoott hafer Efnen̄ sma, Ecke maattu hvǫrfa fra, Gief þu þo af goodre Trw, Gagnast mun þier Myskun su.

Gud sem ecke gleymer þvi, Giefa mun þier Synda frij, Og Um̄bun gooda aptur ad fa, Einkum þa þier liggur a:

Aulmosan̄ er efunarlaust, Ecke lijted Naadar Traust, Hia Gude sem oss giefur Frid, Og grim̄um Dauda fordar vid.

Saurlijfe þu varna vid, Og vef þig alldrei i soddan̄ Sid, Hws-Frw þin̄e hiestu Trygd, halltu þad med allre Dygd.

Drambseme og Dreissed allt, Dygdarlega fordast skallt, Pvi alls hins illa er hun ein, Upphafed i hvorre Grein.

Þein̄ sem vin̄ur Verked þitt, veittu greidur Kauped sitt, Ecke leinge hijru han̄s, Hallda skyllder þessa Man̄s.

Ræktu ætijd Raaden̄ hrein, Og Riettlæted i hvorre Grein, eins sem villder aptur fa, Aumum skalltu jafnan̄ tia.

Mundu þitt ad briota Braud, Og bijta þeim sem lijdur Naud, Nær þu fin̄ur fatlausan̄, Med Fotum þijnum klættu han̄.

Eta og drecka iklum hiaa, Ecke skyllder gyrnast a, Hofklegt Raad, Pad hentugt er, Hia Hignum Mon̄um taktu þier.

Heyr mig Sonur Sæmdar giarn, So bar til þa þu varst Barn, J Rijkuglegre Rages Borg, Reika giorde eg ut um̄ Torg.

Gabel fan̄ eg Frænda min̄, Faatækan̄ med aumleik sin̄, Sijdan̄ Tiu Silfur Pund, Sett eg honum a þeirre Stund.

Sæktu þangad soddan̄ Fie, Er Seggnum liet eg fyrr i Tie, Handskrift ber þu han̄s i moot, So helldur verde greidslan̄ fliot.

Nær han̄ hana sialfur sier, Silfred mun þa greida þier, Laattu sijdan̄ laust i stad Letred ef han̄ gyrnest þad.

Kvijttu ei min̄ kiære Son, Kiættu þig vid gooda Von, Faatækt Lijf oss ætlad er, Ad un̄bera i Heime hier.

En̄

Eñ ef DRotteñ ottunst vid, elskum Dygd og goodañ Sid, Og Glæpum öll- um gongum frá, Gott mun alldrei bresta þa.

Sijnum Fødur Sveirneñ Svar, Sviñur gaf sem verdugt var, Eg skal hlyda i øllu þier, Epter þvi sem baudstu mier.

Þecke eg ecke þeñañ Mañ, Nie þaangad Leid sem bygger hañ, Okiendur fæ eg eingeñ Skil, a Aurum þeim eg kalla til.

Fadereñ ansar sa þu þier, Fylgdar-Mañ sem hollur er, Eins og giefur hañ gooda Raun, Greida skalltu Ferda-Laun:

Siidañ foor sem seiger Spil, Sveirneñ bioo sig Ferda til, wte hitte eirn þañ Mañ, Ecke þottest kieña hañ.

Sa var vel med Kostum klæddur, Kurteislega Sidunum giæddur, eins og være ærla Dags wtbueñ til Ferdalags.

Sveirn var fws ad fiña þañ, Er Ferdum hañs i moote rañ, Af þvi visse ecke par, Ad Eingell DRottens þetta var.

Kommumañeñ kvadde þar, Ad Kyne spyr og hvør hañ var, Eg er seiger ungur Sveirn, Israelis Madur eiñ:

Tia þu mier ad Tobias kvad, Trwlega sem friette eg ad, hvort þu ratar riettañ Stig, i Rages Borg ad leida mig.

Ansar hønum sem iñer hier, Alkuñug er Leideñ mier, Og giorla kieñ eg Gabel þañ, Ef gyrnest þu ad fiña hañ.

Til Hwsa hañs eg eirneñ er, Albweñ ad fylgia þier, Þegnar bader þetta Siñ, Þar næst geingu i Hwsed iñ.

Helgur Eingell heilsar a, Hryggvañ Mañ i Reckiu laa, Glede og Fognud giefe þier, Gud DRotteñ sa hæstur er.

Svarade hiñ sem heyra maa, Hvørneñ kañ eg Fognud faa, I Myrkre lucktur ligg eg hier, Lioos Heimsins mier bañad er.

Ansar hønum Eingell goodur, Atijd vertu þoleñmoodur, Herrañ sa þu heidrar braatt, Huggun mun þier senda braatt.

Ad Heite þijnu Kappeñ kvad, Og Kyne villde eg spyria ad, Eirneñ lijka ef þu villt, Ad þier taka þeñañ Pillt.

Ecke þarf eg Eingell tier, Ætt mijna ad seigia þier, vertu helldur vel til Frids, Verda skal eg þier til Lids.

Ferd hañs verdur Farsælleg, Fiña mun eg hiñ besta Veg, Eirneñ lijka o-siwkañ aptur til þijn leida hañ.

Sialfañ Gud hiñ gamle bad, Ad giæta þeirra Ferdum ad, Leider sijnar byria braatt, Bwner vel a allañ Haatt.

Moodur sijna hiñ mæte Nid, Miøg syrgiande skildest vid, Ockar er kvad Audarbru, Ellestod i burtu nu.

 Fære

Fære betur Fliooded kvad, Faatækt vorre ad lwta ad, Helldur eñ miñ ad missa Son, Sem mest er oss ad Hialpar Von.

Heñe vard ad telia Traust, Tobias so yrde hraust, ockar Syne eg hefe Grun, Ad Eingell DRottens fylgia mun.

Sagt er fra ad Sveinar þeir, siinar Leider geingu tveir, Racke nockur rañ þar med, af Raadum Guds er þetta skied.

Vid Moodu eina mællt var þad, Mæter tooku Næturstad, Ad Vatne geingur Sveirneñ so, Ad siinar mætte Fætur þvo.

Fiskur stoor wr Folldar-Und, Ferlegur a samre Stund, Uppskaut sier wr Añe þar, Og Ottasleigeñ Sveirneñ var.

Hræddur kallar Kappeñ þa, Kompan siñ er stood þar hia, Asynd hañs er ogur-lig, Hañ ætlar sier ad svelgia mig.

Eingell bad hañ Aurmum tveim, Upp ad ryckia Fiske þeim, Siidañ took i Talk-neñ hañs, Tobias og droo til Lands.

Siidañ biidur Sæmdar Reck, Ad sundra þañ sem faangad fieck, Lifur og Gall hañs Lækning er, Liika Hiartad geymdu þier.

Strauma Lagsins Stufa tvo, Steiktu þeir og aatu so, Eirneñ løgdu sumt i Sallt, Sier til Nestis geymdu kallt.

Tobias spurde Spektar Mañ, Spaadoom villda eg heyra þañ, Til Boota hvo-rra best er hent, Pad baudstu mier ad geyma þrent.

Eingell mællte so til sañs, Sniidtu þier af Hiarta hañs, Liiteñ Part og legg a Glood, Lækning mun þad harla good.

Reykur sa med ramlegt Megn, Rekur i burt fra Kviñu og Þegn, Diøfla kyn og kaskañ Maatt, So kuñe ad skada a ongvañ Haatt:

Fisksins Galled gooda Dygd, Giefur þeim sem hofdu Hrygd, Alla Glyu Aug-um fra, Aftekur so mætte siaa.

Seigdu mier kvad Sveirneñ goodur, Sie eg þu ert i Raadum froodur, Hvar vid meigum hverfa ad, J hentuglegan Nætur Stad.

Eingell DRottens ansar greitt, Eg skal leggia aa Raaded eitt, Hier i Borg er Bonde sa, sem best er ockur ad gista hiaa.

Recksins Nafn er Raguel, Rækne Guds hañ stundar vel, Pad er oss sagt til Sæmdar Mañs, Ad Saara heite Dotter hañs.

Fiaadur miøg og Menta giarn, Meyañ er hañs einka Barn, aattu þetta ad eignast Sprund, Og Audeñ hañs i Heimañmund.

Ber þu upp so bregdest ei, Bonord þitt uñ þessa Mey, goodur Kostur Giptu-lags, giørdur mun þier verda strax.

Ansa giørde ungur Þegn, ottunst eg þa feingna Fregn, Ad Moñum siø var Saataañ gipt, siidañ ollum burtu kiptt.

Vid Avijtaner illa uner Ogudhræddur, Pikest vel til varna bræddur, Vondra Maña Dæmum kiæddur.

Rædeñ giegn eirn goodur Þegn vill giarnañ þiggia, Ei kañ Daareñ ad sier hyggia, J Oddum þo giøre ad liggia.

Ad sie gæd fyrer utañ Ræd, Þo eckert viñer, So øngva sijdañ Jdran fiñer, Uñins Verks er kiendu sviñer.

Vijk þier fræ þañ Veg ad gæ, Sem Von er falla, Steinum hiæ med Stilling alla, Stødver þig eñ hlauper valla.

Treystu sijst þo Vegureñ vijst, Sie væñ ad siæ, Brauteñ slietta bregdast mæ, Børnum lijka sneidtu hiæ.

Hvad sem beint i Briooste hreint, Ad byriar þu, Treystu Gude af goodre Trw, Giæfusøm er Hlydneñ sw.

Hvør sitt Traust vill Hættulaust, A HErrañ festa, Og hønum syner Hlydne mesta, Hañ mun gott i øngvø bresta.

Skädlegt Bañ ei hender hañ, Sem hrædest Gud, J Freistinguñe fiñur Lid, Þvi Fullting DRottiñs hiælpar vid.

Hugvits skyr sier hvørge snyr, Fræ HErrans Orde, Ødrum Hræsneñ hrinda þorde, Hafs sem Bylgiañ Sneckiu Borde.

Fyrre siæ þu Efned æ, Eñ um̃ þad ræder, Undervijsun ef þig fræder, Andsvør betur greida næder.

Fævijss Mañs er Hiarta hañs, Sem Hiool æ Vagne, Hleypur i krijng af Heimsku Magne, Hugreñingeñ fiærre Gagne.

Hestur gradur hneggiar hradur, Hrossum moote, Og Hræsnareñ i hvøriu Høste, Hæds Maña vill kallast Noote.

Soddañ Ræd og Sagna Hæd, Þeir samañ bera, Hvad mæ Dageñ helgañ giøra? Helldur eirn eñ aññañ vera?

Viskañ stæsta HErrans hæsta, Hefur sliett, Adgreiningar æ þeim sett, Ar-Tijder so stande riett.

Hañ hefur Vølld um̃ Helgehølld, Og heiløg Fræde, Ars Daga fyrer Ordsins Sæde, Utvaled og helgad bæde.

Eins og Mølld er Adams Hølld, Og allra Maña, A þeim ad giøra Greining sañа, Gude matte eingeñ baña.

Hañ hefur Dæd og Nægdar Næd, Þeim nockrum bytt, Helgad blessad hafed og prytt, Til høllra Þioona kiøred og nytt.

Suma i Bañ og Bølvan hañ, Med Bræde sellde, Stiettum fræ og stooru Vellde, Støllta Meñ hañ ofañ fellde.

Øll er Þiooden ill og good, J HErrans Hende, Leir-Smidur so Lijmed rende, Sem lyster hañ og Menteñ kiende.

Skiepn-

Skiepnañ Mañs er Skapara hañs, J skiæru Vallde, Hvoriumtrwe eg hañ giefe og giallde, Sem giegner best og vill ad hallde.

Gud hefur riett hid Gooda sett, J Giegn þvi illa, Dyrdlegt Lijf mæ Daudañ stilla, Dygður bæta eñ vondur spilla.

Driwgum merk þu Dyrdar Verkeñ, DRottens sæta, Eiga Tvo sem ad mæ giæta, Odrum Tveimur jafnañ mæta.

Stolltum byd eg stioornar Lyd, J Starfe sijnu, Vel ad hlyde Mæle mijnu, Medañ eg þyde Parfa Lijnu.

Ekta Kvon þiñ eigeñ Son, Og Astmeñ gooda, Ongva læt þu yfer þig biooda, Uns þu helldur Lijffins Grooda.

Fie þitt allt þu ongvum skallt, Til Eignar veita; Epter a fær þu Jdran heita, Ef til þeirra þarft ad leita.

Uns ad Maattur og Andardraattur, Endest þier, Aungvum Mañe ef Audna lier, Vndergief þig sialfur hier.

Betur þarfar þijn ad Arfar, Þurfe vid, Helldur eñ þu af þijnum Nid, Þiggia verdꝛ er Hiælpar Lid.

Auk þier byr og Ordlofs styr, Af Aude þijnum, Voladur margur vesst i Þijnum, Er villtur slepper Heidre sijnum.

Eñ sem hallar Hel og kallar, Holdeñ æ, Rijkdoome ad ryma fræ, Riettvijslega skiptu þa.

Asna heyrer Knappa Keyre, Klyf og Foodur, Þrælnum Braud er þreytest moodur, Parfa Starf og Ageñ goodur.

Fylg þu ad vid Þræleñ þad, Er þioona skyllde, Onæda þig ella villde, Og aktar sig i stooru Gillde.

Hælseñ sveigia Bond og beygia, Bernsku Hoot, Eñ Stafur og Keyre Jyrfeñ Prioot, Starfe kioreñ eñ onare Boot.

Verka Fause Viñulaus, Ef vil eg ad geyse, Jllt margt kieñer Jdiuleyse, Olæn trw eg so margur reise.

Eñ þo Sekt og Ofbod frekt, Skallt ongvum setia, Forgeingur hin harda Hetia, Hoofed Offañ lættu letia.

Þioon þiñ ver og vernda hier, Sem verda kañ, Seggia hvor sem fæxer þañ, Sialfs þijns Lijfed meinar hañ.

Hallt hañ riett sem hæfer sliett, Og hañs er Lid, Adstod slijk þier efter Frid, Eins og Lijffins þarftu vid.

Hitt so fer ef Hoofe ver, Er halldeñ Dreingur, Hañ bregdur Vist og burtu geingur, Bistur vill ei þioona leingur.

## Þrijtugaste og Fioorde Capitule.

HEimsku rijkur sialfur svijker, Sælar Hreyste, Dærleg Von fra DRottns Leyste, A Drauma hvor sem giarnañ treyste.

Hvor

Hvor sem auma heimsku Drauma, Huxar æ, Skugganñ greidt vill griipa sæ, Og geystum Vinde hygst ad naa.

Siñe blindu Sañleiks Mynd, J Svefne giøra, Loged saurugt sioonum bera, Er satt kañ ei nie hreint ad vera.

Drauma Spaa er spottleg Praa, Og spiller Roo, Huxun giører þunga þo, Þat sem nockud under bioo:

Aungva Akt nie Visku vakt, Þeim veita ber, Ef þeir koma ecke þier, Af Jñblæstre þeim helgur er.

Ei er Dygd vid Drauma Lygd, Ad dryggia Ast, er margañ sveik og Seggium brast, Ad Svefn-Orum er villdu dæst.

Guds Ord kient og Lydnum lient, Er Leidsogn riett, Sie þvi fylgt sem fram er sett, Eñ forsmaa Draum og lygaña Prett.

Reyndur mest mun Raada flest, Og Recka fræda, Vel lærdur til Viisdooms giæda, Viturlega kañ ad ræda.

Skamsyn Madur Skilnings stadur, Skyniar fætt, Villu Andar vekia þrætt, Vandræde a margañ Hætt.

Fordum þar eg villtur vár, Fra Visku Bruñe, Fæænytt flutt eg margt af Muñe, Meira nam eñ seigia kuñe.

Sie eg nu um Sañleiks Trw, Ad siist maa blanda, Gudhrædder hafa goodañ Anda, a Grundvallaðre Visku standa.

Helger festa Huxun besta, J Hyggiu Rañ, Siina Von ad setia a þañ, Er sañarlega hialpa kañ.

Gudrækeñ sæ giarnañ viñur, Goodsemd eina, Ei þarf Skielsing Ottast neina, Þvi eirn er Gud hañs Traustèd hreina.

Vel Gudhræddur Sælu saddur, Seigiast mæ, DRottens Augu yfer hañ siæ, Og oflug Vernd er sliikum hiæ.

Hita i giegn er HErrans Megn, Þeim Hulning fest, Svale og Tialldbwd mæddra mest, A moote Follum Studning best.

Gledeñar Hægd hañ giefur af Nægd, Sem Girnd til stæde, Andlit glatt og Bragded bæde, Blessun Liif og Heilsu Giæde.

Eiliif Dyrd af ollum skyrd, Sie ædstum DRottne, Lodins Skeid i Lesning brotne, Liide Meñ þo Kvæded þrotne.

## Fioortanda Riima.

Horrar Dreggiar Fryggiar Øl, Fioortanda eg liooda, Dryck er ecke at Dyrum vol, Dauft þvi verd eg biooda.

Mier var ecke Mærdeñ kiend, Meistarans under Vende, Eddañ miin er ofañ send, Almættugs af Hende.

Vissa eg miina veyka Ment, Ad vanda Rædu sliika, Hefde mier eige HErrañ sent, Higlþar Gæfu riika.

Til

Til Aræðis Anda sin̄, Ein̄ Gud mier til lagde, Hoolastícktis HErra min̄, Hroodrar Efned sagde.

Af þeirra Trauste took eg Magn, Tæpan̄ Dug ad herda, Villd eg bæde Gaman og Gagn, Gumnum mætte verda.

## Þrijtugaste og Fimte Capitule.

ENN þo giefest Offur þrijtt, Af Raangfeingnum Aude, Anstyggelegt og engvu nytt, Acktast þad hiaa Gude.

Illra Giof er Ogiedlig, Fyrer Augum HErrans sæta, Ecke laata Synder sig, Meþ soddan̄ Gaasum bæta.

Fer þeim eins er Foorner giefur, Af Faatæks Eignar Baugum, Og þa Sonen̄ sæfdan̄ hefur, Sialfs fyrer Fodurs Augum.

Lijted Braud hin̄ aume aa, Einum sier ad veita, Hvor þad tekur hier fyrer maa, Han̄s Mordingen̄ heita.

Næring Lijfs ef nockur tekur, Naungans fraa Mun̄e, J hn̄s Dauda ad ei sie sekur, Alldrei veriast kun̄e.

Hvor sem vegar verdug Laun, Verk Man̄e ad neita, Blijdu lofar en̄ bregst i Raun, Bloods ma Hundur heita.

Þa Man̄ Bygger Efned eitt, Og aptur giører ad brioota, Þar af kan̄ ei an̄ad neitt, En̄ Erfided sialft ad hlioota.

Nyta Boon þo bidie Man̄, Ef bolvar strax aa moote, Sijst er Von ad sialfur han̄, Sin̄ar Bænar nioote.

Þeim um̄ Daudan̄ þreifar Man̄, Þvottur gillder valla, Ef saa verdur en̄ um̄ han̄, Aptur strax ad fialla.

Saa fyrer Synder þunga Þraut, Þreyter Føstu laanga, Onytt strax ef aptur braut, Er þeim Skripten̄ stranga:

HErrans Bod ad hallda riett, Hellst er Offred besta, Mikels akta Ordsins Stiett, Astar Foornen̄ mesta.

Þackar Gude saa er semur, Sætleiks Foorn þad heiter, Han̄ sem Myskun Man̄e fremur, Megtugt Offur veiter.

Aflaat Synda Goodgiørd er, Og Guds Þionustan̄ Man̄a, Raangindum ad hafna hier, Hlijsdar Offred san̄a.

Toomhentur ei hæfer þier, HErra ad birtast þijnum, Honum i øllu hlyda ber, J Helgum rædum sijnum.

Offur hélgra Audgan giefur, Alltarenu stæsta, Sætan̄ Ilm og Alit hefur, J Auglite hins hæsta.

Offurs giafer Gudlegs Man̄s, Gooda Hylle bijda, Almaattugum Utlaat han̄s, Alldrei ur Min̄e lijda.

Med glodum Augum gief þu Dyrd, Gude sem þier bære, Utlaat þijn med øngva Nyrd, Og ei sem Skortur være.

Alltijd siert i giöfum gladur, Giarn og fws til Ræda, Epter þvi sem ert til Madur, Efneñ hliota ad ræda.

Hyrleg Giöf mær helga Mañ, Og hollum Launum vallda, Gud vill sijdar sænia þañ, Og siofallt Endurgiallda.

J Utlætum varast vijst, Vesælingur ad heita, Af Offre þijnu allra sijst, Ordlofs þier ad leita.

Sunium HErrañ Hefndeñ er, Eñ Hiælpeñ aumra Maña, Augum hañs ei aktast hier, Alit Persoonaña.

Fodurlaus þa falleñ grætur, Fws vill DRotteñ hlyda, Eckna Bæner ecke lætur, Andsvars leinge bijda.

Eckiu Taar af Augum þrætt, Po ofañ reña hlioote, Þau kalla upp i Himeneñ hætt, Heiptar Mañe i moote.

Guds Pienare goodfwslegur, Giediast DRottne næsta, Peim mun Bæneñ sækia Sigur, Send i Lopted hæsta.

Bæn hins auma geingur greidt, J giegnum Skyeñ þröngvs, Þar til hun er heyrd og veitt, Hnecker fær i öngvs.

Mun þa DRotteñ dæma riett, Og dvelia ei ad giallda, Pessum Straffed þeyiu liett, Er Piæning aumra vallda:

Rænglætra hid rijka Valld, Reidur feller HErra, Hvorium einum greider Gialld, Giordum epter þeirra.

Foolks sijns hefner HErrañ sætur, Hördu steyper Meinge, Guds Næd hina glediast lætur, Græt sem boldu leinge.

Rooteñ þurr ma Regne best, Riettañ Tijma kioosa, So þa Neydeñ Mans er mest, Myskun fær hañ liioosa.

## Prijtugaste og Siøunde Capitule.

MAñsins Kvidur til sijn tekur, Tærings Fædu marga, Po er Matur misjafnt frekur, Mensku Lijfe ad biarga.

Villebrædsins reiddañ Riett, Reyner Twngañ hreina, Fra þvi saña Falsid sliett, Forsiæll kañ ad greina.

Prettvijs eiñ ma añañ hier, til Ofalls stundum giña, Forsooktur sig Vijtum ver, Og Verka giæter siña.

Mooodureñ alla elskad gietur, Arfa sijna kiæra, Samt ma Dotter Sonum betur, sidugu Headun færa.

Kviñañ frijd su kiæter Mañ, Kiær yfer Hlutena alla, Sie hun giæf og good vid hañ, Sarp ma sælañ kalla.

Peim sem hefur holla Frw, Hægdeñ skortar eige, Jñdæl Hiælp og Adstod trw, er uppa treysta meige.

Bæ siñ einaeñ brotum ver, i burt ef Gardur være, Breste Konu Boondeñ er, Beint sem villtur fære.

Neyfara þeim er Odygd añ, Eingeñ giorer ad trwa, Er Stada i mille stilla kañ, Eñ stødugur hvørge bwa:

So er Odygd otlud þeim, Sem eckert Hreidur hafde, Leitar þar til Hwsa heim, Er Hwmed Leider tafde.

Hollañ Vin sig helldur tijdt, Hvør i Rædu siñe, nockrer bera þo næsta blijdt, Nafn eñ Rentu miñe.

Ef Vina i mille þrwtnar Praa, Af þungu heiptar Naude, Seggia eingeñ sætter þa, Siaalfur'fyrr eñ Daude.

Hvad mun vallda vondskap þeim, Er vex i millum Sveita, Af Falsleika sem fer um Heim, Full ma Verolld heita.

Einum Vin sem allvel geingur, Adrer giarnañ fagna, Eñ sem ecke er Audnañ leingur, Otru vid hañ magna.

Sitt Ogagned spyrgia meir, Eñ sialfs hañs Neyd og Vanda, Hañ þo falle hyxa þeir hættulaust ad standa.

Goodum Vin a Gledeñar Tijd, Gleyma skalltu eige, Einkum þo þier Audnañ blijd, Aptur vaxa meige.

Eiñ so Raadeñ odrum leggur, Aldyggur sem være, Gagn sitt eiged sier þo Seggur, Siaalfum hvad sier bære.

Setnings gloggur siaa þu vid, Soddañ Raada neyte, Þeirra mun þier lijted Lid, Lijklega þo breyte.

Hañ raadleggur siaalfum sier, Sitt Gagn viña villde, Eñ fyrer Byrdum beiter þier, Beint so falla skyllde:

Af þeim þigg þu eingeñ Raad, Sem Ofund vid þig geymer, O-heill ongva Dryger Daad, Dygdum helldur gleymer.

Hvad mun Raad i Randa Jel, Ragur kuña ad leggia, Nie Kaup-Madur virda vel, Voruna yckar beggia?

Skyllde hañ siaalfur setia Lag, A solu Peninga þijna, Nie Okockeñ orleiks Hag, Odrum fram ad tijna.

Hvad skal þesse ad þiggia Raad, Sem þecker ongva Millde, Hvørneñ Madur nyta Raad, Nockrum veita skyllde?

Raunar eingeñ raadgast þarf, Nie reisa nockra Siñu, Vid Leigu-Dreing um Dygdar Starf, nie daadlausañ um Viñu.

Ræk þu ecke Orda Hial, Oraadhollra Grana, Giarnañ helldur girnstu Tal, Gudrækeña Maña.

Þeir sem HErrans hallda Bod, Og hnijga ad þijnu Siñe, Samharma og syna Stod; Segger ef rasa kyñe.

Hafdu þeirra hentug Raad, Hellst til Giorda þiña, Ecke muntu ædre Daad, Añarstadar siña.

HErrañs girnstu Hialpar-Lid, J hvorre Jdiu þiñe, Giorder þijnar greida bid, So goodañ Enda fiñe.

Adur eñ þu þitt ætlad Verk, Vppbyriar ad viña, Hentug Radeñ holl og merk, Haf til giorda þiña.

Peinktu ad hvad sem viña villt, Vijst mune af sier leida, Lof og Gott eda Last og illt, Lijf eda Daudañ greida.

Vel skickadur opt er eiñ, Odrum Raad ad iña, Heilrædeñ þo sialfur seirn, Sier til Gagns ad viña.

Klookleg hygg eg Recka Raad, Rauñ ill verda küñe, Sem hefiast ei af HErrans Naad, Og hreinum Visku Bruñe.

Sa af Reynslu verdur vijs, Og Vijsdooms safnar Faungum, Raunar fær af Radum Prijs, Og riett a hitter laungum.

Sa sem velur uñ Visku Magn, Veiter Kieñslu stærre, J Radum morgum gior-er hañ Gagn, Gietur og flestum nærre.

Maateñ skamtar Moñum Fior, Og Mundaangs Tijmeñ riette, Añars Lijffins eilijf Kior, Vtvolldum Gud sette.

Madureñ hyggeñ Heidurs Room, Hefur uñ Sveiter vijda, Mañord hañs og Miñing froom, Mun þvi valla lijda.

Sveitum veiter Visku Dygd, Vijsañ Prijs til Handa, Hrærda Mærd i Maal-sins Bygd, Mæta læt eg standa.

## Fimtanda Rijma.

Fimtanda skal Fræda Maatt, Folke vanda a nockurn Haatt, Vppbyriadañ auka Partt, So Ahlydendum verde katt.

Lærdoomur er lioos og hægur, Lof sitt vottar Meistareñ frægur, Eñ til Mærdar minstur Slægur, Morgum kañ þo stytta Dægur.

Jdeñ hvor þo orke smaatt, Akur siñ ef stundar þraatt, Vppskier riett a allañ Haatt, Eins sem syner Dygdar Maatt.

Jdinvirkur Akur Mañ, Akte hvor ad fiñest hañ, Eirn Gud giefur Avoxt þañ, Erfided sa blessa kañ.

## Prijtugaste og Attunde Capitule.

REyndu Son miñ hvad mun hier, Heilnæmt vera til Fædu þier, Lijkama þa Lyst-ing ver, Sem Lijfe þijnu skadlegt er.

Af hvorskyns Fædu fyll ei þig, Frekt þad bañar Heilsustig, Jñañ Meina epter sig, Aflar Neyslañ graaduglig.

Sviñer hafa a Setning Saatt, Sig til Dauds þvi margur aat, Hoofleg Neyslañ Lijffins laat, Leinger og verdur Æfeñ kaat.

Hyggeñ Lækner heidra ber, Hañ i Þorf so gagnest þier, Menteñ hañs i Heime hier, Af hæstum Gude tilsett er.

Kongur

Konga hæst er Heimsins Rañ, Heidra þeir þo Læknarañ, Listeñ giorer ad hefia hañ, HErrum jafn so reiknast kañ.

Skatna Lækning Skapareñ mætur, Skyrt af Jordu vaxa lætur, Hyggeñ hvør sem giefur ad giætur, Gyrnest slijkar Heilsu Bætur.

Þarsemd DRotteñs sies til Sans, Þvi soddañ kiemur af Krapte hañs, Ad fyrer Lister Læknarans, Lijkamans grædast Meineñ Mañs.

Guds Verk oll sem giordust hier, Greina kuñum ecke vier, Hañ giefur eiñ so alldrei hver, Allt þad gott á Jordu er.

Forlijt þig eige Firdum hiaa, Falle þier þo Heilsañ fraa, Helldur DRotteñ heiter aa, Hiaalp og Lækning muntu faa.

Lijfed gior þu Lasta frij, Laat af Synd er vafdest i, Hiartans verde Hreinsun ny, Hitt hid vonda sijdañ fly.

Foornum blijdum byter þa, Bæn Gudhræddra þigg ad faa, Strax sem atter epter A, Aüde og Lijfe falla fra.

Leita þa vid Læknarañ, Ef Lijfe siwku biarga kañ, Gud tilsette Grædslu Mañ, Gief þu ei fra þier lausañ hañ.

Opt þa Hepne hittum vær, Ad Heilsuboot hiñ Siwke fær, Fyrer Guds Barns Bæner hær, þo Bartskiereñ sie hvørge nær.

Saa sem DRotteñs Bodord brijtur, Bartskieranum sijdar lytur, Adur eñ Lijf ad Lycktum þrytur, J Lækners Heñdur falla hlytur.

Harma þañ af Heime fer, Hrygdar Merke sijn aa þier, Sveipadu hañ sem altijtt er, Ærleg Jardan Christnum ber.

Harms sie Stundeñ hæfelig, Hugga sijdañ aptur þig, Hrygdeñ leider Heliarstig, Hættleg þeim so kvelia sig.

Faatækteñ og fastleg Hrygd, Fyller af Angre Hiartans Bygd, J Freistingunum fulla stygd, Flestum giefur eñ ongva Dygd.

Aungvañ Harm nie Hrygdar Graat, J Hiarta þijnu festast laat, Ad Endalokunum gief þu Gaat, Giorvallt fellur Heimsins Staat.

Laateñ Mañ þott harmer hier, Hañ til þijn ei aptur fer, Gagnlaust honum eñ grand; ar þier, Ad graater meir eñ hoofslegt er.

Helldur siaa þu Sattmaal þañ, Ad sofnar þu sem añar Mañ, A fyrra Deige deyde hañ, J Dag þig þvilijkt henda kañ.

Christeñ Mañ sem laateñ liggur, Leinge skallt ei harma hryggur, Þad þig hugge Hal; ureñ dyggur, Hañs ad Saaleñ Naader þiggur.

## Þrijtugaste og Nijunde Capitule.

Rjtning hvør sem ydka aa; Añad valla stunda maa, Hvorneñ kañ hañ Kyñing naa, Sem keyrer Eyke og vaktar þa.

Hañ uñ Verknad hyxa hlijtur, Hvørn Dag sie ad nockru nytur, Ar og sijd ad Jo-

iu lijtur, Ellegar Fienad Fodrid þrytur:

Trie Smidur sem til er sett, Tijdum sijna stundar Stiett, Vandar mest ad Verked riett, Verde dyrt og falle sliett.

Jarn Smidur med sama Sid, Sitia hlijtur Stediañ vid, Omaks fær af Afle B:d, Elldmoodur eñ sialldañ Frid.

Hluster fyller Hamars Hliood, Heitañ Mæder Elldsins Glood, Pvi Astundun þar øll til stood, ad endud verde viñañ good.

Leirpottareñ lijka kañ, Longum reyna Hvijldar Bañ, Handa Raun og Foota fañ, Frekt ef stundar verknad þañ.

Ad gaa þarf hañ allañ Tijd, Efnud Kier so verde frijd, Ofneñ hreinsa Ar og sijd, Ef sitt hygst ad vanda Smijd.

Aller þeir eg aadur kvad, Athofn siñe hneigiast ad, Eru þvi þeir idka þad, Omissande i hvorium Stad.

J Samkundum ei kañ saa, Odrum Stioorn nie Kieñing tiaa, Hvorke þyda spektar Spa, Nie Spakmælum ad greina fra.

Seggur hurar Sumar og Vetur, Siaalft þad eitt eñ ecke betur, Erfidid sem Agirnd hvetur, Aflad hvad um sijder gietur.

Hañ sem stundar Heppne þa, HErrans Orda Visku ad naa, Laangfedgaña Lærdooms Spaa, leite fyrst ad grunda sa.

Lijf-Sogur hañ lese af þeim, Sem lofader voru fyrr um Heim, Menta og Dygda mætañ Seim, Meir girntust eñ Lasta keim.

Ef soddañ Dæmum Seggureñ añ, Og sier i Nyt þau færer hañ, Greina goodur og Maalskyr Mañ, Mektar Herrum þioona kañ.

Lijka saa med Lyst og Maatt, Sem leitar Guds aa allañ haatt, Sie Bænrækeñ Þegneñ þraatt, Þeim mun sialldañ raada fatt.

Fyrer þad blijda Bænar Hliood, Blijdkast Gud vid Heimsins Þiood, Vijsdooms Anda Gaafañ good, Garpnum vex um Hyggiuslood.

Þesse gaafañ Garpnum lient, Gagnsom verdur og morgum hent, Þar af fær hañ Þioodum kient, Þarfleg Raad og Lærdooms Ment.

Undrast Þiooden øll til sans, Afbragd Visku þessa Mañs, Alldrei fyrnist iñañ Lands, Agiætt Nafn og Miñing hañs.

J Predikun verdur sijdañ sett, Siaalfur hvad hañ mællte riett, HErrans Kyrkia hroosar sliett, Hañs Kieñingu og dyrre Stiett.

Medañ aa Lijfe mætur tefur, Meira Nafn eñ Þusund hefur, Lijka sijdañ Laateñ sefur, Lofsamlega Miñing giefur.

## Fertugaste Capitule.

HEyred Borneñ helg og froom, Hondled þar til nadugt Toom, Sæt ilmande edla Bloom, Auked DRottens Dyrdar Room.

Vott-

Vottum þad sem verdugt er, Ad Verk hans hvört i Heime hier, Harla er gott i sialfu sier, Sem han bijdur jafnan skier.

Sem þa Skaparans skickun good, Skipte i tvent hid mykla Flood, Mwrs sem Vegger Vatned stood, Veg so feinge hin helga Piood.

Liuft er Skiepnum lijda Raus, Ad lwta Skipun Skaparans, Eingen klage so til Sans, Svik nie Brest i Adstod hans.

Augun DRottens ætijd sia, Allt hvad giort er Monnum hia, Heims Upphafe Fyrstu fra, fram til þess han endast a.

Skilst oss lijttþo skodum vier þraatt, Um Skiepnu hvorrar Gagn og Maatt, Allt þo stodar a einhvorn Haatt, En þott syness brygdu smaatt.

DRottens Blessun fram so flytur, Folld sem Vatned doggva hlytur, Heidingiang Heiller brytur, Hardnar Jord ef Vokvan þrytur.

Guds Verk helger heidra best, Heimsker Men þau virda vest, Til gagns skopud godum mest, Giora þeim Illu hiaalpar brest.

Lijfs Þorf Seggia sanleg hier, Sallt Jarn Vatn og Elldur er, Hunaang Miol sem Hwngre ver, Heilnæm Mioolken Vijn og Smior.

Hulning Klæda er Hollde bar, Og hvad sem fleira telst til þar, Giort til Parfa goodum var, En gudlausum til Skadsemdar.

Vindur sterkur stundum blijdur, Til Straffs er giordur ei ad sijdur, Hans þa geisar Stormur strijdur, Stooran Skada margur bijdur.

Þegar ad koma Kvalning aa, Kaskier Vindar Heimen slaa, Hella wt yfer Haudur og Sia, Hans Reide sem giorde þa.

Hwngur Daude Hagl og Baal, Hættleg Dyr og Orma Taal, Vijga Sverd og Vopna Staal, Vondum slijkt er Hefndar Kaal.

HErrans Vallde vilinger, Vina þeir hvad boded er, Hvar han þeirra þarf med hier, þreytast ei nie hlijfa sier.

Vrskurdur sie saa um sijd, Samþycktur af Christnum Lyd, Ad Guds Verk oll eru good og frijd, Og gagnsamt hvört a sine Tijd.

Onytt kallast ecke neitt, Þad ædstur Gud hefur giort og veitt, Hiartanlega hvört sem eitt, Heidre Men og þacke greitt.

Hormulegt er Manlegt Mein, Medfædt oss en Booten sein, Þar til Mollden Moodur ein, Medtekur vor stirnud Bein.

Otte og Stwran Æsen er, Epteraa Dauden seinast fer, Hæstum eins i Heidre hier, Sem hinum er minstas Jorden ber.

Han sem geingur Gumnum hiaa, Med Gull Koronu og Silked snaa, Ahyggiu ber eins og sa, Sem alltijd skyler Hempa graa.

Alltjafnt hlytur yta Lid, Okiör slijk ad bwa vid, Ofund Hatur Heliar Bid, Heipt og Kross en siallda̅n Frid.

Og

Og þa nockur Naader hefur, A Noottuñe i Hvijlu sefur, Margskyns Heimska Hugeñ vefur, Hindrar Værd og Giñing giefur.

Svefn þa hvijler sialfañ Mañ, Sioonhverfing þo skielfa kañ, Ef argañ dreymer Ovin hañ, Sem asæker ad myrda hañ.

Hañ þa vekur Hrædslu Gnyr, Hrygd siñe i Fögnud snyr, Eins og þeim wr Orustu flyr, Otteñ hverfur og verdur rijr.

Gledeñar Svipur og Giñing flest, Gioerer so morgum Værdar Brest, A ollu Holldeeinatt siest, Omilldum þo langtum mest.

Bloods Vthelling ecke hrein, Olucka og Heiptar Grein, Hwngur Sverd og Heliar mein, Hvorskyns Straff og Plaagañ ein.

Allt þad sett og ætlad var, Omilldum til Refsingar, Fordiorfun þeim Flooded bar, Fanst til Hialpar ecke par.

Miñ vill bresta Mærdar streingur, Meiskred Haars þvi illa geingur, Reñur ei af Rosta leingur, Rognis skal so bijda Feingur.

## Sextanda Rijma.

HVi sextanda Pioodum byd eg Pagnar Bañ, Jdeñ Hendeñ audgar Mañ, a þad giorn er viña kañ.

Hvorke viñ eg Lof nie Laun, i Liooda smijde, Edla Raad eg odrum þyde, eingeñ þo mig sialfañ pryde.

Arkar smiderner uñu gagn eñ adrer nutu, Verknad hinum vanda hlutu, J Vatnenu þo sialfer flutu.

Po eg odrum kienda Kurt i Kvædum reise, sialfs mijns geymer syndugt Hreyse, Sidaña Brest og Viskuleyse.

Pad ma heita Hyggende og hvors Mañs Æra, J Heilrædum añañ læra, Eirneñ sier i Nyt ad færa.

## Fertugaste og Fyrste Capitule.

JOrdeñ allt hvad aflad gietur, Oss ad senda, A til heñar aptur ad venda, Oll sem Votn, J Sioonum lenda.

Jlla feingeñ Audur mun til Eydslu falla, Sañleiks Bloomeñ solnar valla, Sijdañ varer uñ Eilijfd alla.

Upp so þornar Ogudræknum Audur nytur, Sem reidar Prumu Regned brytur, Og raklende þad visna hlytur.

Gudlauser eru glader a medañ giafer þyggia, Endalokonum ad ma hyggia, Aumer þeir uñ sijder liggia.

Afkvæmed þeim ongvañ Kvist nie Avoxt greine, Root a berum stendur Steine, stodar ei Dogg vid slijku Meine:

Gudlegt Lijf hins liwfa Mañs er lijkt ad vanda, Alldin garde er ei ma granda, Æfenlæg mun Myskun standa.

Hvor=

Hvør sier Næring nooga viñur og nægia lætur, Raadugt Lijf og Svefn er sætur, Sioodur telst þad harla mætur.

Hañ sem Borger bygger upp og Børneñ getur, Langiæda sier Miñing metur, milld þo Kviñañ langt uñ betur.

Hiartad gledur Hlioodfæred og heilnæmt Vijn, Þo fær Vit og Viskañ sijn, Vinsælld þa er sijdar dvijn.

Pijpur hliooda helldur vel og Hørpuslaattur, Eñ Vinskaps Ord og Elsku Maattur, Øllum lijst þo fegre Haattur.

Margur vitiar vijst i Neyd til Vina siña, Hvort mun ødru Kall og Kviña, Kiærleikañ þo bestañ iña.

Brooder sijner nockra Raad, Þa Neyd er mest, Myskun heit i Hiarta fest, Hialpa mun þo þeirra best.

Gull og Silfur Guñum veiter gott Upphellde, hentugt Raad sem hyggeñ sellde, Helldur styrker Mañsins Vellde.

Makt og Gotz til margrar Dirfsku Mañeñ hvetur, Otte Guds þo øllu betur, Er þeim Nægd er hallded gietur.

DRottens Otte Grasgarde er goodum lijkur, Guds af Blessan giørdur rijkur, Gyrndar fagur er eingeñ slijkur.

Giør þu þig ei Þurfa-Mañ af þijnu Braude, Betre er helldur hægur Daude, Eñ Husganguren Dyada snaude.

Illt er þar ad oska Brauds er adrer borda, Hallda sig til Hræsnis Orda; Hyggner Meñ sier þessu forda.

Blygdarlausum blijd og sæt er Boonar Ydia, Opt þeir fa uñ Æfe midia, Oheilinde er þañeñ bidia.

Heliar Miñing Heimskum vekar Hugraun stranga, Er Sorgarlauser Farsælld fanga, Og flestallt vill ad Oskum ganga.

Þeim er Daudeñ þacknæmur sem Þrauter lijda; Og Elle kvillar opt a strijda, Eñ einskis hafe þo betra ad bijda.

Ecke skyllder brædast Hel eñ huxa helldur, Øllu Hollde Herrañ giélldur, Hegning þa sem Syndeñ velldur.

Eckert duger Oralfa moote DRottens Vilia, Æfe-skamteñ øngver kilia, Epter þa er hier vid skilia.

## Fertugaste og aftar Capitule.

BØrn omilldra Erfda ploogs sijns allijtt nioota, Last og Smaan ad Lyktum hlioota, Lags-Meñ þeirra er þañeñ brioota.

Vondur Fader Vitur Barna verdur lijda, Þvi fyrer hañs Foolsku strijda, Foraktan þau laungum bijda.

Þeim er Vei sem ecke aktar Ord hins hæsta, Þesser Lijfs og lidner næsta, Lijda verda Bølvan stæsta.

X x Allt

Allt sem verdur aptur Jord sem af heñe kom, Illſwo fær ſo Forbods Nööm, Fyrerdæmingar ſijdañ Doom.

Mootgangur opt endeſt þar til Æfeñ þrytur, Nafn Omilldra afmaſt hlytur, Eingeñ finſt þeim heidur nytur.

Hafdu kapp ad hallda meiger Heidurs Nafne, Pad oſpillt er fyrer Hunde og Hrafne, Og hvoriu betra Fiarins ſafne.

Eiñ þo kuñe iñdællt Lijf og Audlegd ſanga, Skamvint mun a gruñ þo ganga, Eiñ gott Nafn varer Dagana langa.

Adgiæted mijn Elſku Born þa allvel geingur, Ad Guds Otta þvi geymed leingur, Goods þarf ecke ſkamaſt Dreingur.

Eiñ ſijn ſkamaſt opt uñ þad ſem ecke ſkyllde, Og samþyckur þvi verda villde, Er veit ei nema ſijdar gillde.

Hiooneñ ſier þad hallde Skam ad Hordom drye, Hofdinge er legſt i Lyge, Og Log ſeigiande ad Rietteñ flye.

Alþydañ fær Æru-Breſt af Ohlydneñe, Goodur Vin ef Grand hañ viñe, Eñ Grañe Mañs af Pyſſku Siñe.

Blygdaſt þu a Bordum Braud i Hondum hylia, Klaart þiñ Reikning kuña ei ſkilia, Og kvedianda ei giegna vilia.

Skamaſt þijn ad ſkyllder epter Skiækium leita, Ellegar i Naudſyn neita, Naaſkylldum þier Lid ad veita.

Eiganda med Oriette fra Arfe vijkia, Eigeñ Konu añars ſvijkia, Ambaattar vid Sæng ad ſnijkia.

Vin og Broodur blygdaſt ſkyllder Brijxle ad ſiña, Epter leitanie aamiña, Vmbun hañs til Giafa þiña.

Skamaſt þijn ad herma hvad ſem heyra naader, Leyndra Orda ecke ad gaader, Einka Maal ef morgum tiaader:

Hvor med Skynſemd ſkamaſt ſijn, Og ſkwfar Meinum, Pryddur kallaſt Heidre hreinum, Og Hylle ſæll i Morgum Greinum.

Goodra lijka giæta ſkyllder Giorda hiña, Er ſkamaſt ætter ecke þiña, Og einskis vegna rangt ad viña.

Til Riettinda goodañ Grañа giarnañ ſtydia, Vid Trygda-Mañ þiñ trwtt ad ydia, Og til Arfſkiptis Vinum rydia.

Vigt og Mæling mietra riett og Maatañ ſiña, Hoogværd geyme Hiartad ſviña, Hvort þu aflar meira eda miña.

Riett Handtiera Heimſins Aud, Pott huxer græda, Born med Alwd upp ad fæda, Og argañ Præl med Vende hræda.

Vondre Konu veria þitt er vill þig æſa, Fyrer Odygdum allt ad læſa, Ad ecke ſijdar þurfer þræſa.

Vegg

Vega og telia allt hvad ætter odrum hiaa, Jñtekter og Vtgiolld sinaa, Vppskrifa sem glsggvast ma.

Gomlum Heimskum goodañ Lærdoom giarnañ kyña, Vid Vngmeñe ecke siña, Ordskyr ma so hvor sier viña.

Velskickadur virdest saa þvi veniast kuñe, Greindum Kostum giarnañ uñe, Gietur sier Lof af hvoriam Muñe.

Fodurnum eykur Andvokur hañs Ogipt Meyia, Hier til verdur Huxun hneygia, Og heilar Nætur Svefnlaus þreyia

Gullkord ugger gamlest syr, Eñ giptest Mañe, Til Ekta giefeñ ad Ovilld kañe, Eda Sie spillt i Fodur Rañe.

Boonda sijnum bundna Trw ad bregda meige, Born vid honum eingeñ eige, Obyria so Lijfed þreyge.

Dottur þijna Obliwga ef Ogun þrytur, Æru-Kosteñ af sier brytur, Ohroodur þu sialfur hlytur.

Kosta ei ad kieppast epter Konum frijdum, Hiaa þeim vertu valla Tijdum, Varna so vid Haska strijdum.

Motte kiemur Klædum wr, Med Kraxngdooms Slage, Maa so falla margur Bage, Mañe til af Kveña lage.

Haaska mriña Athvarf er hiaa illum Mañe, Eñ Kalls ad lijda i Kveña Rañe, Kiært þo laate vid þig Svañe.

Hafne illu hondle gott saa heyrer Kvæde, Heilræda ña hentugt Fræde, Hier mun Maal ad standa næde.

## Seytianda Rijma.

S Yrachs Bookar sætlegt Tal, Seytianda hier hefia skal, Ordgnoott dim og Eddu Briaal, Ecke aa skyllt vid Heilagt Maal.

Lofgiord DRottins skyrast skal, Med skiled og vandad Orda Val, Pad mun fleirum færa gagn, Eñ fornt og diupsett Kvæda-Magn

Hef eg þvi Odyrt Orda Letur, Einfolldum ad þockneft betur, Efne sijst þad uñbreyter, Eñ afkomtud er Gaafañ mier.

J Kieñing og Kvæda Lund, Kostgiæst hef eg þad alla Stund, Einfolldum ad auka Lid, Adrer mijn ei þurfa vid.

## Fertugaste og Pridie Capitule.

EG vil dikta um Dyrdar-Verk, Er DRotteñs giorde Honden sterk, Prijsa þau sem vel er vert, Og vottar Moñum Skrifteñ bert.

Vijtt um giorvallt Veralldar Bool, Veiter Lioose hin fagra Sool, Skiærara i Heime hier, Hvoriu þvi sem kieñum vier.

Helgur margur i Heime bioo, HErrañ gaf þad ongvum þo, Guds Verk oll ad greina ligost, Greip þad alldrei Mañlegt Briooft.

Vnderdiwpsins Edlis Far, Og allra Hiortun ransakar, Huxast eingeñ Hlutur sa, Hañs sem Augum dyliast ma.

Eiskuleg eru oll Verk hañs, Yfergaanga þö Skilning Mañs, Hlydeñ viña hvort þad Stark, Sañ sem bydur og þeirra þarf.

Tvent æ moote Tveimur sieſt, Tæallauſt giort med ongvañ Breſt, Hvoriu þeirra siidañ sett, sierlegt Gagn ad viña riett.

Skaparans Dyrd Meñ skynia þa, Skiærum Augum lijta æ, Ad Festingar Himen hæar, Harla trauſtur ljoos og klaar.

Vppreñande ærla Sool, Endurlyser Jardar Boel, Skamtar Dag med dyrre Ferd, Dæasemd soñ og þackar verd.

Heit og skiær þa hæar er Dagur, Haudred þurkar Geisleñ fagur, Vermda frioosgar Folldar Root, Fær þar eingeñ staded æ moot.

Gnægre Hita giefur af sier, Eñ glooande Ofnar marger hier, Geisla ber og Biartleik þañ, Ad blindad fær hun skygnañ Mañ.

Mykla Dyrd og Megned rijkt, Mun sæ hafa er giorde slijkt, Og heñe baud ad hlaupa greitt, Hindra lætur ecke neitt.

Tungled geymer ad Tijma sijn, Tijtt um alla Verolld skijn, Maanud eiñ fræ odrum snogt, Og Ared jafnañ skamtar glogt.

Þetta Liooſed Alldar eitt, Ymeſt vex eda þverrar greitt, Maanud sierhvorn mæler beſt, Merkelega þo umbreyteſt.

Lijka allur Himna Her, J Hædum giefur Lioos af sier, Stiarna Fiolde furdu skiær, Festingena pryda þær.

Eirneñ baud og ætlar þeim, Vpp ad lysa þeñañ Heim, Þær geyma Skamt og Skickun þa, Sem Skapareñ Hæſtur sette uppæ.

Riett þu skoda Regn-Bogañ, Rijkur Gud þvi giorde hañ, Og Lite fagra liet þar æ, Lofe þetta hvor sem mæ.

O Rotteñs Rædur dyrlegt Raad, Ad drijfur Snioor og byrger Laad, Opnaſt Himeñ og Ellda gnyr, Odrum hvor i moote snyr.

Eins og fliwga Fuglar hier, Ferdeñ Skya mootlijk er, Guds af Krapte þyckna þo, Og þadañ sender Hagl og Snioo.

Reidar Þrumur herder hañ, Og hrædaſt lætur Folldar Rañ, Skielfing kieñer Skiepnañ oll, Skoogar Merkur Daler og Fioll.

Guds ad vilia Vindur megn, Veſtañ blæs og þar i giegn, Vtañ Suñañ ymeſt fer, Eins og Flugl þeir swa sier.

Drivvar um Jord þeir dreifa Snioo, J Drijfter vijda fellur þo, Af þeim mykla Hvijtleik hañs, Harla blindaſt Augu Mañs.

Hielu dreifer hañ Haudred æ, Hun er lijk sem Sallt ad siæ, Verdur ad Jſe Vatned hier, Vedrid þegar ad kalldaſt er.

Vatned

Vatned þa þad Vindur slær, Vollduġt Asl og Horku fær, Hrylleſt braatt hid hæga Hlie, Harneſkiu ſem klædt þad ſie.

Med Blaaſtre ſtoorum birker Fioll, Breñur og þornar Morkeñ oll, Eins og Vollꞇ eñ verme hyr, Viſnar hvad ſem grænt var fyr.

J moote Purknum þvi er giord, Pokañ diñ ad verie Jsrd, Epter Hitañ Oſka Reꞇ gn, Endurnærer heñar Megn.

Med Orde Sioonum hamlar hañ, Hvorge wt ad briootaſt kañ, Jñſett hefur þar Eyia Lond, Vñſerd hañs er Haaſka vond.

Vndran morg þar iñe bioo, Augum Maña ſkialldſien þo, Hvala Kyn og Kvikinde fleſt, Kynia margt er ecke ſieſt.

Hañs ſem Ord hefur aadur ſett, Aller Hluter ſtanda riett, Pepie kuñum þeſſu ad naa, Po vier morgu ſeigium fraa.

Hañs þo Giorder hefium meſt, Med Heidre þeim er kyñum beſt, Myklu hærre er HErrañ ſterke, J hvoriu ſijnu Dyrdar Verke.

J Makt og Vallde meire er hañ, Eñ Mañleg Tunga ſkyra kañ, Po vier lofum meſt ſem maa, Myklu ſtærre er Tigneñ haa.

Hañ hefur eingeñ Augum ſied, Saa Edled Synda bygger med, Hvor mun kuña i Heime þa, HErrans alla Dyrd ad tiaa.

Giet eg ad faatt af Giordum hañs, Gieſſt ad lijta Augum Mañs, Añad furdu fleira er, Fyrer oſs dulſt i Hollde hier.

Alla Hlute um Heimſins Alfur, Himna-Styrer giorde ſiaalfur, Greindra Verka gaf þo fleſt, Gudhræddum ad ſkynia beſt.

Fodurnum hæſta Heidran ſterk, Fyrer hvort og eitt hañs Dyrdar Verk, Sie aan Enda ſogd og tied, Syne og Helgum Anda med.

Syrachs dyrañ Sagna Paatt, Settañ riett a Rijmu Haatt, Læt eg mætañ lyktaſt hier, Af Leſara þeſs eg oſka mier,

Mijn Vanmælen virde betur, Viſku Breſt og braakad Letur, Viliañ mig ei vanta bar, Veyk Kuñaattañ helldur var.

Par Oſpekeñ Spilling giefur, Spakmaalum þeim Bookeñ hefur, Hygner bæte um hart og myrkt, Hiner laate ſtanda kyrt.

Lof ſie Gude er Lærdoom gaf, Eñ Lydum verde Skiemtan af, Virtrár Kveikeñ kolnad er, Sem Kvædum lagde eg under hier:

Kieñing Nafns vid Kvæded ſeſt, Kys og greiner Bookeñ beſt, Syrachs Rijmna ſeytian hier Samſetningar Ender er.



# FLOCKA VIJSVR
## EDA
# Heilræda Vijsur / wt af Fioorum Mañkostum og Dygdum, Sem kallast.

| | |
|---|---|
| Sapientia. | Speke, Viska. |
| Iustitia. | Riettvijse. |
| Fortitudo. | Hughreyste. |
| Temperantia. | Hoofseme. |

## Af hvørium allar adrar Dygder og Sidsemder framkoma, og Vppspretta, i Vijsu Ord samsett og snween, Af Sijra Jone Biarnarsyne.

FJoorar frægar styra, Froomleik Veg og Sooma, Allra Maña i mille, Marg hæfar til Giæfu, Frijdum fylger Systrum, Fiølde af Dygdum vøldum, Pær prijda dyrum Dœdum, Dreing þañ epter geingur.

FORSJAL er hin Fyrsta, Flock dyrum vel styrer, Samjøfn sijdañ nefnest, Søñ RJETTVJSE Oñur, Hier med heiter hin Pridia, HUGHRAUST med Lund trausta, Fiorda Hoofed hirder, HŒFELAT i Mœta.

Skylde Ungdooms Ølldeñ, Adur sagdar Dœder, Fiorar swslega læra, Er Forprijs af mœrijsa, Vel falleñ i Elle, Er sœ þessum nœer, Jeg vil Lijdum Liooda, Lystugur Flockeñ Fyrsta.

## Fyrste Flockur Dygda og Mañkosta.
### Guds Otte.

VPPtøk ædstrar Speke, Jþroott er Guds Otta, Giøf þa hvør sem hefur, Er hyggeñ og Aldyggur, Hæg sœ HErrans Augu, Hugar-Rañ og Verk Maña, Piood skal hier vid hrædast, Og Hafna Løstum jafnañ.

### Elska Guds og Trweñ.

Uñ þu med Ast sañre, Einvallds DRottne hreinum, Atreyst og bid Christum, Er oss vañ Lausn a Krosse, Goodverk giegnar Rædur, Giørda Mœltijd hvøria, Efu þu i hañs Nafne, Ætijd med Packlæte.

### Allt ad giøra i Guds Otta.

Verk þoott viña orker, Vijst fyrr eñ þad byriar, Bid Gud fyrer þier greida, Giefa Nœd heill og Dœder, So Størf sie Piood til Parfa, Packnæm og vel ræmest, Good og gagnleg Jdia, Giet eg so luckest betur.

### Ad byria eckert yfer Megn.

Adur eñ efnar Smijde, Adgiættu hvørt mætter, Sijdañ siœlfs af Dœdum, Sœmelega framkvæma, Uñi Megn øngvum hagnar, Afl vid Stein ad reyna, Piood ad þier mun Hæda, Pijn ef Orkañ dvijnar.

### Gott ad læra, og Guds Ords Pioona ad Heidra.

Vijsdooms sætum Seime, Safna skalltu jafnañ, Meir eñ ødrum Aurum, Ovøllt Viskañ proofast, Ord Guds og þiñ Hirder, Eyrun giarnañ heyre, Heyrn þvi lied er Lydum, Ad lærum vier hvad oss bære,

Forelldra

## Forellda ad Heidra.

Fødur þiñ haf i Heidre, Hyrugoodur siert Moodur, Uñ þeim þeirra Kieñing, Pu geym eñ ei gleymer, Audmyk epter leider, Wke laanga Giæfu, Añars er þijn miñe, Audeni Trygd og Dygder.

## Hyggeñ Sonur og Heimskur:

Siñ Fødur sañgledur, Sonur hyggeñ og dyggur, Audlegd Hefd og Heidre, Hañ velldur Forelldrum, Styrseñ Ovitur Arfe, Er þeim bañ fraa Seime, Angur Omegd þyngre, Og Ohroodur hiaa Pioodum.

## Børn upp ad fæda.

Børn vel upp ad ala, Allvæn Dygd maa kallast, Starf Audur og Atgiørfe, Alþydu Mañ pryder, Ungur skal fyrst faanga, Frægd af Menta Nægdum, Daad og Dreingskaps Heidur, Dreing þa hellst þvi leingur.

## Ad hlyda goodum Kieñingum, og kieña Faafroodum:

Halltu i Hoose stilltur, Hag þiñ þar hiaa sviñum, Er Lister og Lærdoom traustañ, Lijfs Boot mætter hlioota, Iñtak Visku veykañ, Viliande gott skilia, Peim er kieña kuñer, Kieñing Leidriettingar.

## Pad ødrum bydur hallt siaalfur.

Hvad þu hallda bydur, Hvørn Dag Kienslu-Børnum, Attu Sidsemd setta, Syna i Verkum þijnum, Høfuded Gaum ef gleymer, Galed og Ovit talar, Utlimer aller villast, So eingeñ riett frañgeingur.

## Ad fordast Fagurmæle.

Varastu Vidsiaar-Giesteñ, Veide Mañ laat þier leidañ, Sem Hunang hefur aa Tungu, Hañ finst i Raun añar, Braud ein Hønd hañs syner, Hin leyner þo Steine, Sijnum opt Ordum reynest, Olijkur margur Doole.

## Ad siaa vid Følskum Moñum.

Betra er Madur ad mæte, Mørgum flimgande Vørgum, Eñ Oheilum Mañe, Er Ord sæt frañe lætur, Dautt Hræ Hrafna mettar, Hrædast hvørn er siæde; Hiñ Miwkorde Muñur, Moñum lifande grandar.

## J Vørgum ad gaanga.

Vijtum og vondu Sæte, Varna skalltu þier giarnañ; Utgiølld under ad jaatast, Yfer Megn nockurs vegna, Sa so Footlegg lætur, Løngum i Stock þrongvañ, Opt fær Aura svipter, Orsnaudur til Dauda.

## Viska er betre eñ Afl.

Betur stodar i Strijde, Stødug Viskañ og Dugur, Helldur eñ Garpa gillder, Gott Sverd, Traustar Gierdar, Eyder eiñ med Raadum, Akiesd margra Straaka, Laust maa Lydur treysta, Lids Hoop heimskra Gloopa.

## Goodur Vilie er Sigursæll.

Peim best Verk sijn viñast, Vilie greidur sem leider, Øll þa Erfidt falla, Er mest Neñing brestur, Packnæm þeyge reiknast, Pørf eñ naudug Størseñ, Lostug leysa flester, Leid ef koma af Reide.

## Lofa øngvañ nema þess sie vel verdur.

Adgiæt ef þu veiter, Einum Lofstijr hreinañ, Virding Upphefd Orda, Æru verdur hvort være Dreinger launa løngum, Lytum Sæmder nytar, Heidur hlyder goodum, Hañ spiller þeim illa.

## Lꜳt ecke Hiarta þitt i lioose fyrer hvørium Mañe.

Hug þiñ hvørium Mañe, Hirtu sijst ad birta, Kost eda leynda Leste, Lꜳt þu kyrt ad jꜳta, Piñ ef þeiger Muñur, Uñ þad sem mætte skada, Illt þa um þig bullta, Ei kañ nockur añar.

## Seig ecke leyndar Hlute Vinar þijns.

Hugfast hvør þier treyster, Heimugleik ad geyma, Halltu hvad þid mælltud, Hreina Dygd og Trygder, Heipt hañs eñ þvott aptur, Areiting þier veite, Lꜳt þad ei þig etia, Einka Mꜳlum ad briꜳla.

## Valldstiett Vande fylger.

Ad geym ꜳdur i Tijma, Ef þu skyllder hefiast, Hꜳtt til Heidurs Stiettar, Hvad þig kañ ad skada, Þess hættara hvør dettur, A Hæd sem ofar stæde, Vandañ Vegsemd bindur, Vijst hægre þeim lægra.

## Klock Kviña og fagurmællt.

Muñe klookrar Kviñu, Kiæte og Ordum fætum, Hlyd og trw þu traudur, Tꜳl þvi fylger Mꜳle, Vid Segg Siñis styggvañ, Sæmra trw eg ad bwa, Eñ blijdlꜳta Brwde, Sem Blygd veit ei nie Trygder.

## I Tijma skal Lækningar leita Meine hvøriu.

Kannum og Krꜳnkdooms Meine, Kvillar ꜳdur eñ spillast, Bootar er best ad leita, Brꜳtt sem fliootast mꜳtte, Leider Dvøl i Dauda, Dreing ef þreytt er leinge, Ungdooms Athøfn rꜳnga, Adgiæt snart ad bæta.

## Vinur goodur i Neyd.

Pañ er Krꜳnkdoom kieñer, Kvijdu og Hugrann strijda, Huggar og gledur gløggvast, Goodur Samlags Brooder, Yfergiefa vijst varast, Vin þiñ i Neyd siñe, Styrk med Vilia og Verke, Veit siwkum og Stod minka.

## Ecke er Hyggeñ hægt ad veida:

Vænte eg varla hente, Veide-Net ad breida, Fyrer slæg Fuglsins Augn, Fꜳng mun erfitt gꜳnga, Lijka Visku veykum, Veit eg þo til leite, Vitrañ og adgiæteñ, Ecke vinst ad bleckia.

## Skipte og byte vid slægañ Mañ ad eiga.

Hept þier ad hafa skipte, Hvørke Lag nie Kaupslagan, Vid þañ Rannar reyneſt, Riettslungeñ til Pretta, Gotz þad er greider þessum, Giører vel fær ad selur, Glatad þier giørla viter, Gott er ad siꜳ vid Spotte.

## Ad Afla og kaupa i riettañ Tijma.

Forda Bws og Birder, Best er ad kaupa mestar, A medañ Efneñ stoda, Og eingeñ Neyd ad geingur, Vilier Fædu fala, Fort þegar sæker Skortur, ei mun tækur Tijme, Tijd þu harda bijdur.

## Alla Daga Forsiꜳll, fær Lofstyr goodañ.

Forsiꜳll fram i Elle, Fiñur Lof af sviñum, Goodur og giegn i Rꜳdum, Giæfuna fær uñ Æfe, Læt eg Hof-Mañ heita, Hañ er breyter þañeñ, Sie þeim Gagn er geymer, Grandlaust Flockur stande.

## Añar Flockur.

Af RMañ Flock eg iñe, Aldyrañ þeim styrer, Sañgiørn siw mꜳ kieñast, Siꜳlf prijsud RIETTVISE, Fræg hun dreiser driwgum, Dygd uñ Landa-Bygder, Hlydeñ heñar Rꜳdum Hañ mun froomur sañast.

## Ad vera Riettlꜳtur i Ordum og Giørdum.

Raust Riettlætis Fyrsta, Room hañ hefur i Doome, Añar ad øngvum viñe, Oriett Meinie

nie Prette, Hafe sitt hvør þad ætte, Häfne raungu jafnañ, Pad eitt ødrum bioode, Er ſier vill giørt vera.

## Skil þu Søkena ædur eñ Dæmer.

Ofæattum yfer settur, Eiger þu Doom ad ſeigia, Stijng æ Urskurd øngvañ, Adur eñ hlyder bæadum, Añars Kappeñ kuñur, Kallaſt Riette halla; Eñ þótt efna kuñe, Alykt ſaña æ Mæale.

## Illa kyntum eingeñ trwer þo ſatt ſeige.

Ef Mañ ædur viñur, Oræadvendne ſtoora, Fæangeñ Løſtum leinur, Lyge og Pioofnad dryger, Eñ þo ſeige hid ſaña, Og Sakvar verda take, Ill-Kyñing því olle, Ad Odreing trwer þeim eingeñ.

## Elska Dygd og alla Mañkoſte.

Ætijd læat þier leida, Lygd eñ ſtunda Dygder, Gedminkur Gudrækeñ, Giæt vel Lijtelætes, Heill trwr og hreiñ øllum, Halldeñordur Fridvalldur, Goodur og giegn i Ræadum, Giæfur og ſnideñ i hæfe.

## Añaſt Naudþurft Voladra.

Eitt vil eg einkum votta, Ætijd ſkyllder giæta, Voludum veita Hæle, Vægd og Lidſemd Hægdar, Pa mun æ þeckum Tijma, Pioodvalldur kaun giallda, Ad Vinſæll hafer þu Hylle, A Hædum og Jørdu bæde.

## Pecktu ſialfañ þig.

Sioalf Næatturañ ſette, Sañañ hvøriun Mañe, Skap-Løſt eiñ ſem optaſt, Aſtrijder Mañ tijdum, Valla ver ſig Føllnun, Vill þo ſtundum ſtilla, Pañ er Porf ad kieñum, Po til Yfervootar.

## Gud ſteyper Rærnglærtum, eñ hefur þa hañ Ottaſt:

Ogudræked Æde, Og Dramblæte mæter, Hætre æ Himna Setre, Eñ hørdum Doome æ Jørdu, Almæattugañ ad Ottaſt, Er Slood Lijſſins gooda, Eilijf Sæmd og Sæla, Soñ hiæ Gude og Møñum.

## Sæler eru hrein Hiartader, Hiner Heillalauſer.

Pioonum Hiarta hreinum, Heiter Gud ad veita, Ræad og Bleſſan bæde, Beſt Lijf giefur fleſtar, Eñ Omilldum Møñum, Eyder DRottens Reide, Tyna þeir Lucku Læne, Lijka og Himna Rijke.

## Idran ſie af Ofølſku Hiarta.

Pegar Vending fræ Vondu, Viñur ſkalltu miñaſt, Ad vond Ord Boot eige binda, Beſt er Raun æ fleſtu, Hug læat trutt ei tregañ, Tæallauſt fylgia Mæale, Aflæat hafer þu heited, Halldtr Lijfs um Alldur.

## Varaſtu Pioofnad og Veſælañ Dauda.

Aura Skuldur ſtoore, Steypter Mañe i Sneypu, Pvi fær þrøngva Snørn, Pioofur og Gæalgañ proofar, Hæatt fyrer Handa Prette, Hæanger og ber læanga, Hæadung Hunda-Dauda, Hañ ſo fordaſt añar.

## Hiælpa þu Helſtoddum, hafer þu mæatt til.

Añañ ef þier viñur, Audvellt leyſa af Dauda, Eñ þu þiæadum Mañe, Pverneitar Hiælp veita, Hañ af Hardwd þiñe, Hel-Ferd gæanga verdur, Pvi mun æ þig aumañ, Allſtoor Skulldeñ falla.

## Sæa ſem gleymer Forelldrum, eñ gietur þo biargad, verdur ſtraffadur.

Dreingur hvør ed Aſt øngva, Endurgielldur Forelldrum, Neyd þau lætur lijda, Po Lids Megn ſie hiæ Pegne, Hañ mun þa Kvøl kieñer, Kallande heyraſt valla, Margt Gud Møñum lijdur, Miñugur vill þo ſiñaſt.

Yy Halltu

## Halltu Heit og Lofaner.

Varastu leida Leste, Lucku baned Mana, Trygd og Trunad bregda, Taal þad grandar Saalu, Heit-þijn hvørium jaatud, Hallt med Dygd ovallta, Mætast munt þa hlioota, Manord og Prijs sanan.

## Ærlegur og merkur, ødlast Heidur, en Otryggur Smaan.

Maalgløggur mun dyggur, Merkur og trwr i Verkum, Heidur og Hylle gooda, Hreinsinadur mun fina, Liootl er ad luma aa Prettum, Lijka og Vin sin svijkia, Hunang hafa aa Tungu, En hreinum Oheill reynast.

## Entu Lofun en þo þig þad bage.

Loford ødrum giefed, Ograndad skal standa, En þa Forsøll finast, Full Søk aptur tøku, Fliool ur hafer þu heited, Hvad þig meir maa skada, Helldur en hinum vallda, Hagnade og Gagne.

## Lofun kwgada er leyft ad riwfa.

Finast Efne ønur, Er þig Vijtum veria, Nyta ef nockrum jaatar, Naudugur Lofun trauda, Eda af Daada daufum, Dreing med Vielum feingen, Proofud Raunar riwfa, Riettlaat Logen þetta.

## Halltu best hvad heiter Gude.

Hvad sem hefur þu goodum, Heited Gude ad veita, Biud aa bestan Enda, Braatt aan Undandragttar, Leid er Lofun Piooda, Ef lijdur og bregst þa sijdan, DRottne Gining Gumna, Gied þeck virdest ecke:

## Gott skal øllum giora.

Sett hefur soddan Haattu, Sangiarn Skapare Mana, Ad Styrkur og Stod hans Verka, Stæde Pioodum til gooda, Giørde og Heimsins Hirder, Hvørn Mana fyrer anan, Eirn so ad ødrum giarnan, Ine Gagn ad vina.

## Illur er saa Aumum Styrks i Eymdum syniar.

Raanglaatur hvør heiter, Han er aumum Mane, Nærd i Naudsyn strijda, Neitar beden ad veita, Mein i Maalum syner, Mootfall Riette hallar, Sleiten laust ad laata, Lid þeim þryckest nidur.

## Rijkdoome med Raangindum ad safna.

Audsafn alldrei siofner, Med Oriette nie Prettum, Fagra anars Eigu, Ecke laattu þig bleckia, Fallvøllt endast illa, Ofind Føng med røngu, Siaa þu Auds og Idiu, Ender hvar mune lenda:

## Hvad Hwsbonde skal Hiwum veita:

Sidastioorn og Sangirne, Sijn þu Vinu Hiwum, Allt hvad aatt med riettu, In þeim er þier vinur, Laat han liwsu mæta, Lund ill skadar stundum, Samlynde ver vondu, Værd nyar Mat dryger.

## Hvad Velgiørda Mane veita skallt:

Milldleik mestan giallder, Mane þeim er þier sana, Ast og Adstod trausta, Ætijd i tie lætur, Anan þott ei kiener, Æra ef honum bære, Vird han vel i Ordum, Vist froomur saa ed roomast.

## Illt er vont Rykte ad hafa.

Vond Kynning ver Mane, Valld nie Heidur ad halllda, Sveit aa sijst ad jaata, Sæmder illa ræmdum, Mest ættu Mankoster, Mæte hvørs ad bæta, Raadvøndum ber reyndar, Rietturett haarrar Stiettar.

## Dygdu Faatækum, Fødur-Lande og Ætt-Monum,

og Grønum goodum:

Auk

Aureiga einkum duger, Er mest Naudþurft brestur, Mundu og Moodur-Lande, Mañdooms Stod ad vanda, Uñ þu Yfer-Møñum, Ættræker sem ætter, Piñ Bæ gooda Grañа, Gled þu Sæmdum medur.

## Vingiarn vid alla, vakte siaalfañ sig.

Halltu i Hoofe stilltu, Hvørn Mañ Vin þiñ sañañ, Giæt þijn vel vid Vijtum, Varnadu skada giarna, Giæfd Slægd hvør sem hefde, Heims Frid og Spekt Sida, Ugglaust hvør sem hyggur, Hañ maa Londeñ kaña.

## Røng Vog, Stikur og Mæler orka Reide.

Saaluñe Synkur Mæler, Svikul Vog og Stika, Giølld bruggar Gud stygger, Giefur Room þungum Doome, Still so i Efnum øllum, Ad meiger trwr feigiast, Neyd bæta þeim bidur, Best mun ei ad fresta.

## Yfergief ecke Vin þiñ i hañs Neyd.

Vin þiñ vird þu sañañ, Vel af Astar Pelé, Ef Luckañ hañ læckar, Lid gott skyllder votta, Argur ert ef aatt hvørge, Athvarf þad þig batar, Vit þad Vellde betra, Vijda ef añ þier Lydur.

## Lastvar skyllde saa adra lyter.

Ef Mañ ødrum fiñur, Avijtur og Lyte, Sitt Lof siaalfur votte, Sakvar i Dagfare, Ef lister þig Leste, Liouta nidur ad Brioota, Tak fyrst til hiaa næstum, Og tijn wr Barme þijnum.

## Barna Age og Typtan.

Þvingadu Son þiñ Ungañ, Parflegt Naam ad starfa, Lærdu hañ Lete ad fordast, Og Laatgiædes Siaalfræde, Opt mun illa vaneñ, Alldradur þess giallda, Prioſk Otameñ Æska, Elle Sorg aa feller.

## Ungur þad skal læra er Gamall hafa skal:

Geymſ ad i goodañ Tijma, Gagn hvørt best maa hagna, Ungur Afle faanga, Æfeñe til Giæfu, Hirduleysed harda, Hreller Mañ i Elle, Offeint Heimskañ hentar, Hæruskoteñ ad snotra.

## Hvør er sijnum lijkastur:

Hvad af ødru fædest, Eins Mynd og Skap-Lynde, Æ mun aa sier syna, Sem gietande fremur, Sæded og Mivolkeñ Moodur, Mest velldur Svip flestum, Tign og Breytne Bragna, Blandar so Ungdooms Vandeñ.

## Nidurlag Añars Flocks, uñ Riettvijssena.

Vinur miñ vil eg þier kieña, Vareygd i Dagfare, Good Naad Giptu Sæde, Gott med Otta DRottens, Riettlæted Naun jaatar, Room þañ Christnum foomer, Giæt þess þvi skal wte, Pañ veg Flockur Añar.

## Þridie Flockur er uñ Hughreyste, og þær

### Dygder heñe eru teingdar:

## Hugarhreyste.

HEited hef eg ad hnyta, Hier vid Flockeñ Þridia, Hoop þeim styrer stoorum, Stødug HREYSTEN HUGAR, Mun sw mørgum reynast, Mañleg Dygdeñ sañа, Vijtt wt Naaser riettar, Reña Kvister heñar:

## Heñar er Þørf i Þrautum øllum.

Harka og Hugar styrkur, Hvøria Snilld vid gillder, Alla Sorg wte byrger, Angur og Kvijdañ straanga, Pañ Kost Þegn ef brestur, I Þrautum Hiarta blautañ, Hañ maa Kviñu kieña, Eñ Kallmadur telst valla.

## Hrausta Lund bugar Naun eingeñ.

